# Fimmtíu Hugvekjur

edur

# Píslar-Þánkar,

útaf

Historíu Pínu og Dauda

Drottins vors Jesú Kristi,

samanteknir af

Síra Vigfúsi Sál. Erlendssyni,

fyrrum Sóknar-Presti ad Setbergi og Prófasti i Snæfells Sýslu.



---

Videyar Klaustri, 1835.

Prentadir á Forlag Sekretéra O. M. Stephensens,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# 1. Píslar-Pánkt.

Um Kristí útgaungu í Grasgardinn.

### Inngángurinn.

Gott verk útheimtir ætíd gódann undirbúníng! vid eigum nú, sála mín, ásamt ødrum Guds børnum, á nærverandi Føstu tíma, ad taka ockur fyrir hendur eitt gott verk, þad stærsta skylduverk allra manna, þad ædsta glediverk allra Guds barna, sem er: ad halda opinberlega minníng bitrar pínu og blódugra krossins qvala, Guds eingétins Sonar og vors ástríkasta Endurlausnara Jesú Kristi. Víst er þetta gott verk, sála mín! því eckért vitum vid ockur annad til miskunar, heldur enn Jesúm Kristum þann krossfesta, 1 Cor. 2. Gleimum því ecki ad brúka gódann undirbúníng gudrækilegrar andaktar, eptirtecktar og íhugunar. Vøknum upp af ockar andvaraleysis svefni; vakni hjarta, hugur, mál og minni, já allir ockar innri og ytri kraptar selji síg nú hid dýrasta, svo vid festum nú ockar Frelsara Jesúm, og hans heiløgu pínu, svo sem eitt innsigli á ockar hjarta, Lofqv. 8. Víst er þetta hid stærsta skylduverk allra manna, bodid af blessudum Drottins anda fyrir munn Postulans Páls, ad vér skulum minnast á Jesúm sem mót-

mælin þoldi, Hebr. 12. og kunngjøra dauða Drottins þángað til hann kémur, 1 Cor. 11. Jesús lét sig hjartanlega lánga til að líða qvalirnar, ockur til eilífrar endurlausnar, Lúk. 22. Verðugt er það, að við, sála mín! gleðjum ockur við það, að minnast þessa Jesú miskunar verks, hans háleita nafni til heiðurs og vegsemdar. Enn Guð náði ockar óþackláti! Jesús útgaf líf og blóð til að leysa ockur og frelsa, en við nennum svo skjaldan sem aldrei, að minnast þess og þacka honum þar fyrir sem byrjar, þetta skal ockur af alvøru ángra, og kostum nú kapps um guðrækilega bót og betran að gjøra. Víst er það hið æðsta gleðiverk allra Guðs barna, Jesú heiløgu pínu í munni og minni að hafa, því hvað kann þeirra hrædda hjarta vegna syndanna krøptuglegar að hughreysta, enn Jesú pína, sem er forlíkun og bót fyrir allar veraldarinnar syndir. 1 Jóh. 2. Hvað kann þeirra sorgandi hjarta í eymdunum sætlegar að svala, enn sárar Jesú qvalir, sem gjørðist maður hørmúnganna, svo hann kynni að hafa sampíníng með þeirra eymdum. Hebr. 5. Hvað kann vor til ílls hneigðu hjørtu betur að leiðrétta enn Lausnarans bitru píslir, sem kostaði svo miklu til þess, að vér, af syndunum leystir, skyldum verða réttlætisins þjónar, Róm. 6. Hver gétur verið sjónarspeigillinn fegri fyrir vorum augum, enn það alsærða Jesú hjarta á krossinum, í gégnum hvert vér meigum með gleði sjá Guðs Føðurs ástarþel til vor í himninum, hver eð útgaf sinn eingétinn Son til þess, að allir þeir sem á hann trúa, skyldu ecki fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Jóh. 3. Þetta háleita efni viljum við nú, sála mín! í Drottins nafni nockuð gjør yfirvega. O Jesú! send mér

anda náðarinnar og bænárinnar, anda ráðs og styrkleika, anda viðurkénníngarinnar og þíns ótta, Sach. 12. svo að sérhvað hér um hugleidt, samið og uppteiknað, verði þínu háleita nafni til dýrðar, en øllum þeim, er lesa eða heyra, til æskilegasta sálar gagns, og gleðiríkustu blessunar nota. Amen!

## Textinn.

Og sem þeir høfðu lofsaunginn súngið, gékk Jesús út, sem hann var vanur, yfir um lækinn **Kedron** til fjallsins **Oliveti**, en hans **Lærisveinar** fylgðu honum eptir; þá sagði hann til þeirra: á þessari nóttu munuð þér allir hneixlast á mér. Pétur svaraði og sagði til hans: þó allir hneixli sig á þér, þá skal eg þó aldrei hneixlast; Jesús sagði til hans: sannlega segi eg þér, að í dag áður enn haninn galar tvisvar, muntu afneita mér þrisvar. En hann Pétur talaði þá enn frekar: þó eg ætti að deya með þér, þá skal eg ekki afneita þér. Slíkt hið sama søgðu allir Lærisveinarnir.

Sexslags blómstur sáluhjálplegra lærdóma finnum við, sála mín! í þessum himneska aldingarði, hverjum við skulum í hjarta ockar innsafna, nefnilega: 1. Að Drottinn vor Jesús hafi ásamt sínum elskulegu Lærisveinum, lofsaunginn súngið, að endaðri sinni máltíð; og það má víðar lesa í Guðspjalls søgunum, að Frelsaranum var tamur þessi fagri vani, að byrja sitt borðhald með blessan og bænrækni, Jóh. 6; og líka að enda það með lofgjørð og þackläti við sinn himneska Føður, Mark. 8. Hafi nú Sonur Guðs, sem

alls ráð átti, bæði á himni og jørðu, Matth. 28. ecki viljað við sitt borðhald þessu guðrækniß verki gleyma, ó! hversu miklu framar ættum við að þeckja það skyldu vora, bæði að leita vors brauðs með biðjandi hjarta, og líka að neyta þess með þackandi túngu og þýðri lofgjørð við hinn lifanda Guð, sem fyrir oss volúðum og alls góðs þurfandi vesælíngum upplýkur daglega sinni ørlætis hønd, og seður allt hvað lifir með velþóknan, Psálm. 145. Guð varðveiti ockur, mín sál! frá þeirri viðurstyggilegri synd, að við með vondu óþacklæti vyrðum lítils Drottins náðar gáfur, og birgjum svo aptur fyrir ockur brunn hans náðar og blessunar.

2.) Merkjum við, sála mín! að Lausnarinn vildi hvergi út af húsins dyrum hræra fót sinn, fyrr enn hann hafði bænar og þackkætis lofsaung sínum blessaða Føður súngið; lærum og høldum þessa loflegu Lausnarans venju, nær vér birjum reisu nockra frá heimilum vorum, leitum oss þá fyrst með bæninni náðarríkrar fylgðar og føðurlegrar varðveitslu hins góða Guðs, að hann virðist að farsæla øll vor fótspor, og gefa oss heilum heim aptur að koma, Tob. 5.

3.) Er vel athugandi, að þegar Lausnarinn gécк útaf húsinu, láu hans leiðir yfir um lækinn Kedron, sem hefur sitt nafn af dymmu og sorta; þanninn er allt vort líf einn ýduglegur rauna ferill í gégnum hryggðar dal og hørmúnga læki heims þessa. Gott er Guðs vilja að taka; Jesús hlaut þessa sorgar-gøtu undann oss að gánga inn í sína dýrð, Lúk, 24. Hjálpi oss hans mikla miskun til þess, að fylgja honum svo fastlega eptir, að vér um síðir fáum komist í gégnum

allar hrellíngar inn í hans himneska dýrdarríki, Post. G. b. 14.

4.) Sje eg hér dásamlegt dæmi þinnar ástúdleguſtu hógværdar, minn Herra Jesú! þú géckst sjálfviljugur inn í Grasgardinn, og gafst þig í hendur þinna óvina, svo ad sem minnst vandrædi edur órói þyrfti þar af ad orsakast; feiginn vil eg Drottinn minn! af þínu dæmi læra, ad hafa frid, svo mikid sem møgulegt er, vid alla menn, Róm. 12. eigi leitandi míns hagnadar med annara skada, heldur allt þad med þolinmædi lídandi, sem þér þóknast ad láta mér tilfalla. Eg hefi hlæandi áfram anad þann breida veg, sem leidir til gløtunar, þú géckst hér grátandi yfir um Kedron mér til hjálprædis og miskunar; lof sé þér, Lausnari minn! ad eilífu, og vyrdstu nádarsamlega ad greida mína eymda gøtu til æskilegrar blessunar og gledi.

5.) Er vel merkjandi, ad Jesús géck inn í Grasgardinn Gethsemane, hvar hann blessadur var fángadur til lífláts og dauda; mitt líf má med øllum rétti kallast Grasgards gánga, á hverri eg alltíd meir og meir nálægist grøfina og minn dauda; vakta þig í Guds nafni, sála mín! vid þeim græna og lystilega syndanna vegi, því ef ecki er í tíma adgjørt, þá leidir hann ad lyktum til eilífrar gløtunar: látum ockur því nidursá heitum ydrunar tárum medan vid hrekjumst í heiminum, þá munum vid í Jesú nafni øðlast uppskéru eilífrar gledi í himninum, Psálm. 12.

6.) Lærum vid, sála mín! hversu náqvæmlega nádarríkur Jesús varar sína elskulega Lærisveina vid yfirvofandi hrøsun og voda: á þessari nóttu (segir hann) munud þér allir hneixlast á mér. Samur er sá

blessadi Herra í miskun sinni og mildi við ockur, sála mín, hann sjer best, hver neyd eda vodi vill ástrída, hann hefir géfid ockur medølin, og vill veita ockur krapt sinnar nádar, allt bøl og andstreymi ad sigra og yfirvinna. Verum því styrk og ørugg í Gudi og hans nádar hjálprædi, Eph. 6. en treystum aldrei ockar eginn mætti, eins og helgann Drottins Postula Petur henti, því af hans dæmi meigum vid læra, hversu nálægir vér erum ólucku og hrøsun, en ónýtir til alls góds, þegar Gud tekur í burt sína hjálpar og nádar hønd. O minn mildiríkasti Jesú! væg þú best og líkna veikleika mínum; géf mér gudrækilega þess ad gæta, ad eg ber þann dýrmæta féssjód þinnar nádar og minnar sáluhjálpar í breisku og brothættu leirkéri, 2 Cor. 4. Lát því, ó Herra! þinn miskunar krapt stydja mig og styrkja, svo eg fái barist gódri baráttu trúarinnar og høndlad það eilífa lífid. Amen!

## 2. Píslar-Pánki.

### Um Kristi kvøl í Grasgardinum.

Jesús kom þá med þeim í það akur-gjerdi, sem hét Gethsemane, þar var einn grasgardur, þar géck Jesús inn, og hans Lærisveinar. En Júdas, sá ed sveik hann, vissi og þennann stad, því Jesús safnadist opt þángad med sínum Lærisveinum. Og hann tók med sér Petrum og Jacobum og Jóhannem, þá tvo sonu Zebedæi og tók til ad hryggjast, titra af hrædslu og harmþrúnginn ad verda, og þá sagdi hann til þeirra: mín sál er hrygg allt í daudann, blífid hér og vakid med mér. Og hann sleit sig í burt frá þeim, og géck litlu framm leingra

nær einu steinsnari, og kraup á kné, féll framm á sína ásjónu til jardar og bad, ef þad møgulegt væri, ad sú stund hjá sér lidi, og sagdi: minn Fadir! ef møgulegt er, þá víki þessi kaleikur frá mér, Abba, Fadir minn, allt er þér møgulegt: tak burt þennann kaleik frá mér, þó ei hvad eg vil, heldur hvad þú villt.

Blíd er bætandi hønd, þar sem blessadur Jesús á hlutinn ad, øllum sínum særdum og sjúkum vesælíngum til líknarfullra meina bóta og mildimjúkrar adhjúkrunar í allri neyd, svo hann er sannkalladur Drottinn vor grædari, 2 Mós. b. 15. Þad sannadi hann blessadur strax í uppbyrjun sinnar pínu. Adam leiddi fyrst syndina inn í heiminn í Eden aldíngardi allri verøldu til ólucku og fordæmíngar, 1 Mós. b. 3. Hinn annar Adam af himni, 1 Cor. 15. Drottinn vor Jesús Kristur, byrjadi sína bitru pínu í grasgardinum Gethsemane, Adam og øllum hans nidjum til endurlausnar og miskunar; skilníngs-tréd í Eden færdi af sér þann ávøxt sem Adam vard til nauda og dauda; lífsins-tréd, Lausnarinn Jesús, gaf af sér í Gethsemane guddómlegann ávøxt gledirikrar líknar og lífgjafar; himneskt laufblød hans heiløgu pínu munu mínu særda og sjúka hjarta til blessadrar heilsubótar best duga, Opb. b. 22.

Framar vottar Textinn, ad sá gudlausi svikari Júdas hafi gjørla þeckt þennann stad, og er líklegt ad sá argi skálkur hafi ádur hugsad sér, ad þar mundi hentugast Herrann Jesúm ad forráda, svo ad minnst á bæri, og hann gæti þess heldur hulid sín herfilegu Drottins svik. Lær þad, hér af, sála mín, ad vera

aldrei ugglaus um þig í þessum vonda heimi, hvar þinn skjæðasti óvin djøfullinn gengur um kríng, sem grenjandi Leon, leitandi bædi eptir þér og ødrum, sem hann megi uppsvelgja, 1 Pét. 5. Hann tekur vara á øllu tækifæri, og hefur í frammi hínar hættulegustu vígvélar til ad draga ockur úr Drottins nádarhendi, og halda faungudum undir syndarinnar þrældóm, eptir sínni vild, 2 Tím. 2. og vid þessum hans umsátrum megum vid hvad allra hellst búast, þegar vid í Guds húsi eigum Gudi hvad best ad þjóna, og vora sáluhjálp sem vandlegast ad vakta, Phil. 2. ecki er Satan heldur sveinalaus í sínu ríki; hreckvís heimsins børn eru hans erindis rekar til ad villa ockur á veg gløtunarinnar; voktum ockur því, sála mín, og grátbidjum gjædskuríkann Jesúm, ad hann blessadur virdist í øllum háska ad vera ockar hjálpar-skjøldur og sigurvinníngar sverd.

Þad vottar sjálf historían, ad Lausnarinn hafi optlega lagt í vana sinn, ad safnast med Lærisveinum sínum í þennann grasgard; og hefur hann blessadur, án efa, þeinkt þá, um sína pínu og dauda, og bedid sinn himneska Fødur hjálpar til ad yfirvinna píslirnar, mannkyninu til nýskunar, Lúk. 22. Helgud greftrunar pláts og legstadir Guds barna, meiga maklega kallast fagur Drottins aldingardur, hvar þeirra andvana lík upprísa í dýrdlegri vegsemd, 1 Cor. 11. Gjæt þíns Frelsara fagra dæmis, kristinn madur, svo opt sem þú gengur um þennann akur; lát daudans merki, sem þú sjer þar fyrir þínum augum, uppvekja í þínu hjarta daudans og upprisunnar gudrækilega endurminníng, og þad med svodd-

ann andakt, að hvert sem þú lifir eda deyr, þá meigir þú vera viss þar um að þú sért Drottins, Róm. 14.

Þegar Lausnarinn var genginn inn í grasgarðinn, lét hann nockra eptir af sínum Lærisveinum í vissum stað, en nockra tók hann afsíðis með sér, til að horfa uppá sína sálar ángist og dauða stríð; þar af skulum við, sála mín, taka ockur tvofaldann lærdóm. 1.) Merk þú, að Guðs heilög kristni má maklega andlegur grasgarður heita; Jesú útvalin brúður og elskandi lærisveinn átt þú, mín sál, að vera, þú sem í þennann grasgarð ert fyrir skírnina innleidd, til þess, að þú skulir afneita sjálfri þér, taka þinn kross uppá þig og fylgja svo Jesú eptir, Matth. 16. O! mín sál, sit þú með þolinmóðu, þacklátu og hlíðugu hjarta þar sem Jesús segir þér, og lát þér vel lynda það hlutskipti, sem honum þóknast að láta falla í þitt skaut; Allri þinni áhyggju skaltu varpa uppá hann, hann blessaður mun besta umsorgun fyrir þér bera, 1 Pét. 5.

2.) Lærum við, sála mín, að ecki vildi Lausnarinn einmana vera í sinni hörðustu hjarta sorg; eins skulum við í ockar freistíngum og uppáfallandi ángurs böli fordast með þúngsinni og einsetum að auka á ockar harma, en ástundum hjá Guði og hans elskendum að leita ockur hugsvölunar og harma bóta, því sú er náðar ráðstofun Drottins, að maður skuli vera manns gaman; þó er sú skémtunin best, að hugsa til Guðs, og una sér við hans miklu miskun. O! minn ástúdlegasti Jesú, hardt slær og sárlega nagar mig mín eigin samvitska, nær eg hugleiði þær herfilegu qvalir, sem þú leidst saklaus fyrir mig sekann præl; ach Herra! eg hefi gjört þér erfiði með

mínum syndum, og mædu med mínum misgjørdum, Es. 43. Víst meiga mínir vondu glæpir vera ein ofur þúng byrdi, Psálm. 38. já þýngri enn himin og jørd, þar ed Guds Sonur Jesús, sem ber alla hluti med ordi síns almættis kraptar, Ebr. 1. hlaut ad falla flatur til jardar, þegar hans himneski Fadir hafdi kastad øllum mínum misgjørdum uppá hann, Es. 43. Af þessari bitru Jesú pínu finn eg ilmsæta svala lind med himneskum líknar straumum, er fljóta til minnar ángrádu sálar. Þúngar eru ad sønnu mínar syndir mér til hegníngar, en lángtum þýngri borgun og forlíkun sje eg ad Frelsari minn hefir hér útlagt mér til miskunar; hér er Gud í Kristó ad forlíka heiminn vid sjálfann sig, 2 Cor. 5. Jesú sárgrætilegasta sorg er mínu sundurkrømdu hjarta sætasta endurnæríng; Jesú titrandi skjálfti er minni hræddu samvitsku efunarlaus trúarstyrkíng þar um, ad hvar sem syndin yfirgnæfir hjá mér, þar yfirgnæfir nádin miklu framar í Kristó Jesú, Róm 5. Enn framar lær þú þad, sála mín, af blessadri bænar adferd þíns Lausnara í grasgardinum, ad audmjúkt, sundurkramid og andvarpandi hjarta er þad þægasta offur sem þú skalt ætíd frambera fyrir þíns Guds nádar auglit, einkum þegar nockur neyd eda hørmúng er fyrir hendi; upplát aldrei þinn munn, kristinn madur, til ad møgla med óþolinmædi á móti mildiríkri Guds rádstøfun, því þad ablar þér meiri og þýngri refsíngar; opnadu heldur bædi hug og hjarta, til ad leita Drottins, nær hørmúngin áliggur, Es. 26. og bidja hann vægdar og miskunar; gleym ei heldur, þegar þú med bæninni villt bera þína líkamlega naudþurft fram fyrir Gud, ad géfa

þinn vilja ætíð með auðmýkt undir hans miskunar vilja, því að þinn himneskur Faðir veit lángtum betur enn sjálfur þú, hvers þú helst viðþarft, Matth. 6. vonaðu efunarlaust uppá hans almætti og mikla miskunsemi; hann mun því öllu vel til vegar koma Psálm. 47. Það er einninn sjálfsögð skylda vor óverðugra vesælínga bæði með sálar og líkama auðmjúkustu lotníng að koma fram fyrir Guðs dýrðarfulla auglit í vorn bænastað; þetta byrjar að gjöra, að hjartað, sem Guð helst álítur, 1 Sam. 16. sé þá hvað best prýðt með auðmýktinni, en hitt byrjar ecki heldur eptir að skilja, að vor vesæli líkami beigi sig, með blygðan, fyrir háleitu Drottins tignar-veldi, viðurkénnandi sig með Abraham, að vera auðvyrðilega mold og ösku, 1 Mós. b. 18.

Ó! minn gæðskuríkasti Jesú, þín grátleg grasgarðs pína sé og veri minni örmæddri sálu ylmsætur náðar- og svala-brunnur! Sá sárbeitti ángurs broddur, sem þitt helgasta hjarta særði, virðist náðarsamlega að gleðja og græða mitt syndum hrædda hjarta í lífi og dauða. Míns hjarta auðmýkt og andakt skal ætíð elska, viðfrægja og vegsama ást og náð þíns hjarta; Þér sé dýrð, heiður og æra að eilífu, Amen.

## 3. Píslar-Þánki.

### Um Herrans Kristí dauða-stríð.

Enn honum birtist Engill af himni, sá eð styrkti hann. Og þar kom að hann stríddi við dauðann, og tók ákaflega að biðja, en hans sveiti varð svo sem blóð hniklar, þeir eð féllu á jörðina.

Aldrei er góð vísa of opt qveðinn, þar sem menn eiga um bitra Jesú blessaða pínu að ræða; þess optar sem um hana er hugsað, þess fleira sem af henni er talað, því betur finnur ein sannyðrandi og trúuð sál þar inni ylm lífsins til lífsins, og guðdómlegann krapt til eilífrar heilsugjafar, Róm. 1. Því skulum við nú, sála mín, í sönnum Guðs ótta taka þar til, sem seinast hættum við, um Herrans Jesú grátlega grasgarðs qvöl að þenkja og tala, hver að vísu hefur verið yfrið stór og öllum allra Engla og manna krapti oldúngis óbærileg. Hér hafa böndin dauðans spennt hertoga lífsins, og Belíals lækir skélst Drottinn dýrðarinnar, Psálm. 18. Hann géck til og frá um grasgarðinn finnandi hvergi hvíld né ró, hugsvölun eður gleði; Guðs reiði ógnaði honum, helvítis píslir gengu lukt yfir hann, og allar állrar veraldarinnar syndir voru uppgengnar yfir hans höfuð; ángistin var alla vega nálæg, en enginn var sá er huggaði, Psálm. 22.

Lær hér af og athuga, sála mín, 1.) Hversu hræðilegt það er, að falla í hendur Drottins þegar hann er reiður, Ebr. 10. Svo fljótt sem ljósið hverfur úr húsinu fyllist það af svörtu mirkri; þegar miskun Guðs missist úr yðrunarlausu mannsins hjarta, þá missist öll náð og huggun bæði á himni og jörðu, þá er manneskjan hvervetna umvafin eymd og neyð, ólucku og bölvan; Guð vill tilreikna henni syndina, og hverninn gétur hún þá staðist? Psálm. 130. 2.) Má hér af sjá, hvað óbærilegar muni verða píslir fordæmdra í helvíti, þeir eð með forstockuðu og forherðtu hjarta hafa safnað sér reiði

á þann reidinnar dag, Róm. 2. Peirra svídandi qvala-eldur mun aldrei slockna; þeirra nagandi písla ormur aldrei deya, Es. 66. O! hvad íllt verk er syndin, sem svo ógnarleg gjøld eptir sig leidir. Minn Gud miskuni mér! svo eg aldrei forherdist af hennar svikrædi, Ebr. 33. 3.) Má hér finna fagurt blómstur himneskrar huggunar; því med þeim beisku hryggdar tárum, sem blessadur Jesús úthellti í grasgardinum, meigum vid, sála mín, og allir ydrandi syndarar, viss vera, ad hann hefur útsløckt reidi bál Drottins, sem vid høfum upptendrad med ockar glæpum; honum vard allt til ama og ángistar, svo allt skyldi snúast ockur til farsældar og fagnadar, ad Drottinn vildi virdast til ad veita ockur huggun í ángistinni, vera ockur nádugur og heyra ockar bæn, Psálm. 4. Eg grátbæni þig, minn gjædskuríkasti Jesú! virdstu fyrir þau hryggdar spor sem þú géckst til þíns dauda, ad opna minni aumu sál í mínu andláti fagra freisis leid inn í himneska dýrd og sælu; fyrir þad neydar bøl, sem lá á þér á þinni kvala nóttu, virdstu ad láta fagurt nádar og gledi ljós ljóma yfir mér í øllum mínum sorgar, og einkum þeim sídustu daudans mirkrum. Þú varst adstodarlaus yfirgéfinn af þínum vinum, géfdu ad eg í allri neyd megi una mér í míns Guds elsku og nádar ørmum, segjandi til Drottins: mitt traust, mitt slot, minn Gud, á hvern eg treysti, Psálm. 91.

Enn framar vitnar historían, ad hertogi lífsins hafi strídt vid daudann. O! eina furdu yfir alla furdu, ó! eina ylmsæta huggun og gledi. Med þessu sínu bitra dauda strídi hefur Guds Sonur Jesús blessad mína yfirvofandi bana sótt og eptir-

fylgjandi andlát. Hér tapadi daudinn sínum kvala og bølvunar broddi, en blessadur Jesús leiddi í ljós lífid og ódaudlegleikann, 2 Tím. 1. Nú mun minn daudi í Jesú nafni verda mér einn sætur hvíldar svefn og gledilegur inngángur frá øllum eymdum inn í eilífa sælu; lofadur sé Gud, sem mér hefur sigurinn géfid fyrir Jesúm Kristum, 1 Cor. 15. Adam leiddi med sinni yfirtrodslu banvæna blód-skuld yfir jørdina henni til bølvunar, 1 Mós. b. 3. Guds Sonur Jesús úthellti sínum blód-sveita á jørdina, henni og øllum sképnum, sem á henni hrærast til blessunar, svo ad í Jesú nafni verdur bædi lífsins og landsins ávøxtur øllum Guds børnum blessadur, já, Drottinn [upplýkur daglega sínum góda féfjód, og blessar øll þeirra handaverk. Æ! minn hjartans blód-brúdgumi blessadi Jesú! vyrdstu fyrir þinn sárheita dreira-sveita, ad mýkja og græda í misskun þinni minn sárkalda dauda-sveita, og géf ad mín ørmædda sál meigi þá í þínum miskunar høndum hvílast, hvar engin pína né nockur ángistar sveiti mun hana ad eilífu snerta, Spek. b. 3. En á medan þér, Drottinn minn, þócknast mínar eymda stundir í þessum táradal ad treina, vil og skal eg feginn þína blóduga grasgards pínu mér ætíd í ferstu minni hafa. Þegar eg ad morgni dags stend upp af sæng minni, og stíg fyrst fæti á jørdina, hugsa eg til þín, Herra minn Jesú, og andvarpa í himininn, ad þú látir þinn helgasta blód-sveita vera mína vernd og blessan hvar sem eg er og fer, svo eg, bædi úti og inni, verdi blessadur í þér, minn Gud, sem skapad hefur himin og jørd, Psálm. 115. Þegar syndanna og sorganna bøl særir huga minn, flý eg med nádþyrstu hjarta í

Grasgarðinn þinnar pínu, rjóðrandi mína aumu sál í dropunum þíns dýrmæta dreyra, er eg auðmjúklega bið og efunarlaust vona, að mínu máli muni vægja, mínum hørmum hægja, og mitt hjarta hreinsa af dauðlegum verkum til að þjóna þér, minn lifandi Guð, Ebr. 9. Ó eina dýrmæta fórn! ó einn mjúkan græðiplástur! sannheilagur Guðs Sonur bar síns Føðurs reiði, svo eg saka-þrællinn skyldi verða réttlátur fyrir trúna, og hafa frið við Guð fyrir Drottinn vorn Jesúm Kristum, Róm. 5.

Það er bert af píslar søgunni, að þess meir sem magnaðist Jesú dauða stríð, þess heitari og ákafari gjørðist hans blessaða bæn. Minnstu þess, sála mín! þegar mildum Guði þóknast að undandraga hjálpina í þinni neyð; lær þá af Lausnara þínum, að biðja og andvarpa, að kalla og qveina því auðmjúklegar og alvarlegar í himininn til Drottins, sem honum blessuðum þóknast að láta þig lengur í eymdunum þreya, og bíða eptir bænheyrslunni, huggandi þig þar við, að Faðir miskunsemdanna og Guð allrar huggunar, 2 Cor. 1. mun á sér þægilegum enn þér farsælum tíma bráðlega gjøra þína frelsan, Lúk. 18.

Að síðustu sjer þú, sála mín! af dæmi Lausnara þíns, að þeir himnesku andar, heilagir Drottins Englar, eru bæði þér og øllum, í anda og sannleika biðjandi Guðs børnum, Jóh. 4. til verndar og blessunar nálægir í eymdum þessa lífs, en einkum á þeirra dauða stundu, til að bera þeirra eymdum þjáðar sálir, líka sem Lazari forðum, úr þessum armæðufulla heimi inn í fagrann Abrahams faðm eilífs friðar og fagnaðar, Lúk. 16. Ó minn ástúðlegasti Jesú! það

bitra dauða stríð, sem svo harðt að þér þreyngði, er vorl fegursta frelsi og ilmsæt hugsvølun bæði í lífi og dauða, þar fyrir sýngist þér eilíf æra bæði á himni og jørðu, þar fyrir færist þér auðmjúkt ástar þakklæti af allri þinni kristni, sem þú hefur afrekað með þínu blóði, Amen!

## 4. Píslar-Pánki.

Samtal Kristi við Postulana.

Og hann stóð upp frá bæninni, og kom til sinna Lærisveina, og fann þá sofandi útaf hrygð og og sagði til þeirra: sofið þér nú og hvílist, hvað sofið þér? það er nóg, standið upp og biðjið, svo þér fallið ei í freistni. Sjáið, sú stund tekur að nálgast, og er kómin, að mannsins Son mun ofurseljast í syndugra hendur. Standið upp og gaungum héðan; sjáið! sá er mig svíkur, hann er í nánd.

Þess er hér að framan gétið í píslar-søgu Drottins að hann hafi útvalið þrjá af sínum elskulegum Lærisveinum, til að vera hjá sér í qvølinni, en sjálfur hann blessaður afsíðis gengið, til að líða þær sárustu sálar píslir. Þanninn hefir þú, minn hjartkjæri Lausnari, fagurlega uppfyllt það allt, sem áður var um þig spáð, og viljuglega géfið þig til að líða píslirnar eptir ásettu Drottins ráði, og fyrirhyggju, Post. G. 2. Þú gékkst afsíðis til að líða, Drottinn minn, því þú varst sá, sem einsamall áttir að troða vínþrúgu guðlegrar reiði, og þar var enginn af fólkinu meður þér, Es. 63. Þú varst sá eini maður í náðinni, Róm. 5. sem øllum vildir og máttir náðina útvega, það eina

Guds lamb, sem bera skyldi veraldarinnar syndir Jóh. 1. Lofadur vertu ad eilífu, og géf ad þín eina náð dugi mér til ævarandi og æskilegustu blessunar!

Strax sem Lausnarinn var litlu fram leingra frá Lærisveinunum geinginn, féllu þeir í fastann svefn. Æ mína vondu, vesælu og blindu náttúru! ef eg skal ei í synd og ránglæti sofa, máttu minn Jesú ecki eitt stein=snar frá mér víkja, því án þín megna eg einkis, Jóh. 15. Veit þú mér af miskun þinni bædi viljann og máttinn til alls hins góda. Phil. 2. Því ad eins má nætur hvíldin verda mér hættulaus og róssøm, ad þú, minn Herra Jesú, virdist ad vaka hjá mér med þinni vernd og blessan, því vil eg ecki á qvøldin sofna, fyrr en sálin mín hefur útvegad sér hvíld í þínum nádar fadmi, og ávarpad þig med þeim tveimur Emaus reisendum: vertu hjá oss, Herra, þvíad qvølda tekur og á daginn lídur, Lúk. 24. Stór var veikleiki Jesú Postula, sem féllu í værann svefn, þá þeir vaka skyldu, en eingu betur erum vid, sála mín! á ockur komin fyrir augliti lifanda Guds; vid erum af ockar blessada Lausnara leidd inn í aldingard hans heiløgu kristni hér í heimi, til þess, ad vid skyldum, med vakandi ást og hlýdni, gánga Gudi verduglega til allrar þóknunar, Col. 1. Enn, Gud nádi! hvad skjaldann høfum vid í Jesú ócta og elsku vakad! hvad opt høfum vid í synd og andvaraleysi sofid! Jesús hefur med þreføldum nádar áminníngum bodid ad vid skyldum vaka, en samt høfum vid látid þrefaldann synda svefn sigra ockur. Á æsku aldrinum þókti mér inndælt í úngdómsins fávitsku ad sofa, en Jesús lét vekja mig med foreldranna hógværri hirt-

íngu og aðvörun, að eg skyldi minnast á minn Skapara, í mínum úngdómi, Préd. 12. Á uppvaxtar árunum lagði eg mig á letinnar og gjálífisins koddа; Jesús hefur sendt þénara sína, sem mig áminna og aðvara: vakna þú upp sem sefur, og rís af dauða, svo mun Kristur upplýsa þig, Eph. 5. Ecki hafa fullorðins árin mikið bætt um fyrir bernskunni; æ! hvað svefnsamt vill mér laungum verða í svörtu myrkri syndsamlegrar heimsins elsku og sofandi bænræktarleysis; samt hefur Jesús ecki gleymt við mig gæðsku sinni, heldur látið daglega ljóma inn í mitt hjarta náðar geisla síns heilaga anda, sem mig hefur optlega áminnt, til að láta af íllu, enn læra gott að gjøra, Es. 1. Enn það má grátlegt þykja, að þess optar sem Lausnarinn Jesús hefur af sinni náð viljað vekja mig, því fastara hef eg í synd minni sofið. Æ! mína fordæmanlega síðlsku! æ Jesú! forlát mér mína synd og íllsku, hvar með eg hefi aukið þér mæðu og hörmúng, en aflað mér straffs og hegníngar. Lát þér þó ecki leiðast, minn ljúfi Drottinn, að benda mér í mildi og miskun þinni, og draga mig, jafnvel með hörmíngunum, til sannrar umvendunar; eg vil feginn kyssa á þína hyrtandi hønd með þøckum og þolinmæði, en lát þitt miskunar hjarta mér aldrei gleyma. Glaður og gjarnan vil eg með andagt og elsku hjá þér vaka; lagfær þú og leiðrétt náðarsamlega mitt veika hold og blóð, sem það vilja ofmjøg hindra: drag mig eptir þér, Drottinn minn, þá vil eg hlaupa, Lofq. 1. Þú leyfðir þínum þreyttu Lærisveinum um stund að sofa og hvílast; þar af veit eg, og vona með gleði, að þú, góði Jesú! munir og svo vægja og vorkenna veikleika mínum, þú sem best þeckir mína skøpun. Psálm. 103.

Enn framar skaltú, sála mín, láta Lausnarans áminníngu til Lærisveinanna, vera þér ætíd í huga og minni vakandi: vak og bid, svo þú fallir ecki í freistni, sá er þig svíkur, hann er í nánd. Daudinn forrædur án allrar vægdar fjør og líf, og mála sannast er þad, ad hann hefur mørgum óvørum ad høndum komid, eins og þjófur á nóttu, 2. Pet. 3. Hans tími er ætíd óvisš: hans nálægd aldrei ørvænt; øllum mønnum er ásett einusinni ad deya, og þareptir kémur sá ógnarlegi Drottins dómur, Ebr. 9. sá ed gjalda mun einum og sérhverjum eptir hans verkum, Róm. 2. Þá mun hinn ógnarlegi Djøfull hvad ákafastur, ad vilja draga þær aumu sálir í eld eilífra qvala, Matth. 25. Sjádu vel til, í Jesú nafni, sála mín! ad þessi ógnarlegi her falli ecki yfir þig andvaralaust í syndunum sofandi; vaktu í heitri ydran og alvarlegri gudrækni, svo þú styrk í Drottni og mætti hans kraptar, gétir stadist á þeirri vondu tíd. Miklu sídur gétur þú hjálpast í heiminum, en vopnlaus madur gétur varid líf sitt í bardaganum; brynja þig því med bæninni, því hún er hin øruggasta verndar hlíf mót allri neyd, og svo sem lykill ad Guds nádar fjársjódum. Einn líflaus líkami er firrtur øllum mannlegum krapti, og ónýtur til allra athafna; svo er og ein bænræktarlaus sál, fjarlæg allri blessan, ónýt til allra gódra hluta, og annarleg frá því lífi, sem í Gudi er. O minn ástúdlegasti Jesú! vak þú í mér med þinni nád og gædsku; géf mér ad vaka í þér, í þinni ást og elsku. Nær minn líkami hvílist í sínu svefn-herbergi, lát þá sálina mína med vakandi ást og andakt hvíld og hlífd hreppa í þínum miskunar fadmi. Amen!

## 5. Píslar-Þánki.

Um Gydínganna komu í Grasgardinn.

Og jafnsnart sem hann var enn ad tala um þetta, sjá, einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock manna og þénara kénnimanna høfdíngjanna og Fariſæanna, kom hann þángad og med honum flockur mikill, med blysum, lømpum, sverdum og staungum og vopnum, útsendir af kénnimanna høfdíngjum, Skriftlærdum og Øldúngum, og hann géck fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú allt hvad yfir hann átti ad koma, geck hann framm og sagdi til þeirra; ad hværjum leitid þér? þeir svørudu honum: ad Jesú af Nazareth. Jesús sagdi til þeirra: Eg em hann. En Júdas, sá er sveik hann, stód einninn hjá þeim. En sem Jesús sagdi til þeirra: Eg em hann, hørfudu þeir bak aptur, og duttu til jardar.

Maklega má mannsképnunnar vesæla líf í verøldu þessari líkjast vid standandi stríd og blodugann bardaga, Job. 7. hvar ed háski og hørmúngar, vidlíkt og óslíhandi her, fara á hendur Guds elskendum, þeim til sálar-tjóns og samvitsku hrellíngar. Alla vegana lída þau hrygd, hid ytra baráttu, hid innra ótta, 2 Cor. 7. Midt í því ad Drottinn var ad ræda vid sína elskulegu Lærisveina í Grasgardinum, þusti þángad vopnadur flockur hans óvina; eins máttu, sála mín! vid því búast, ad þegar minnst vonum varir, þá er vodinn fyrir hendi, og jafnvel er nætur hvíldin ecki ætíd óhult fyrir neyd og háska: gleymum því ecki, sála mín, á sérhverju qvøldi, ad ákalla mildiríkann Jesúm, ad hann virdist ad vardveita ockur undir sín-

um nádar-vængjum, svo vid þurfum ei ad skélfast fyrir ógn næturinnar. Psálm. 91.

Hrædilegt er ad hugleida ótrygd og vélrædi svikarans Judæ, hvør ed gjørdist foríngi þessa gudlausa skara, og sveik sinn eginn lávard og Lausnara med kossi; varastu, sála mín! þetta vonda dæmi, og hreinsa bædi huga og túngu frá allskonar falsi og flárædi; lát þér til hugar koma, ad þótt nockrum luckist um stund ad hylja pretti sína undir hræsninnar yfirskyni, þá fá þeir þó ecki flúid eda falist fyrir Drottins dómi, sá ed ollum yfirbótarlausum til smánar og hegníngar mun á sínum tíma auglýsa, þad sem í myrkrunum er hulid, og opinber gjøra rádin hjartnanna, 1 Cor. 4. Bidjum því Gud ad skapa í ockur hreint hjarta, og taka aldrei sinn nádar anda burt frá ockur, Ps. 51.

Enn framar er hér adgætandi guddómlegt almætti vors gædskuríkasta Lausnara Jesú, hvør ed med þessu eina ordi: Eg em hann, lagdi vid velli vopnadann her óvina sinna. Þetta almættis ordid Jesú, sem hans íllskufullu óvini feldi med ógn og skélfíngu, mun ockur, sála mín! í allri neyd styrkja, med líf-kroptugri huggun og endurnæríngu. Þegar eg fell í synd og yfirtrodslu, og réttlátur Drottinn vill reidast mér, sem eg optlega, æ því midur! verdskulda, þá gengur líknarfullur Jesús, sá himneski Aaron, med ilmandi reykelsis kér síns nádhrópandi blóds og árnadar ords, midt á millum þeirra lifendu og daudu, 4 Mós. b. 16, midt á millum hins reida Guds og mín rángláttar saka-sképnu, segjandi: Eg em hann, sem med mínu blódi og bitru pínu, hefi gjørt frid og forlíkun milli Guds og manna, Cól. 1. Forlát því, kjæri Fadir! þessum vesælíng, hans framda synd; géf honum upp

af miskun þinni, það forþénta straff! ó Jesú! géf að þessi þín fagra friðar-bón, sé og verði minna synda forlíkun, minnar sálar æðsta huggun! Þegar andskotinn vill ógna mér, en syndin ofbjóða mér og samvitskan áklögun veita sökum íllverka minna, þá mun náðarríkur Jesús breiða sinn miskunar faðm yfir mína sálu, segjandi: Eg em hann, sem afmái þínar syndir, sem annað ský, og þínar misgjørðir, sem aðra þoku: snú þér til mín, þvíað eg vil frelsa þig, Es. 44. Þegar sóttir og sjúkdómar þvínga minn líkama, fátækt og volæði mæða mitt hugskot, böl og bágjindi særa hjartað, þá mun Lausnarinn Jesús líta í líkn og náð til mín, segjandi: Eg em hann, sem bæði hefi almáttugann krapt og miskunsamann vilja til að græða allar þínar meinsemdir, Psálm. 103. og vil eptir útendað þetta eymdafulla líf, géfa þér þá óflekkuðu, óforgengilegu og óumskiptilegu arfleifð eilífrar sælu og dýrðar, sem þér er varðveitt í himninum, 1 Pét. 1. Eg em hann, sem vil láta þína stundlega eymd snúast í eilífann dýrðar føgnuð; í heiminum hefur þú þreyngíng, en vert hughraustur, því eg yfirvann heiminn, Jóh. 16. Á dauðans tíð og dómsins degi, þegar øll mannleg hjálp er hvað fjarlægust, vona eg og treysti, þótt óverðugur sé, að mildur Jesús muni verða mér með miskun sinni næstur, segjandi: Eg em hann, sem eptir allar þær hørmúngar, sem þú hefur liðið í heiminum, vil nú hugsvala þér með eilífri sælu í himninum, Jer. 31. svo að þar sem eg er, þar skaltu minn þénari vera, Jóh. 14. Gack nú blessaður inn í þíns Herra føgnuð, Matth. 25.

O minn ástúðlegasti Lausnari! hversu feginn mun eg eymdum þjáður vesalíngur sofna þá hinn seinasta

daudans dúr í þínum miskunar fadmi? hversu gladur mun eg þá hédan í fridi fara, og mín augu munu sjá þitt nádar hjálpræði, Lúk. 1. Eg vil nú hjartans feginn, ó minn Jesú! þínu elsku ávarpi audmjúklega svara og segja: Eg em hann, sem géf þér hjarta mitt, og læt mínum augum þócknast þína vegu, Ordsq. 23. Æ svara mér aptur á mót, minn sætasti Herra! Eg em hann, sem læt mitt hjarta sundurbrotna til þín, svo eg hlýt þér miskunsamur ad vera, Jer. 31. Lát þetta ockar samtal, ljúfasti Jesú, byrjast med stadfastri trú og von í nádinni; lát þad fullkomnast med fagnadar sjón og skodun þíns andlitis eilíflega í dýrdinni. Amen!

## 6. Píslar-Pánki.

Um Júdæ koss og Kristí fángelsi.

Hann spurdi þá enn einusinni: ad hverjum leitid þér? Enn þeir sögdu: ad Jesú af Nazareth. Jesús svaradi: eg sagdi ydur þad; eg em hann. Þar fyrir, ef þid leitid ad mér, þá látid þessa í burtu fara. Svo ad uppfyllist þad ord, hvad hann hafdi sagt, ad aungvum glatadi eg af þeim sem þú gafst mér. En svikarinn hafdi géfid þeim sameiginlegt teikn og sagt: hvern hellst eg kyssi, sá er þad, grípid hann, og leidid í burt vareygdarlega. Og þá hann kom, nálgadist hann Jesúm, ad hann kysti hann. Og jafnsnart géck hann til hans og sagdi: heill sért þú Rabbí, Rabbí, og kysti hann. En Jesús sagdi til hans; vinur, hvar fyrir ertu kominn? Júda, svikur þú Mannsins Son med kossi? Þá gengu þeir þángad, og lögdu sínar hendur á Jesúm og gripu hann.

Með guðrækilegri forundran meigum við, sála mín, dáðst hér að Drottins vors Jesú Krísti dýrðarfulla almætti, og allra hellst hans dæilegri ást og mildi. Alhægt hefði Lausnaranum verið, að láta óvini sína liggja flata á jørðunni, eins og þeir, fyrir hans almættis ávarpi fallnir voru, þar til hann blessaður hefði gétað forðað sér, og flúið úr þeirra høndum; en Drottinn stóð hér að lángtum frægara dásemdar-verki, enn að frelsa sitt líf, hann var nú blessaður í tilbúníngi, að géfa það út, til endurlausnar fyrir alla, 1 Tím. 2. Þess vegna leyfði hann í líkn og vægð óvinum sínum að standa á fætur aptur, sagðist vera sá, að hverjum þeir leituðu, og gaf sig svo sjálfviljugur í þeirra vald og hendur; einginn megnaði hans líf frá honum að taka, heldur lagði hann það af sér sjálfur, Jóh. 10. af blíðri hlýðni við sinn himneska Føður, og brennandi elsku til vor manna. Tak þér hér af, sála mín, líkrøptuga huggun og gleðilega trúar styrkíng. Einginn óvinur megnaði þínum Lausnara, án hans eginn vilja, hið minnsta mein að vinna; enginn andskoti kann þér heldur, án hans leyfis eður líknarfullrar ráðstøfunar, hið minnsta grand að gjøra; svo aðgiætið auga føðurlegrar forsjónar hefir Jesús vakandi yfir elskendum sínum, að øll þeirra høfuð-hár eru talin, og eckért af þeim fellur á jørð án hans náðar-vilja, Matth. 10. Fleyg því allri þinni áhyggju uppá Jesú forsjón og føðurlega umsorgun, hann mun þig aldrei að eilífu yfirgéfa, Psálm. 55. Jesús gjørðist sínum himneska Føður hlýðinn allt til krossins dauða, Phil. 2. Þar með hefur hann blessaður fullkomna bót og forlíkun gjørt fyrir mína

margfalda óhlýdni; hann galdt þá skuld, sem eg átti ad gjalda; hann bar þad straff, sem eg átti ad lída; í hans nafni og fyrir hans forþénustu, er og verdur minn misgjørníngur fyrirgéfinn, og hefi tvø-faldlegt, nefnilega: fødurlega fyrirgéfníng, sáluhjálp-legt réttlæti, medtekid af hendi Drottins fyrir all-ar mínar syndir, Es. 40. O mín sál! gleym aldrei, hvílík þín skylda sé aptur á mót, fyrir þessa ómetan-lega Lausnarans ást og mildi; Jesús gaf sjálfviljug-ur sitt líf þér til frelsis, og endurlausnar, géf honum þitt líf og alla lífsins krapta til svo viljugrar sem skyldugrar þjónustu og þócknunar; hans nádar vilja skalt þú gjarnan gjøra, hans lífsins ord iduglega í huga og minni vardveita, Ps. 40.

Vor formódir Eva lét banvæna lysting til þess bannada eplis tæla munn sinn, sér og allri verøldu til óluckn og ángistar, 1 Mós. 3. Jesús leyfdi svik-aranum Júdas ad mynnast vid sínar ástúdlegu varir, á hverjar nádin er úthellt, Ps. 45. øllum naudlídandi sálum til líknar og svølunar. Minn gódi og gædsku-ríki Herra, sem svika-fullann flárædis koss fékst ad reyna, virdstu miskunsamlega ad vardveita mig frá djøfulsins, heimsins og holdsins svikum, svo eg kunni þau í þínum krapti gledilega ad yfirvinna; lát þína miskun og trúfesti geyma líf mitt og æru frá allri smán og óluckn, Ps. 57. Þegar djøfulsins og hans útsendara fals og hreckir vilja sigta mig sem hveiti, virdstu þá, blessadi Lausnari minn! best fyrir mér ad bidja, svo mín trú þrotni ecki, Lúk. 22. Øll verald-arinnar prettvísi og svik eru ber og nakin fyrir þín-um blessudu augum, Ebr. 4. Drottinn minn, lát aldrei þá fordæmanlegu andstygd stadnæmast í mínu

hjarta; þú ávarpadir þinn svikara med vinar nafni; veit, ad eg aumur vesælíngur megi heita og vera þinn elskandi vinur og ástríkur lærisveinn, sá er af hjarta hlýdi þínum blessudu bodordum, Jóh. 15. og eptir þínum vilja framgángi í einfaldleik og Guds grandvarlegleika, 2 Cor. 1. Þad má med øllum rétti segja, ad vid, sála mín, fáum í andlegaun máta ad mynnast vid Jesúm, þegar vid í því háverduga altarisins Sakramentó medtøkum med munninum hans allra heilagasta líkama og blód, sem útgéfid er heiminum til lífgunar, Jóh. 6. Gætum ad ockur í Guds nafni, sála mín! og géfum þá ecki ockar ástríka Frelsara nockurn falskan slárædis edur hræsninnar koss; prófum ockur med heitri hjartans andagt, og prýdum ockur med sannri ydran og sáluhjálplegri trú, svo vid verdum ecki sek vid hold og blód Drottins, 1. Cor. 11. Mynnumst med heitri elsku og bænar kossi vid þann blessada Guds Son, svo hann verdi ockur ecki reidur, Psálm. 2.

Í annann máta vitnar historían, ad hinn gudlausi Gydínganna skari hafi þad blessada Guds lamb, Lausnarann Jesúm, høndum tekid og í fjøtur fært, hvar af hans helgasta hold hefur án efa mætt hryggilegri medferd, og honum miskunarlaust misþyrmt verid. Minn hjartans gædskuríkasti Lausnari, med audmjúkum tárum og trega má eg þad medkénna, ad eg hefi med syndugum høndum glæpa minna, ordid svo sem samtaka óvinum þínum, sem kromdu og qvøldu med hørdum fjøtrum þinn helgasta líkama: þess ydrar mig nú af øllu hjarta; æ Drottinn, miskuna mér eptir miskunsemd þinni, og afmá mínar syndir eptir þinni stóru gædsku, Ps. 51. Þú léist þig

sem annan fánga fjøtra og binda; veit mér að øðlast náðarsamlega lausn og qvittun minna synda í þínu nafni: þú varst með hørðum fjøtrum reyrður; lát mig aldrei að eilífu slitinn verða úr þinni miskunar hendi, Jóh. 10. Þú létst qvalanna fjøtur á þig leggja: veit mér, að eg laus úr øllum bølvunar snørum, mætti í þínum elsku og náðar bøndum, Hós. 11. bæði lifa og deya: géfðu mér það, Drottinn minn, að minníng þeirra hørðu fjøtra, sem þinn helgasta líkama krømdu, aptri æ jafnan og í taumi haldi øllum mínum tilhneigíngum, liðum og limum frá vonðum glæpum og guðlausu holdsins gjálífi: bind mína sálu við þitt miskunar hjarta, með elskunnar bandi. Festu vilja minn við veginn þinna boðorða með hlýðninnar fjøtrum, svo að eg með liðugu hjarta og lystugu géði, þjóni trúlega þínum náðar vilja, og bevari þín blessuð boðorð allt til enda, Amen!

## 7. Píslar-Pánki.

Um vørn St. Péturs og Malchus eyra-sár.

Enn þá þeir, sem hjá hónum voru, sáu hvað verða vildi, søgðu þeir til hans: Herrá! skulum vér ecki slá með sverði? og sjá, að einn af þeim, sem með Jesú voru og þar stóðu, Símon Pétur, hafði eitt sverð, rétti út høndina og ryckti því, og sló til Prestahøfðingjans þénara, og hjó af honum hans hið hægra eyra, og sá þénari hét Malchus. Enn Jesús svaraði og sagði; leyfið þeim að gjøra enn frekar, og sagði til Péturs: stícktu þínu sverði í slíðrir, því hver eð sverðið tekur, sá mun fyrir sverði farast. Eða meinar þú, að

eg kunni nú ecki ad bidja minn Födur, þad hann sendi mér meir enn tólf Legion Engla? Skal eg ecki drecka þann kaleik, hvern ed minn Fadir hefur mér gefid? Enn hvernin skyldu þá Ritníngarnar uppfyldar verda? Því þad hlýtur svo ad ské. Og hann áhrærdi hans eyra, og læknadi hann.

Því stærri sem er háski og hörmúng þessa daudlega lífs, því gudrækilegar ættum vid, sála mín, ad gæta þess, ad framgánga forsjállega, og hafa jafnan vakandi auga á því, hver ad sé vilji Drottins, Eph. 5. Lærisveinarnir spurdu Lausnarann Jesúm ráda, hvert ei skyldi til vopna taka, svo afvendt yrdi yfirvofandi voda: gjörum hid sama, sála mín! Leitum í sérhvörju uppáfallandi vanda-efni gódra og gudrækilegra ráda, Syr. 37. og leggjum aldrei hug né hendur á þad verk edur áform, sem ecki er í ótta Drottins, og med rádi stofnad, því þad verdur ad aungvu og til óluckunnar einnar, Ordsq. b. 15. Reidum ockur ecki heldur ofmjög uppá mannanna rád, því þau eru opt vidsjál og vandhitt, hefum því almáttugan Gud fyrir augunum, og látum hans heilaga ord vera ockar ráda-neyti, svo vid hötum alla vonda vegu, Psálm. 119.

Drottinn bannadi Lærisveinunum ad bregda sverdi, eda brúka þad til varnar sér: þar eru tvennslags sverd, sem menn hafa medferdis í heiminum, hid fyrra er sverd þess veraldlega réttar, eda dómara embættisins, sem Drottinn hefur valdstjórninni í hendur fengid, ad hún skuli bera þad og bregda því gódum til forsvars og fridar; en vondum til straffs og

hegníngar, Róm. 13. Það annað er sverð eigin hefndar og heiptargirni, hverju Jesús alvarlega bannar með bræði að beita, en alvarlega býður að geyma það í slíðrum kristilegrar hógværðar og þolinmæði. Taki sér hér af guðrækilega áminníng allir vyrduglegir Yfirvalds-menn, 1) Að þeir, svo sem réttskickaðir Drottins þénarar, fari í Guðs ótta vel og varlega með sverð laganna og síns embættis myndugleika; láti það særa og stínga illvirkja og vonda menn, en vernda og forsvara fróma og ráðvanda Guðs og Kóngsins þegna, svo vér mættum hafa spakt og rósamt líferni í allri guðrækni og siðsemi, 1 Tím. 2. 2.) Varist allir Yfirvalds-menn, að brúka síns embættis vald og myndugleika, til að sækja sinn eiginn rétt, eða hefna sín á þeim, sem þeir þykjast sjálfir eiga nockrar sakir við; gjæti þeir þess, að Jesús vill þeim í svoddan tilfelli sagt hafa: stícktu þínu sverði í slíðrir, því hver sem tekur sverð heiptar og hefndargyrni, hann skal farast fyrir sverði reiði og refsíngar. Gjaldi því einginn, sem Guðs barn vill vera, nockrum manni íllt á móti íllu, heldur leggi kapp á guðrækilega góðmennsku; hefni sín einginn sjálfur, heldur gefi rúm reiði Drottins, hans er hefndin, hann mun endurgjalda, Róm. 12.

Enn framar athugum við, sála mín, að Malchus sem misti sitt hægra eyra í flocki Jesú óvina, má með ollum rétti merkja Guðs heilogu orða forackt-ara, sem láta sig kristna kalla, en apturbyrgja þó, edur og oldúngis afhoggva það, hægra eyrað hjartanlegrar andaktar, með hverju þeir ættu að heyra þá sætu Drottins orða roddu sér til sáluhjálpar, haldandi heilu og opnu hinu vinstra eyra, hvert eð

laungum klœar eptir skammarlegum ordum, fíbls-legu hjali og késkni, sem kristnum þó ecki sómir, Eph. 5. Þetta er hid vissasta merki allra Drottins óvina, ad heyra ecki Guds ord med nockri andakt, því þeir sem svo gjøra, eru ecki af Gudi, Jóh. 8. Eg grátbæni þig, minn gædskuríki Jesú, lát hverki þetta, né annad ógudlegleikans merki á mér sjást eda finnast; lát mig svo þitt ord med eyrunum heyra, ad eg meigi þína elsku í hjarta mínu vardveita, allt þángad til eg fæ ad elska þig fullkomlega og sjá þig berlega í eilífu lífi.

Ad sídustu skín hér fagurt fyrir augum ockar, sála mín, blessud Jesú ást og náð, er hann auglýsti med þessum ordum: skal eg ecki drecka þann kaleik, hvern ad minn Fadir hefur mér gésid? Lærum hér af Lausnara ockar heilaga þolinmædi í hørmúngum øll-um, sem honum blessudum þóknast á ockur ad leggja. Jesús nefnir sína qvøl, sem hann leid fyrir ockur, kaleik af sínum himneska Fødur ástkeinktann; Guds andi nefnir med sama nafni þær hørmúngar, sem hin eilífa gædskan lætur sínum elskendum til handa bera í heimi þessum; þú fædir þá med harma braudi og birlar þeim dryck med stórum mælir fullum tára, seigir hinn heilagi David, Psálm. 60. Gjør-um fyrir Guds sakir, sála mín, og forsmáum ecki ádryckju vors allrahæsta og alleina góda Fødurs; ecki mun hann birla fyrir ockur beiskari harma-bikar, enn vid fáum fyrir hans hjálp afdruckid; ecki leggja ockur þýngri mædu-byrdi á herdar, en vid gétum med hans adstod undir risid. Jesús hefur sjálfur afdruckid þann fleytifulla og sárasta kaleik qvalanna, en hann afhendir ockur annann lángtum

minni, og af líkn og miskun sætann mædu og mótlætis kaleik; líka sem vid høfum mikid af Kristí pínu, svo verdum vid einninn ríkuglega fyrir Jesúm Kristum huggud, 2 Cor. 1. Tøkum því tveim høndum ástar þacklætis og þolinmædi á móti ockur af almáttugum Gudi úthlutudum eymda-bikar, og seigum med ockar sáluhjálpara Jesú: skal eg ecki drecka þann kaleik, sem minn Fadir hefur mér géfid? Og med þeim Guds manni Davíd: þann heilsusamlega kaleikinn vil eg medtaka, og nafnid Drottins vegsama Psálm. 116.

Framar má hér finna merkilegt dæmi mildiríkrar Jesú hógværdar vid Malchum, hvers eyra-sár Endurlausnarinn læknadi, og lét hann ecki gjalda þess, þótt hann fyllti flock hans óvina. Æ! hjálpadu mér, minn hjartagódi Jesú, ad eg í sama máta elski óvini mína, og gjøri þeim gott sem mig hata, Matth. 5. Virdst þú med þinni miskunar hendi ad uppljúka mínum døpru skilníngs augum, og áhræra mitt særda hjartans eyra, svo eg meigi réttilega skilja og þeckja, gudræckilega heyra og vardveita þitt heilaga lífsins ord mér til sáluhjálplegra nota, Psálm. 110. Eg grátbæni þína grunnlausa mildi, lát mig aldrei med nockri óþolinmædi mótmæla, veit mér med sonarlegri hlýdni ætíd vidtøku ad veita þeim kross-bikar, sem þér þócknast fyrir mig ad skeinkja, og nær mínar eymdir vilja mér ofbitrar og beiskar verda, Drottinn minn! dreiptu þá á sálu mína, og leid hana fram ad ferskum vøtnum þinnar nádar og hugsvølunar! Amen!

## 8. Píslar-Þánki.

Predikun Kristi fyrir Gydíngum.

Á þeim tíma svaradi Jesús og sagdi til fólksins og þeirra Presta höfdingja, og höfuds manna Musterisins og öldúnganna, sem til hans voru komnir: Þér erud svo sem til annars ræníngja útgeingnir med sverdum og staungum ad gripa mig. Daglega hef eg hjá ydur verid, setid og kennt í Musterinu og þér hafid aungvar hendur á mig lagt, og ecki gripid mig, heldur er þetta ydar tími og makt myrkranna, svo ad ritníngarnar uppfylldust. En allt þetta er skéd, svo ad uppfylltist ord Spámannanna.

Ómetanleg er nád og þolinmædi Drottins, sem med útréttri hendi sinnar hjartgrólinnar nádar og gædsku, Es. 65. vyrdist ad locka og lada syndarann til sannrar hjartans yfirbótar, Róm. 2. Svoddan líknarfulla miskun syndi Lausnarinn Jesús hinum blindu og þrjótskufullu Gydíngum, advarandi þá med hógværum enn þó alvarlegum áminníngar ordum um þeirra illsku breitni og yfirhángandi reidinnar straff; allt eins er hans miskunar hjarta enn nú í dag sinnad vid oss villuráfandi og brotlega vesælínga; hann hefir einga þócknan á dauda hins ógudlega, heldur þad, ad hann leidréttist og lifi, Eph. 33. Enn framar er athugaverdt hérsilegt ópackleti hinna gudlausu Gydínga; Drottinn hafdi í lángann tíma geingid á medal þeirra, gjört gott og grædt alla þá sem af djöflinum voru undirþryckttir, Post. G. 10. Hann var sérílagi sendur Ísraels lyd til frelsis, Lúk. 1. og öllum heimi til eilífrar endurlausnar; en svo illar

þackir galdt þessi vonda kynslóð Gudi sínum, ad þeir afneitudu hinum heilaga og réttláta, Post. G. 3. og seldu sinn og alls heimsins Lausnara í krossins qvalir og dauda. Lát þér, sála mín, þessi Gydinganna vondu víti ad gudrækilegum varnadi verda; allt þad gott, sem þú færd af Guds og manna hendi ad þyggja, skaltu med verdugu ástar þacklæti ásannast láta, gætandi þess, ad hver gott med íllu launar, af þess húsi mun ólucan ecki linna, Ordsq. b. 17. Í þridja lagi merkjum vid, sála mín! ad ecki megnudu Jesú óvinir ad gjøra honum blessudum hid minnsta mein, edur leggja hendur á hann, fyrr en sá tími var kominn, sem hid alvísa Guds ráð hafdi ályktad, á hverjum Kristur átti ad líða, Post. G. 3. Eilíf huggun á og skal ockur þetta vera, mín sál, í allskonar mædu og mótlæti; allt eins og því var háttad um Jesú píslar tíma, eins er því og svo-varid um ockar sorga og rauna stundir; þær eru allar fyrirsédar, takmarkadar og taldar af nádar forsjón og miskunar rádstøfun hins alvalda og alleina góda Guds, hvers verk og vegir ecki eru annad enn miskun og sannleiki, øllum þeim sem hans bodord og vitnisburdi af hjarta geyma og vardveita, Ps. 75. Hans guddómlega almætti rædur mest; hans gædskurika umhyggja sjer best fyrir uppbyrjan, framgángi og endalykt ockar mótlætis og sorgar tíma; þeir eru allir í hans bók teiknadir, Psálm. 139. og er þá gott hans blessada nádar vilja ad taka; þegar vid høfum Drottins ótta alla tíma fyrir augunum, meigum vid vera viss þar um, ad því leingur sem ockar sorgar tímar vara til ad nidursá í tárunum hér stundlega, þess meir ná-

lægjast ockar gledi tímar til ad uppskéra med himn-eskum sælunnar fögnudi eilíflega, Psálm. 126.

Þessi er ydar tími, sagdi Lausnarinn Jesús vid óvini sína; látum þessi ordin Drottins þéna ockur, mín sál, til gudrækilegrar áminníngar. Nú yfirstend-ur sá þægilegi nádar tími og fagri hjálprædis dagur, 2 Cor. 6. á hverjum ockur er kostur géfinn ad leita Drottins med sannri ydran, svo vid meigum nád og fyrirgéfníng hjá honum finna, Es. 55. En nú hef-ur hin eilífa gædskan þolinmædi vid ockur, 2 Pét, 3. og sparar ockur til bótar og betrunar; ó mín sál! sjáum vel til, ad vid medtökum ecki miskun Guds til ónýtis, 2 Cor. 6. edur forsómum tíma Guds nád-ar og vorrar ydrunar; gætum þess, ad því leingur sem Guds óþreytt þolinmædi bídur forgéfins eptir vorri lífernis betran, því óbærilegri verdur ockur hans reidi, þegar sá tími kémur, ad hann géldur sér-hverjum eptir þeirra verkum, Róm. 2. AE! þad er nóg, ad vid höfum þann umlidna tíma lífdaganna ílla vanbrúkad og til góds forsómad, látum ockur nú í dag, medan vid fáum ad heyra nádar raust Drott-ins ecki forherda leingur vor hjörtu, Ebr. 3. Tef-jum ecki í dag af íllu ad láta, en þad góda ad ástunda, Es. 1. því annars er hætt vid, ad nádardyrunum verdi í nótt ad eilífu aptur lokad, Matth. 25.

Jesús nefnir áráfir og ofríki sinna óvina Makt myrkranna; gæti þess öll góð yfirvöld, hverjum Gud hefur maktina í hendur feingid, ecki til ad vera skálka-skjól og forsvar vondra verka, heldur, svo sem ljósid burtdrífur myrkurin med sínum fagra ljóma, svo eiga og yfirvöldin, med ljósi kristilegra laga og gudrækilegrar stjórnsemi, ad burttaka þad vonda úr

landinu: athugi þau, að myrkra makt heimsins mun endast og afmást, þegar sá kaldi dauði kémur að höndum, og hans dymmu myrkur yfirdynja, þá mun dýrð þeirra veldis ecki með þeim fara, Psálm. 49. Og í þeim ytstu qvala myrkrum mun reiði, hrelling og harmqvæli gánga svo vel yfir volduga sem vesæla, þá er illsku hafa drýgt á jörðunni, Róm. 2. Öll veraldar mannanna makt og metorð eru fallvölt sem myrkur og skuggi, fánýt sem hey og hégómi, Es. 40. Vertu því aldrei svo blind, sála mín, að þú hræðist ofmjög þeirra vald, Matth. 10. eða reiðir þig uppá höfðingjanna hylli, því þeir megna optlega ecki að hjálpa, en sá er sæll, hvers hjálp að Guð Jacobs er, Psálm. 145. Drottinn Jesú, þú sem ert líf og ljós allra manna, Jóh. 1. lýs þú öllum kristnum Yfirvalds mönnum með þínum náðar anda, að þeir, verandi ljós í Drottni, megi í guðrækilegum dygðum og dáðum framgánga, svo sem ljóssins börn, Eph. 5. Þú létst, Drottinn minn! þá straungu og stríðu qvalanna tíma yfir þig koma; géfðu, Guð minn, að mín hrygð, sem stundleg og létt er, abli mér eilífrar og ómetanlegrar sælu og dýrðar, 2 Cor. 5. Þú leiðst grimdarfullri myrkra makt þinna óvina yfir þig að falla, veit mér, að eg frá ytstu qvala myrkrum eilíflega leystur, meigi gégnum dauðann inngánga í þá himnesku Jerúsalem, hverja þín dýrð uppljómar, og þú lambið Guðs ert hennar ljós, Opinb. b. 21. O! Jesú, veit mér þann sóma! Amen.

## 9. Píslar-Pánki.

### Um flótta Lærisveinanna.

Þá forlétu hann allir lærisveinarnir og flýðu. Og þar var einn úngur mann sá eð honum

eptirfylgdi, hann var med líni klæddur ýfir bert hørund, og úngmenni gripu hann. En hann snaradi lín-klædinu, og flýdi nakinn í burt frá þeim. En flockurinn og hinn ypparsti høfuds madur gripu Jesúm og bundu hann.

Hér máttu, sál mín, sjá og læra af flótta Lærisveinanna, þegar þeirra Lávardur var til fánga tekinn:

1) Hversu fallvølt og fánýt er hjálp og adstod daudlegra manna í neydinni. Þegar einum geingur vel, má hann fá fagnandi vin í hverju húsi, Sýr. 37. En eirn bródir, sem í neydinni verdur fundinn, Ordsq. b. 17. má segjast gulli og gérsemum fágætari; nockra brestur viljann, nockra máttinn, og suma kannské hverutveggja í háska og hørmúngum hjálp ad veita; þeim fer þá vidlíkt vid vini sína, og leigulidanum, sem yfirgéfur saudina, þá hann sjer úlfinn koma, Jóh. 10. og verdur þad fyrst ad veigi ad forda sjálfum sér; og þann veg hygg eg vinirnir reynist laungum, vesælir lids og fánýtir huggunar menn, Job 16. Varastu því, sál mín! ad setja ofmikla von uppá heimsins valta adstod og vesælt vinfeingi, því sá madur er af Guds anda bølvadur, sem hefur svo sitt traust á manninum, ad hans hjarta burt víkur frá Drottni; en sá er og verdur um tíma og eilífd blessadur, sem treystir á Gud og setur sína von til hans, Jer. 17.

2) Athuga þú, sála mín! hversu miklu midur þér sé farid enn Lærisveinum vors Lausnara; þeir høfdu leisi síns Meistara ad flýa og forda lífi sínu, viljandi naudugir vid hann skilja; en hvad opt høfum vid, þvert í móti Drottins vilja og bodi, flúid úr

þjónustu ockar himneska Herra, og stolist undan blóðmerkjum vors blessaða hers-höfdingja Jesú, hafandi lyst og gledi af því ad ljá ockar limu til ad þjóna óhreinleikanum frá einu ránglæti til annars, Róm. 6. svo vid vórum sjálfdæmd til ad fara svo sem farflótta frá Guds nádar og dýrdar augliti í afgrunn eilífra qvala. En lofadur sértu, Lausnari minn! sem nádarsamlega hefur mitt böl álitid, og minni naudsyn bjargad; eg fór villtur sem saudur, Es. 53. í minni blindni og þvermódsku; þú leitadir ad mér sem gódur hirdir í miskun þinni og gædsku, Eph. 34. og leiddir mig á réttann veg fyrir þíns nafns sakir; þú varst einmana yfirgéfinn í hardþjakandi höndum þinna óvina, svo eg skyldi í minni neyd verda njótandi þinnar hjálpar og hjástodar; þú varst af öllum forlátinn í þínum hörmúngum, svo allt skyldi snúast mér til huggunar og gledi í mínum mannraunum. Æ minn hjartkjæri Lausnari! vert þú aldrei lángt frá mér med lykn og lidsemd þinni; lát mig ei hjálparlausann þreya í þrautum mínum; Gud! minn heilsugjafari, flýttu þér ad hjálpa mér, Psálm. 71.

3) Lær þú þad, sála mín! af þeim únga manni, sem flúdi nakinn frá óvinanna íllum skara, ad betra er med nockrum skada sínum, ad skilja sig vid samfélag íllra og órádvandra manna, enn med fánýtum ábata og undir eins íllri samvitsku ad verda samdauna þeirra vondri breitni. Sú er ein skjær og óflekkud Guds þjónusta, er allir rækja skyldu, ad vardveita sig af fremstu kroptum óflekkada frá þessum vonda heimi, Jak. 1.

4) Er þad af historíunni augljóst, ad hid saklausa Gudslamb, Lausnarinn Jesús Kristur, hafi med miska-

unarlausri medferd mest alla nóttina hrakinn og dreg=
inn verid undir qvalir og krossins dauda af þeim
gudlausa óvinanna skara. Allt hefur þú þetta lidid,
Lausnari minn! mér til miskunar, og minna synda
vegna; Eg er sá vondi þjón, sem med glæpum mín=
um hefi allt til þess unnid, ad dragast í gégnum daud=
ans dýmmu myrkur til eilífra helvítis qvala; en þú
géckst í minn stad, gódi Jesú, til ad bera mín íllsku
gjøld, og burttakamitt synda straff; þú géckst dymm=
ann qvala feril til þíns dauda, svo eg skyldi í mínu
andláti finna ljómandi fridar braut til þess eilífa
lífsins; þú varst vægdarlaust hrakinn og hrjádur af
þínum hatursfullu óvinum, því veit eg og vona, ad
sálin mín muni á mínum dauda beigi fá ad hvílast í
þínum miskunar og þinna heilagra Eingla] verndar
høndum; myrkur qvalanna ógnudu þér nærsta
hørmulega, því lifi eg aumur vesælíngur í þeirri von,
ad þú munir géfa mér um sídir, ad líta himneskann
ljóma þinnar eilífu dýrdar í þeirri nýu Jerúsalem,
hverrar sól og túngl þú sjálfur ert, Opinb. 21.

Drottinn minn Jesú! þú sem þann þyrnumlagda
qvala veg vildir í dymmum nætur myrkrum undan
mér gánga; virdstu med ljóma þinnar nádar ad lýsa
mér, med hendi þinnar hjálpar ad stydja mig á øll=
um þeim mædu og mótgángs veigi, sem þér þóknast
ad láta mig í þessum tára=dal feta; lát ecki þann
vonda djøful fá slitid mig, þinn saud, úr þinni hendi,
Jóh. 18. né villt af þínum sannleiks veigi; og þá
eg skal, eptir þínum nádar vilja, í mínu andláti gánga
veg allrar veraldar, Jós. 23. æ! lát mig þá hédan
í fridi fara, og géf ad dagar minnar hørmúngar, fái
eilífann enda í þínu himneska dýrdar ríki, Amen!

## 10. Píslar = Pánki.

Um fyrsta ransak Kristí fyrir Caípha.

Og þeir leiddu hann fyrst burt til Hannas, sá var fadir konu Caíphæ, hver ed þá var þess árs ædsti Prestur; og þeir burt leiddu Jesúm fánginn til Caípham kénnimanna høfdíngja. En Caíphas var sá, sem Gydíngum gaf þad rád, ad betur færi þad einn madur dæi fyrir fólkid. En kénnimanna høfdínginn spurdi Jesúm þá ad, um hans Lærisveina og kénníngu. Og Jesús svaradi honum: eg hefi opinberlega talad í heiminum, eg hefi og med jafnadi kéndt í samkundu húsum og í Musterinu, þar ed Gydíngar allstadar adkomu til samans, og eckért hef eg í leyndum talad. Hvad spyr þú mig ad þessu? Spyr þu þá þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefi talad til þeirra; sjá þú! þeir hinir sømu vita hvad eg hefi sagt. Enn sem hann taladi þetta, þá gaf einn þénaranna, sem þar stód hjá, honum einn kinn = hest, og sagdi; skalt þú svo svara Biskupinum? Jesús svaradi: hafi eg illa talad, þá bevísa þad, ad þad sé órétt; en hafi eg satt sagt, hvar fyrir slær þú mig? Og Hannas sendi hann bundinn til Caípham kénnimanna høfdíngja.

Í fyrstu ljómar hér nærsta fagurlega fyrir augum ockar, sála mín, guddómleg og hjartgróin ást og elska vors hjartkjæra Lausnara, hver ed hinar hersileguftu písl- ir hefir lidid ockur til sáluhjálpar, hinar hrygglegustu misþyrmíngar þolad, ockur til huggunar; hann var strax í øndverdri sinni pínu, svo sem argur illrædis madur hrakinn og hrjádur frá einum

qvala=stadnum í annann; svo vid, sem af náttúrunni erum børn reidinnar, Eph. 2. makleg ad rekast í útlegd frá Guds nádar og dýrdar augliti, skyldum í Jesú nafni hafa fríann adgáng til fødurlegrar Guds nádar og huggunar, medan ockar hérvist varir, og ad henni lidinni, finna opnar dyr til eilífrar himnanna sælu, hvar vid, leyst af allri eymd, munum ødlast gnótt fagnadar og gledilegt líf hjá Guds hægri hendi ad eilífu, Psálm. 16. O! minn hábleßadi Herra Jesú! virdst þú ad veita mér þá nád, ad bædi mitt hjarta og heimili sé þér þægilegur og vel tilreiddur bústadur, hvar inni þú med bleßan þinni virdist þér vistar=veru ad gjøra, Jóh. 14. Vertu mér ætíd velkominn géstur í lífi og dauda, og þótt þú komir med þinn kjæra kroß, þá má eg í þínu nafni verda honum feginn, því gott má af gódum hljóta; komi hann til mín bleßadur af Gudi; eg hefi búid bædi þér og honum herbergi, 1 Mós. v. 24.

Í ødru lagi skulum vid, sála mín, minnast þeß, ad Biskupinn Caiphas, af kennimannlegri anda=gipt, en undir eins med blindu og forherdtu hjarta, taladi hinn dýrmætasta sannleika, og lagdi þad besta heillarád: ad betur færi þad einn madur dæi fyrir fólkid; hann sagdi satt, en vildi sjálfur ecki trúa ad Jesús væri Guds Sonur, sá ed géfa vildi líf sitt til endurlausnar fyrir alla, 1 Tím. 2. Hann taladi rétt og vel, en meinti rángt og ógudlega, ecki ólíkt og Balaam Beorsson, sem hafdi andlegann spádóm á vørunum, en geymdi gudlaust hreckja=rád í hjartanu, 4 Mós. v. 24. og elskadi verdlaun ránglætisins, 2 Pét. 2. O! minn ástúdlegasti Jesú! vardveittu mig frá þeirra synd, vægdu mér fyrir þeirra

strassi, sem hafa yfirlit gudlegs athæfis, en afneyta þess krapti, 2 Tím. 3. Lát þinn himneskann náðar anda leida mig í allann sannleika, Jóh. 16. svo eg, hreinn af allri hræsni, meigi med huga, hjarta og munni þíns lofs og þinnar dýrdar fullur verda daglega, Psálm. 71.

Í þridja máta skal þad skarpa ransak, undir hvert hinn réttláti Guds Sonur var færdur á qvøld tíma sinna qvala, minna þig þar á, sála mín, ad þú á sérhverju qvøldi þinna lífdaga hid gáumgæfilegasta ransakir þitt undanfarid líferni, grátir íllgjørdir þínar af audmýkt og alvøru, og leitir þér í sannri hjartans umvendan líknar og vægdar hjá nádugum Gudi í Jesú nafni, svo þín ydrunar-tár og bænar andvarpanir megi fyrir hans mylkunar augliti verda álitnar sem þægilegt qvøld offur, Ps. 141. Jesús var af því andlega rádi adspurdur um hans Lærisveina og kénníngu; gjæti þess allir Guds kénnimenn, ad þeir muni um sídir fyrir Drottins dómi reikníngskapar krafdir verda, hverninn þeir hafi vandad Guds heiløgu orda kénníngar, og vakad yfir sálum sinna tilheyranda, Ebr. 13. Hafi nockur saudur af hjørd Drottins tapast fyrir hyrduleysi þeirra, þá vill hinn stráugi allsherjar dómari krefja hans blóds af þeirra hendi, Ezech. 3. Þeim byrjar, ad bæmi síns blessada Meistara, ad tala ord Drottins med opinberri djørfúng og alvørugéfni, en ecki svo sem í launkofum, med nockurri smjadran edur hræsni; þeir eiga hverki ad hrædast ofmjøg þann volduga, heldur upphefja sína raust, svo sem adra básúnu, segjandi sérhverjum af allri alvøru til sinna synda og misgjørda, Es. 58. Ecki heldur meiga þeir vanrækja

edur forsmá þann vesæla; miklu framar skulu þeir kunngjøra øllum allt Guds ráð til sáluhjálpar, Post. b. 20. O! minn blessadi Herra og Lausnari! vægi þín hjartgróin miskun og mildi vangjætslu minni og veikleika; bæti fullkomlegleiki þinnar nádarríku forþénustu alla mína forsómun og margfaldann breiskleika; íklæd þína kénnimenn himneskri nádar hjálpræði, og lát þína heilaga gledja sig í þinni myskun, Psálm. 132. Tilheyrendurnir taki sér einninn hér þá áminníng, ad þeir elski og vyrdi ord Drottins med allri gudrækni, og ástundi ad færa þar af ávøxt kristilegra dygda í allri þolinmædi; gjøri einninn einardlega játníng sinnar trúar, nær sem þørf krefur, og láti hana fagurt lýsa med ydkun gódra verka, bædi fyrir Gudi og mønnum, Matth. 5.

Í fjórda máta hefur Lausnarinn Jesús, þá hann var kinnhesti lostinn af kénnimanna høfdíngjans þénara, eptirlátid þér, sála mín! 1.) Þann fagra lærdóm, ad þú med hógværri alvøru forsvarir þitt sakleysi mót lognum lastyrdum vondra manna, kappkostandi æ jafnan ad hafa hreina og góda samvitsku bædi fyrir Gudi og mønnum, Post. b. 24. 2.) Þá sáluhjálplegu huggun, ad svo sem Adam var í sínu fyrsta syndafalli af sinni samvitsku hørmulega sleginn sér og sínu afkvæmi til bøls og minkunar, svo hann tók þau óyndis úrrædi af sorg og blygdan, ad vilja fela sig fyrir augliti Drottins, 1 Mós. 3. svo hefur líknarfullur Jesús látid sína helgustu ásjónu høggum ljósta strax í ønduerdri sinni pínu, til ad burttaka alla vora synda smán, og hughreysta vor hjørtu med þeirri líkkrøptugu nád og miskun, ad svo sem syndin ríkti fyrir Adams fall til

dauda, svo skuli nú miskunin miklu fremur ríkja til hjálpræðis fyrir Jesúm Kristum, Róm. 5. Lofadur og blessadur sértu, Lausnari minn! ad eilífu, fyrir alla þá hørmúng, sem þú hefur minna vegna lidid, og alla þá hugsvølun, sem þú hefur mér þar med afrekad; þú leidst miskunarlausum þrælum þína dægilegu ásjónu med hnefa-høggum ad særa. Æ! eg grátbæni þig! virdst þú miskunsamlega ad græda øll synda-sløg og sorgar-sár minnar samvitsku; þegar mitt hjarta fordæmir mig med minníng minna glæpa, þá still þad til frids, Drottinn minn, og stødva þess ángur med nádar vitnisburdi og himneskri huggun þíns heilaga Anda; bidji hann þá best fyrir mér med úumrædilegum andvørpunum, Róm. 8. og gjøri mig vissann þar um, ad eg sé Guds barn, og erfíngi eilífrar himnanna sælu. Amen.

## 11. Písslar-Pánki.

### Um afneitan Péturs.

En Símon Petur fylgdi Jesú eptir áleingdar, og einn annar lærisveinn, sá sami lærisveinn var kunnugur kénnimanna høfdíngjanum, og géck inn med Jesú í kénnimanna høfdíngja salinn. En Petur stód úti fyrir dyrunum, þá géck út hinn annar Lærisveinn, sem kénnimanna høfdíngjanum var kunnugur, og taladi vid hana, sem dyrnar geymdi, og leiddi Petrum inn. Þá sagdi ambáttin, sem dyrnar geymdi til Peturs; ertu eigi einn af þess manns lærisveinum? hann sagdi: eigi er eg. En þénararnir og undirmennirnir stódu og høfdu gjørt kola-eld og vermdu sig, þá tøludu þeir til hans;

ertu einn af þess manns Lærisveinum? hann neytadi og sagdi: eigi er eg. Þá sagdi einn af kénnimanna høfdíngjans þénutum, frændi þess, sem Petur hjó af eyrad: sá eg þig ei í grasgardinum hjá honum? þá neytadi Petur enn aptur. Og strax gól haninn.

Hørmuleg er náttúrunnar spillíng og holdsins breiskleiki, vid hvern jafnvel Guds børn hljóta ad berjast í heimi þessum, ad þegar þau vilja gjøra hid góda, þá lodir þó jafnan þad vonda vid þau, Róm. 7. Þau vita ad sønnu, ad þad er þeirra blessada Lausnara Jesú bodord, og vilja því líka hjartans feiginn hlýda, ad þau skuli afneita sjálfum sér, taka sinn kross uppá sig, og fylgja honum svo eptir, Matth. 16. En þeirra spillta hold og blód hefur vidbjód á hørmúngunum, og þykir þær hrygd, en eingin gledi vera, Ebr. 12. Hinn gamli Adam vill gjarnan sneida sig hjá krossinum, og álítur þad port þraungt, og þann veiginn erfidann. Matth. 7. Þetta sær þú, sála mín! gløgglega sjed af dæmi Drottins Postula Peturs, hver ed af heitum kjærleika til síns hjartkjæra Meistara Jesúm, vildi í fyrstu naudugur vid hann skilja, en vogadi þó ecki, fyrir hrædslu sakir, ødruvísi enn áleingdar honum eptir ad fylgja. Minn elskulegasti Endurlausnari Jesú! hjartans feiginn vil eg voladur vesælíngur fylgja þínum blessada kross-ferli, og útvelja heldur med þér hørmúngar ad lída, enn ad hafa stundlegt eptirlæti syndarinnar, Ebr. 11. En væg og vorkénn, þú blessadi Herra, veikleika mínum, þótt framqvæmdin verdi laungum miklu daufari enn vera skyldi; og þegar mín trú tekur ad þrotna, og þolinmædin ad bilast í mædu

minni og mótlætis áſtrîdu, æ! brjót þú ecki, Drottinn minn, heldur bæt og ſtyrk nádarſamlega þann marda reirlegg, Eſ. 42. Rétt mér þína miſkunar hønd, ſvo eg ſöckvi ecki í afgrunn ørvæntíngarinnar, og géf ad allar mínar eymdir verdi þér til dýrdar, en mér til beſtu bléſsúnar nota.

Framvegis ſkaltu, ſála mín, af dæmi Poſtulans Péturs, varaſt, med ofdyrfd eda ófrámſýni, ad ſtofna þér vísvitandi í nockurn háſka, nema Guds ord leyfi þér, eda kjærleikans ſkylda ſkipi þér; haf Gud ætíd fyrir augum þínum, og áforma øll þín efni med gódri ſkynſemi, Ordsqv. 13. Ef þú þykiſt ſtanda, þá gaumgjæf vel, ad þú fallir ecki, 1 Cor. 10. og lát þér til hugar kóma, ad hver hann med andvaralausri ofdyrfd ſækir eptir óluckunni, honum mun hún mæta, Ordsqv. 11. Í aldingardinum hafdi Pétur ſvoddan hetju hjarta, ad hann qvadſt reidubúinn ad gánga í daudann med Jeſú; en ſkommu ſídar féllſt honum ſvo hugur vid ord einnrar audvyrdilegrar ambáttar, ad hann afneitadi ſínum bleſsada Meiſtara med eidi; þanninn eru allir eins ſterkir á ſvellinu, nær Gud tekur í burt ſína hjálpar-hønd, og mannſképnan raſar fyrir rád framm; vakta þig því, ſála mín, og bid Gud ad vernda þig frá voda øllum.

Mér vyrdiſt ad kitlandi vellyſtíngar þeſsa vonda heims og ſaurugar gyrndir vorrar ſyndumſpilltu náttúru, meigi maklega líkjaſt vid þær logandi eldsglædur, vid hverjar Pétur vermdi ſig, og vard því frá Gudi villtur; hér ſitja í hríng vondir ſyndaþrælar, ſem ſkémta ſér vid bál bannadra laſta og illverka, og ſvo ſem þeir eru ſjálfir villtir, ſvo hafa þeir hvad hellſt yndi af því, ad villa adra af Guds vegi;

gjæt þín þar fyrir, sála mín, því íllt má af illum hljóta, þitt hjarta fylgi ecki syndurunum, heldur vertu stadføst í Drottins ótta, Ordsqv. 23. Pétur var í syndina feldur af forsmánarlegri ambátt, vid hana tek eg í samjøfnud þessa hreckvísu veröld, sem med vondum svip, og þó enn verra hjartalagi situr á svikrádum vid Guds elskendur. Vertu, ó Jesú! mín verndar-hlíf, mót hennar vélum og illsku, og lát mig undir þínum nádarvængjum finna athvarf í øllum háska, Psálm. 59.

Þegar Pétur hafdi einusinni afneitad sínum Herra, hugdi hann ad gánga út úr Biskups høllinni, en hann var á allar sídur umkríngdur af illum þrælum, svo hann hendti ein hrøsun annari hersilegri, ad hann afneitadi Lávardi sínum og Lausnara med svørnum eidi; þanninn slasar margur út í háskann, og hlítur því ad fyrirfarast í honum; vegur glæpanna og gjálífisins er vídur og breidur, Matth. 7. en hann leidir ad lyktunum til gløtunar þeirrar, hvadan enginn endurlausnar von er ad eilífu, Opinb. 20. Sjádu því vel fyrir, sála mín! og haf Drottinn þér alla tíma fyrir augum, svo þú í allskonar háska megir fyrir hans hjálp vel standa, Ps. 16. Þrælarnir þóckust þeckja Pétur af hans túngumáli; lær þar af, kristinn madur, ad audsýna þad bædi med ordi og verki, ad þú sért Guds barn. Menn taka til marks á málinu, hverninn háttad sé hjartanu: sjá til, ad þú, af gódum sjód þíns hjarta æ jafnan framberir þad góda, en fordastu þeirra selskap, sem af illum sjód síns hjarta láta íllt og ósæmilegt til sín sjá, edur af sér heyra, Lúk. 6. Hver hann vill lifa og sjá góda daga, hann vari sína túngu, ad hún

ecki íllt mæli, og sínar varir, ad þær tali ecki flærd; hann láti af illu og gjøri hid góda, leiti fridarins og fylgi honum eptir, Psálm. 34.

Ad sídustu gjætum þess, sála mín, og gleymum því aldrei, ad hafi svo hryggileg hrøsun hendt, svo hrædilegur sálar háski hitt hann heilaga og hátt-upplýsta Drottins Postula Pétur, æ hversu tæpt munum vid þá standa! hversu hægt mun ockar íllsku-fullu óvinum veita, ad svíkja ockur, vid sem af nátt-úrunni erum blind í því ad þeckja, vangjætin í því ad varast, og vanmáttug til ad umflýa þad vonda! O! minn líknarfullasti Lausnari Jesú! þú veitst best hversu hætt eg er staddur í vondskufullum solli ver-aldar þessarar, vidlíka og saudur milli varga, Matth. 10. Þér er kunnugastur minn hørmulegur breiskleiki, sem mig vill laungum í syndina fella, minn hryggi-legur veikleiki, ad eg megna ecki mér sjálfum ad bjarga; vert þú því, gódi Jesú! mitt ljós og minn heilsugjafari, sem mig med fridi og farsæld úr øllum háska leidi; vertu kraptur míns lífs, sem mig mót allskonar neyd og ólucku nádarsamlega stidji og styrki, vardveiti, verndi og blessi, Psálm. 27. inn til þess eilífa lífs-ins, Amen.

## 12. Píslar = Pánki.

### Um Peturs Ydran.

Og Drottinn snéri sér vid og leit til Peturs; þá minntist Petur ordanna Jesú, er hann hafdi sagt til hans: ádur enn haninn galar tvisvar, munt þú afneita mér þrisvar. Og hann géck út og grét beisklega.

Miskunsamlega breytir hinn nádugi Gud vid oss syndugа vesælínga, ad vísu í øllu; en þó einna mest í því, ad á móti því banvæna eitri vorrar illsku og syndar, hefur hann blessadur lagt þá lífkroptugu bót og lækníng sinnar fødurlegu gædsku og miskunar, hverra þeir verda allir njótandi, sem leita þar eptir med sannri hjartans umvendan og yfirbót, svo ad á hverjum degi, sem sá hinn ógudlegi snír sér frá sínu ógudlegu athæsi, og gjørir þad sem rétt er, þá hefur sjálfur Gud med svørnum eidi lofad, ad hann skuli lifa og ecki deya, allra hans misgjørda skuli ecki ad eilífu minnst verda, Ezech. 18. Eitt fagurt eptirdæmi hér uppá sjáum vid, sála mín! á heiløgum Drottins Postula Petri, sem grátlega villtist frá Gudi med syndinni, en gudrækilega snéríst til Drottins aptur med ydraninni; þar af skulum vid, sála mín, þessa eptirfylgjandi lærdóma í sønnum Guds ótta ockur til eptirtecktar adgjæta.

1. Svo sem Pétur var med tvennu hana-gali til ydrunar og apturhvarfs áminntur, eins vyrdist mér ad hinn nádugi Gud med tvennslags hrópandi rødd láti vekja ockur, mín sál! af syndanna svefni, og áminna ockur, ad snúa aptur til Drottins, svo hann láti ecki sína reidi yfir ockur falla, Jer. 3. Víst má þad kalla hvellann hana saung í hjarta mannsins, þegar hans eigin samvitska, og innvortis hjartans þánkar klaga hann og ásaka hann vegna sinna framdra glæpa, já, ógna honum og ofbjóda med ótta fyrir yfirvofandi syndanna straffi og eilífri hegníngu, Róm. 2. Svoddan vond samvitska væntir ætíd hins versta, Sp. b. 17. hún er sárt nagandi ormur, sem hjart-

ad pínir og plágar; hún er hin hættulegasta snara, sem heldur sálunni svo sem fánginni í ángist og örvænting, svo hún megnar ekki ad leita sér lids eda líknar hjá Gudi, og verdur svo hennar hid sídara verra hinu fyrra, Lúk. 11. Pad annad hana-gal má med öllum rétti heita hrópandi raust Guds heilaga lögmáls; þad opinberar og sýnir manninum ljótleik og vidurstygd syndarinnar, Róm. 3. þad qvelur og kremur samvitskuna med ógn og ofbodi hegníngarinnar; þad hrópar bölvan yfir öllum sem þad brjóta, 5. Mós. 27. þad deydir og særir, 2 Cor. 4. en megnar ekki ad lífga edur lækna; þad svo sem vísar brotlegum syndara ofan í þad heita helvíti, en hjálpar honum ekki til ad frelsast þar frá; hvar af audveldlega kann ad orsakast elskulaus þrælsótti, þverúd og hræsni, sem ad lyktum steypir í eilífa glötun öllum þeim, sem ekki af hjarta halda sig nálægt ad sínum Gudi, Ps. 73. Varastu því, sála mín, þennann sorglega voda, lýdum aldrei samvitskunni ad sigrast af svefni andvaraleysisins, og látum Guds heilaga lögmál halda ætíd fyrir ockur andlegri vöku gudrækilegrar umvendunar.

2) Merkjum vid, sála mín, ad fljótt skipadist Postulinn Petur vid Lausnarans Jesú miskunar tillit; hann minntist jafnsnart Drottins advörunar orda, géck út og grét synd sína med beiskum tárum. En nú í dag lítur líknarfullur Jesús til ockar, sála mín, þad skédur fyrir nádar-verkan og innvortis hræríngar heilags Anda, sá er huggar þá hreldu med hjálp, og styrkir þá veiku med sínum krapti, Ps. 51. Hann lætur í fyrstu lögmálsins straungu hótanir lemja og

hræða syndarans hjarta, síðan fer hann með huggunarríkum Evangelíi fyrirheitum að friða og græða þá sorgbitnu syndarans sálu; hann kunngjörir þeim volaðu miskunina, þeim veiku lækninguna, þeim bundnu lausnina, Es. 61. þeim syndugu sáluhjálpina; hann qveikir og nærir þá sönnu og sáluhjálplegu trú, fyrir hverja eitt sannyðrandi hjarta flýr á náðir þess himneska Föðursins, Lúk. 15. lætur forlíka sig við hann í Jesú nafni, 2 Cor. 5. og öðlast svo frið, náð og réttlæti fyrir hans dýrmæta forþénustu, Róm. 5. Gjör í Guðs nafni! sála mín, og lát þetta blíða Jesú náðar tillit ecki vera ávaxtarlaust hjá þér; þenk ei, að það standi í þínu valdi að umvenda þér til Guðs, þegar þér sjálfum lítst, og þú meigir að ósekju draga það svo leingi, sem þínum vondum gyrndum líkar. Ecki féck Postulinn Petur rænu á að þeckja sitt sorglega fall, fyrri enn Drottinn leit til hans; svo áttu það einnin undir einskjærri Guðs náð, en ecki þinni fyrirætlan, hvert þér auðnast að rísa upp af þinni synda hrösun og umslýa tilkomandi reiði, Matth. 3. Drottinn er hann, sem verður að verka í þér, bæði að vilja og framqvæma það góða, eptir sinni velþóknan Phil. 2. annars liggur þú dauð í syndunum, og fráskilin því lífi, sem í Guði er, Eph. 2. Onýt því ecki Guðs náðar-verk í stríð við sjálfann þig, þegar Jesús lítur til þín í sinni náð og miskun, segjandi: snúið aptur þér hin fráföllnu börn, þá vil eg lækna yður, lít þá aptur til Jesúm, sála mín, með sannri hjartans yðrun og heitri trúar ást og hlýðni, andvarpandi í himininn til hans, sjá þú, vér komum til þín, því þú Drottinn ert vor Guð, Jer. 3. Ætla ecki, ó maður! að þín seina yðran sé hrein fyrir Guði

eda heilsusamleg þinni sálu, ef þú girnist framveigis í glæpum þínum ad liggja. Tef því ecki med þína ydran, betra þig heldur í sonnum Guds ótta, og af fullri alvøru, á medan þú kannt enn nú ad syndga, Sýr. 5.

3) Lærum vid, sála mín! ad strax sem Postulinn Petur þeckti sína grátlega hrøsun, géck hann út úr Biskups höllinni frá þessum gudlausa solli; gjør hid sama, sála mín! snú hjarta, huga og vilja frá øllum þeim, sem þú sjer ad illa lifa, og haf eckért samfélag eda sidblendi vid þeirra vonda breytni, þá vill Gud vera þinn miskunsamur Fadir, og medtaka þig í nád, svo sem sitt elskulegt og blessad barn, 2 Cor. 6.

O! minn elskulegasti Jesú! lít þínum blessudu miskunar augum yfir mig villtann saud og vesælann syndara, Es. 53. þegar eg af breiskleika og blindni míns holds fell og hrasa í syndina; æ! bend mér þá, blessadi Herra! í miskun þinni, svo eg verdi ecki frá þínu nádar augliti útskúfadur; veit mér, ad eg af hjarta gráti glæpi mína, og fái sídan nádar ad njóta í þínu nafni. Til þín, Drottinn minn! mæni eg laungum grátandi augum, og upplýpti ángrádu hjarta, Ps. 121. Æ! lát þitt andlitis ljós lýsa yfir mig, og veit mér fullting í neydinni med þinni hjálpar hendi, svo ad øll mín ángurs-tár megi ad eilífu afþurkast í þínu dýrdar ríki, Amen.

## 13. Píslar-Pánki.

### Um Caiphæ dóms-úrskurd.

En þeir ædstu Prestar og Øldúngar og allt rádid leitudu ljúgvotta í gégn Jesú, svo þeir gæti

deydt hann, og fundu engin. Og þó mørg fals-vitni gengi fram ad, þá fundu þeir ekkért. En ad sídurstu gengu tveir fals-vottar fram og søgdu: hann hefur sagt: eg gét nídurbrotid musteri Guds, og eptir þrjá daga byggt þad upp aptur. Sá ædsti Prestur stód þá upp og sagdi til hans; svarar þú eingu til þessa, sem þessir vitna í móti þér? en Jesús þagdi. Sá ædsti Prestur ansadi og sagdi til hans: eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú segir oss, ef þú ert Kristur Sonur Guds. Jesús sagdi: þú seigir þad; þó seigi eg ydur: hér eptir mun þad ské, ad þér munud sjá Mannsins Son sitia til hægri handar kraptarins og komanda í skýum himins. Þá reif kénnimanna høfdínginn sín klædi og sagdi: hann gudlastadi. Hvad þurfum vær vitnanna vid? sjá þér heyrdud sjálfir hans gudlastan! hvad virdist ydur? þeir svørudu og søgdu: hann er daudans sekur.

Ekkileg gledi og ilmsæt huggun er ockur þad, sála mín, ad hugleida nockud gjør þessa grein af Lausnarans píslar-søgu, og gæta undir eins þess blessada Guds Anda bodords fyrir munn Postulans Páls, er þannin hljódar: minnist á þann, sem þvílík mótmæli gégn sér af syndurunum þoldi, svo ad þér þreytist ecki og uppgéfist í ydar hugskotum, Ebr. 12. Minnumst því á ockar mildiríkann Jesúm, sála mín, og lærum af þeim mótmælum, sem hann blessadur leid, ockur til miskunar, þessi eptirfylgjandi heilrædi.

1) Ef þú verdur fyrir álýgi og óhródri af vondum veraldar mønnum, þá haf þér fyrir augum blídast hógværdar dæmi þíns blessada Frelsara Jesú, hver ed ecki svaradi einu ordi mót lognum sakargiptum og

áklögunum sinna óvina, heldur þagdi svo sem meinlaust lamb, fyrir þeim sem það klippir, Es. 53. Viljir þú nú Jesú Lærisveinn vera, þá varast med heiptarfullum þjósti, að erta íllt skap óvina þinna, en ástunda með guðrækilegri þögn og þolinmæði það vonda að yfir vinna og á góðann hátt að lagfæra, Róm. 12. Gæt þess, að skinsamleg þagmælska, edur, að ödrum kosti, hógvær afsökun, heftir optlega reidi, Orðsq. 15. en fávísleg bræði-orð kinda bál íllskunnar enn þá heitara, og spilla jafnvel góðum málstað; lærum því hógværðina af líknarfullum Jesú, svo vid, mót veraldar aðkasti, meigum hjá honum hælis njóta, Matth. 11.

2) Varast þú, ó madur! af íllu dæmi hinna óguðlegu fals votta, að fylgja nockurntíma raungu málefni, edur bera ósatt vitni, 2 Mós. 23. annadhvert til að áfella þann, sem þú veitst fyrir Gudi og þinni samvitsku, að réttum lögum, saklausann, edur forsvara hinn, sem þú þeckir sekann vera; haf Gud fyrir augum þér, og gæt þess, að einn ljúgvottur verdur ecki óhegndur, Orðsq. 19. og sá munnur sem lýgur, deyðir sálina, Spek. b. 1.

3) Merkjum vid, sála mín, ockur til eilífrar huggunar, að til þess leid líknarfullur Jesús, það hann væri eptir lognum vitnisburdum, fyrir óguðlegra manna dómi, sakfeldur, að vid sekar stórbrota sképnur, skyldum finna náðar forsvar og afsökun hjá honum, þegar sannleiks vottar Guðs heilögu orða og vorrar samvitsku vilja fella ockur og ásaka fyrir Guðs augliti; Jesú talandi blód, Ebr. 12. mun þá verda ockar besta forsvar, Jesú fullkomna réttlæti ockar fégursta afsökun; engin fordæming finnst á ockur, sem fyrir sanna og lifandi trú erum í Kristó Jesú, Róm. 8.

4) Athuga þú, mín sál, ad ecki vildi Lausnarinn lengur þegja, þegar hann var í Guds nafni andsvars krafdur þar um, hvert hann Guds sonur væri, heldur gjørdi hann blessadur skíra og hreina játníng fyrir Biskupinum Caiphas á þennan hátt: Þú segir þad, Eg em hann. Læri allir kristnir menn af þessu Lausnarans dæmi, ad þegja í tíma, og tala í tíma, Préd. 3. dyljandi aldrei sannleikann, þegar Guds dýrd útheimtir, ad hann opinberast skuli; veri einninn reidubúnir, án þræls ótta og yfirdrepskapar, greinagott og gudrækilegt andsvar ad géfa hverjum manni, sem skjals krefur af þeirra trú og kristindómi, svo vér allir med samstemmandi hjarta og munni, helgum Guds háleita nafn, og høldum svo trúnni og gódri samvitskn, allt til æfiloka, 1. Tím. 1.

5) Varist øll gód yfirvøld, af dæmi hins gudlausa Biskups Caiphæ, fyrir vild edur vináttu, vegna valds eda myndugleika annara manna, ad beigja veg réttarins frá því sem Guds og kóngsins løg bjóda; gætandi þess, ad dómara embættid er Drottins, 5 Mós. b. 1. og þeir sem hafa manngreinar álit í dómi, eru fyrir Gudi ein vidurstygd, Ordsqv. b. 17.

6) Og ad sídustu, lít eg mínum hugskots augum til þín, minn Herra Jesú, og læt þad sama vera mér ylmandi huggun í mínu andstreymi, sem þín var í þínu ángistar qvalrædi, þá þú minntist á þína dýrdarfullu upphafníngu, segjandi: Nú hédan í frá munud þér sjá Mannsins Son sitja til hægri handar kraptarins, og komandi í skýum himins. Þannin þreyi og þrái eg í vesøld minnar eymdar, eptir auglýsíngu þinnar eilífu dýrdar, Drottinn minn! og vona í trausti miskunar þinnar, ad um sídir muni

endast armædu stundir minna óskémtilegu útlegdar í þessum auma heimi, og eg fái ad ødlast gnótt fagnadar og gledilegt líf hjá þinni hægri hendi, Ps. 16. í því yndisfulla fødurlandi eilífrar sælu. Þú varst, Lausnari minn! af ljúgandi munni kénnimanna høfdíngjans Caiphæ fyrir gudløstun sakfeldur; æ! géfdu mér, ad eg, qvittur frá eilífum áfellis dómi, verdi af þínum nád-drjúpandi sannleiks munni á sídasta degi í miskun ávarpadur; allt þad andlega valdid ályktadi, ad þú, Drottinn minn! værir daudans sekur; æ! veit mér þá nád, þó eg sé hennar óverdugur, ad eg í þínu nafni verdi fyrir þínum nádarfulla dýrdar dómi til eilífs lífs og eilífrar sælu medtekinn og úrskurdadur; heyrandi þetta gledi-tal af þér til mín: kom þú blessadur fødur míns, og eignast þad ríki sem þér var tilbúid frá upphafi veraldar, Matth. 25. Háleitlega lofud sé þín heita hjarta gædska, ó Jesú, sem mér hefur afrekad svo fagra endurlausn, og útvegad eilífa gledi, Amen!

## 14. Píslar-Pánki.

Um þjónanna spott vid Kristum.

Enn nockrir tóku ad spýta á hann, og byrgja hans ásjónu, og slá hann med knefum, og segja til hans: spá þú oss; og þénararnir slóu hann pústra í andlitid.

Stór hefur verid íllskunnar offsi og heiptar frekja Jesú óvina, ad gjøra því blessada Guds lambi sem mest til qvala og hádúngar; lángtum stærri var þó Lausnarans brennandi ást og elska til vor aumra manna, ad hann lagdi sig undir svo hersilegar og

hriggilegar píslir, vegna vorra synda og oss til sálu-hjálpar. Þegar hann fékk einga vægd hjá illum þræl-um, gjørdi hann það mesta miskunar verk bædi á þeim og øllum oss aumum Adams nidjum; oss til sóma og sálar gledi, oss til endurlausnar og eilífrar líknar, hefur hann blessadur ecki birgt sína helgustu ásjónu, fyrir forsmán og hrákum, Es. 50.

Ó! minn elskulegasti Lausnari Jesú, med því áng-istarfulla ónædi, sem þú leidst á þinni qvala nóttu, hefur þú afrekad mér aumum vesæling marga hæga nætur hvild og værann svefnblund í skjóli þinnar náð-ar; þín pína hefur afrekad mér æskilega ró og gledi; í þínu náðar nafni fæ eg med fridi ad hvílast, því þú, Drottinn, ert mitt athvarf og trúnadar traust, Psálm. 91. Vid þessa þína náð kannast eg nú, Drottinn minn, med audmjúku ástar þacklæti, og grátbæni framveigis þína guddómlega mildi; þegar sú dimma hrygdar og harma nótt, og ad lyktunum hid sídarsta daudans svartnætti skal yfir mig koma, æ! láttu mig þá þrælinn þinn, mér til miskunar, njóta þeirra sorglegu nætur qvala sem hér á þér láu. Fyrir þau hørdu høgg og pústra sem þú leidst á þinni helgustu ásjónu, virdstu í náð og líkn ad lina og mýkja samvitskunnar kløgun og Satans ógnanir í mínu vesæla hjarta. Fyrir þá smánarlegu hráka, hverjum varpad var í þína dáfrída ásjónu, virdstu ad láta sæta svølunar strauma þíns heilaga anda drjúpa yfir mína mædda og þjáda sálu; vertu, ó Jesú! mitt líf, Phil. 1. sem allt daudans ofbod og andláts pín krøptuglega bæti og grædi, svo eg med gledi meigi gánga í gégnum daudann til þeirrar sigrihrósandi Zíon á himnum, hvar eilífur føgnudur mun verda yf-

ir allra útvaldra höfdum, gledi og fögnud munu þeir höndla, en hrigd og andvarpan mun í burt frá þeim flýa, 51.

Eg veit ad sönnu, þad margir, já, allir þeir, sem nockurn Guds neista hafa, lasta og fordæma eptir maklegleikum þá íllu skáka, sem hinn saklausa Jesúm svo hádulega útléku; en þad má grátlegt þykja, ad þeirra sannkalladir sporrekjendur skuli enn nú í dag finnast medal þeirra jafnvel, sem kristins manns nafn bera; eda munu þeir í nockru betri þrælum þeim, sem Drottinn dárudu, þeir ed nú á vorum dögum heyra Guds ord, vita Guds vilja, en gjöra þar þó eckért eptir? þeir ed hafa þénara Drottins ad skimpi, og þeirra heilsusamlegar áminníngar ad hégóma-málum, anandi svo fram eptir sínum glæpafullu girndum? Ezech. 32. Eg voga ad segja, ad þeir sem eitt sinn upplýstir eru í réttri þecking á nádar verkum og vilja lifandi Guds, þeir ed smackad hafa hid góda Guds ord, og krapt eptirkomandi aldar, Ebr. 6. en hafa þó eingu ad sídur mök vid hinn vonda djöful, med heidínglegri hjátrú og ödrum ógudlegum apaskap, þeir eru jafnvel verri hinum blindu Caiphæ þrælum, sem hæddu Drottinn dýrdarinnar, og qvöldu hertoga lífsins; því þessir gjördu þad af óvitsku, og vissu ecki vid hvern þeir áttu, en hinna syndir þeim mun svívyrdilegri, og þeirra straff mun verda því óbærilegra, sem þeir augljóslegar þeckja og vidurkénna sinn Gud og Lausnara med munninum, en afneita honum þó med verkunum, Tít. 1.

Allir skynhelgir hræsnarar, sem hafa yfirlit gudlegs athæfis, en afneita þó þess krapti, 2 Tím. 3. þeir ed hylja þad grimma úlfs hjarta ógudlegra hrekja,

undir føgrum saudar feldi frómleika og blídlegrar vináttu, Matth. 7. þeir eiga allt of skildt vid þessi vondu varmenni, sem birgdu blessada Jesú ásjónu og børdu hana med knefum; þessir dárudu Herrann í eigin persónu, en hinir eru eingu betri, sem hæda ad honum í hans andlegum limum. O! þér gudlausu gárúngar og gjálífu spottfuglar! vitid fyrir víst, ad þad háð og spé, sem þér gjørid ad frómum og fátædum Guds vesælíngum, hverja blessadur Jesús blygdast ecki sína brædur ad kalla, Ebr. 2. þad vill hann virda og reikna svo sem vid sig sjálfann gjørt hefdi verid, Matth. 25. Farid því ecki leingur villir vega, því Gud lætur ecki ad ósekju ad sér hæda, Gal. 6. Þad sem madurinn sáir nidur, þad mun hann uppskéra; sá sem nidursáir lasti og lygum, spotti og spélni hér í heimi, hann mun, (ef hann gjørir ecki alvarlega yfirbót) uppskéra skømm og skélfíng, reidi, hrellíng og harmqvæli ad eilífu í helvíti. Varastu því, ó madur! þér ókénndaun, þótt aumur þyki, med hædnis ordum edur atlotum ad áreita; því ské má, ad þú hittir þann fyrir sem síst skyldi, eins og þá blindu Gydínga hendti; sjádu því vel fyrir, ad þú í ótta Guds, og af einføldum kjærleika, breytir svo jafnan vid adra, med ord og verk, eins og þú vildir fyrir sjálfann þig kjósa, Matth. 7.

Æ! minn elskulegasti Jesú! eg medkénni med audmjúku og ángrádu hjarta, ad eg hefi med margføldum misgjørdum mínum syndgad í himininn og fyrir þér, Lúk. 15. Eg hefi nidursád synd og ránglæti, og er því mannanna maklegastur ad uppskéra refsíng og reidi; blessadur sértu, minn hjartans blód-brúdgumi, sem med þinni smán hefur afrekad mér eilífa æru, med

þinni hörmúng, nádarfulla lífgun og lækníng. Þú sádir nidur fullkomnu sakleysi og heilagleika, og gafst mér þar af ad uppskéra fagurblómgad blessunar og nádar hjálprædi; þínir dýrmætu blód-dropar eru minni syndum þjádri sálu himneskur Jurtagardur, sem mér ber þúsundfaldann ávöxt mildi og miskunar, synda qvittunar og sáluhjálplegrar endurlausnar. Þú varst, Drottinn minn! hæddur, mér til heidurs og upphefdar; þú varst sleginn mér til líknar og lækníngar. Því er þad mín stærsta skylda, og skal vera mín ædsta gledi, þér til lofs og þócknunar, þínar blessudu fætur med audmjúkum ydrunar tárum ad væta, med heilögum trúar kossi ad kissa, med ilmandi elskunnar oleo ad smyrja, Jóh. 17. En miskuna þú blessadur best máttleysi mínu, og géf ad hverki hid nálæga né ókomna fái mig frá þér slitid, Amen!

## 15. Písslar-Pánki.

### Um rádstefnu Prestanna yfir Kristó.

Og er dagur var, söfnudust saman Öldúngar lýdsins, og hinir ædstu Prestar, og hinir Skriftlærdu, og leiddu hann upp fyrir sitt rád, og sögdu: ef þú ert Kristur, seig oss þad. Og hann sagdi til þeirra; ef eg segi ydur þad, þá trúid þér því eigi, en ef eg spyr ydur, þá svarid þér mér eigi, og látid mig þó ei lausann. Nú hédan í frá mun Manns sins son sitja til hægri handar Guds kraptar. En þeir sögdu allir: ertu þá Guds Sonur? hann sagdi til þeirra: þér segid þad, þvíad eg em. Þá sögdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisburdinn leingur? Vér sjálfir heyrdum þad af hans munni. Og allur sá hópur stód upp og leiddi hann fyrir Pílatum.

Af þessari grein skaltu, sála mín! þér til guðrækilegrar yfirvegúnar taka:

1) Hvílíka frekju og ákefð hinir heiptarfullu Gyðíngar höfðu í frammi, í því að fordæma og í krossins qvalir og dauða að framselja það meinlausa Guðs lamb, Lausnarann Jesúm Kristum; þeir sátu lángt fram á nótt, og vöknuðu árla um morguninn, til að bera sín ráð saman mót Drottni og í móti hans Smurða, Psálm. 2. Þannin eru börn veraldar þessarar kjæn, kostgæfin og árvökur í vondum og vesölum djöfulsins, heimsins og holdsins þrældómi. O! hversu grátlegt er þá til þess að vita, að þú, sála mín, sem ert kölluð og kjörin, til að þjóna þínum himneska og hábless̈aða Guði og Föður, í heilagleika og réttlæti alla þína hérvistar daga, þú ert samt sofandi, dofin og dáðlaus í heilsusamlegri Guðs dýrkan og þínu heilaga kristinndóms verki. Hinir vesölu Mammons þrælar sofa varla værann dúr fyrir heiðínglegum og hégómlegum sorgum þessarar næríngar, Lúk. 21. Er það þá ecki mesta mýnkun fyrir ockur, mín sál, að sofa andvaralaus á letinnar kodda? við, sem eigum að verka ockar tímanlega og eilífa velferð með ugga og ótta, Phil. 2. og vera ockar himneskum Föður og Herra trú allt til dauðans, svo við kórónu lífsins mættum úr bítum bera, Opinb. b. 7. Prestarnir risu árla upp að dæma Drottinn Jesúm til lífláts og dauða; gjæti þess þeir, sem Guð hefur sett vökumenn á múr-veggjum hinnar andlegu Jerúsalem, Es. 62. þeir eð vaka yfir sálum sinna tilheyrenda, svo sem þeir eð reikníngskap þar fyrir gjöra skulu, Ebr. 13. Risi þeir árla á sérhverjum morgni af öllum

kennínar svefni, til ad gjæta síns embættis med gudrækni, og bera sig ad gánga verduglega í þeirri heiløgu kallan, til hverrar þeir eru kalladir, Eph. 4. Láti þeir, med sérhverjum upprennandi dags morgni, nýa bæn fyrir nádar augliti Drottins uppstíga, nýa árvekni, trygd og dygd í sínu embætti augljósa verda, svo þeir bædi med heilsusamlegri kénníngu heilagra Guds orda, og hreinferdugu líferni, audsýni sig í øllum hlutum sem Guds þénara, 2 Cor. 6. Guds og hans barna óvinir eru ætíd vakandi og vísir til óluku og skada ad gjøra; upprísi því árla allir Guds elskendur til ad bidja sér líknar og miskunar fyrir Guds augliti, til ad leita sér heilræda og hugsvølunar í Guds ordi, svo þeir bevari blessadann veg hans réttinda allt til æfiloka, Ps. 119.

2) Adgæt þú, sála mín, þá hryggilegu Drottins harmakløgun yfir Gydínganna þrjótsku og þverúd, ad þótt hann blessadur segdi þeim sannleikann, þá trúdu þeir honum ecki, þótt hann spyrdi þá, samt svørudu þeir honum eigi. O! Herra Gud! hvad fáir eru þeir nú medal þeirra, er sig láta kristna kalla, sem trúi svo Drottins orda prédikun, ad þeir hagi þar eptir sínu framferdi? hvad fáir þeir, hverjum armleggur Drottins refsíngar og reidi hótana verdi svo opinberadur, ad þeir láti af sínum syndum? Es. 53. Drottinn er daglega med sínu nádar ordi og áminníngum ad hrópa, en menn vilja þó ecki med gudrækilegri ydran og yfirbót andsvara edur hlýda honum; Drottinn straffar og typtar, en þeir snúa sér ecki ad heldur frá sinni vondsku, Jer. 44. O mildi Jesú! væg þú blessadur best veikleika minnar trúar; fyrir þér játa eg og græt illsku og óhlýdni míns hjarta, sem svo

er sein og treg frá syndunum að snúa; æ eg trúi að sönnu, Drottinn minn, en hjálpa þú og legg líknar bót minni veikri trú, Mark. 9. Eg vil feiginn þínu náðar orði réttilega trúa, þínum náðar áminníngum guðrækilega gégna; en láttu þinn miskunar krapt til allrar blessunar vera máttugann í mínum breiskleika, 2 Cor. 12.

3.) Lær þú það, sála mín, af Lausnara þínum, þegar þú verður fyrir áráfum og ósk unda af illum mönnum, og eingin afsökun eða máls bót má þér til varnar verða, brynja þig þá mót allri óþolinmæði með blessaðri Jesú hógværð og umburðarlyndi; halltu þér fast við hans fögru fótspor, og hugga þig við hans blessaða dæmi, sá eð ekki ógnaði þá hann leið, heldur ofur-gaf það hónum sem rétt dæmir, 1 Pét. 2.

Nú héðan í frá munuð þér sjá Mannsins Son sitja til kraptarins hægri handar, sagði Frelsarinn. O Herra Guð! það er sem mér hljómi fyrir eyrum, sá strángi og réttláti dóms úrskurður sem heyrast mun af munni hins alvalda dómara, Drottins Jesú Kristí, þegar hann á endurskickunar og upprisu degi alls holds mun dýrðlega opinberast af himni með Englum síns kraptar, til að gjalda óbærilega hefnd með eilífu reiðinnar báli öllum Guðs orða og náðar forökturum, 2 Tess. 1. Þá mun þeim ekkért forsvar duga, eingin afsökun hjálpa, ef Drottinn vill tilreikna þeim syndina, þá géta þeir alldrei að eilífu staðist, Psálm. 130. O! minn ástúðlegasti Jesú! géf, að eg viljugur hlýði þínu líknar orði og ávarpi mér til guðrækilegrar betrunar á tíma náðarinnar, svo eg hljóti ekki nauðugur að heyra þinn

ógnarlega dóms úrskurd mér til fordæmíngar á tíma reidinnar. Þú hlautst árla morguns saklaus þinn daudadóm ad heyra; æ! géfdu ad eg sek syndabrots sképna meigi árla á þeim effsta dómi nád og fyrirgéfníng hjá þér finna! Árla morguns allra minna eymdafullu lífs stunda skal eg med audmjúkri bæn og ástar lofgjørd framm fyrir þitt nádar augllit koma; æ! vyrdstu ætíd bædi síd og árla í nád og miskun til mín ad hugsa! Þú varst ránglega sakfeldur árla á þínum pínu deigi; minnstu þess, ó Jesú! og miskuna mér, svo eg komi ecki fyrir þinn fordæmíngar dóm á þeim sídasta deigi; legg mér þá líknar mál, Lausnarinn gódi, og veit ad eg í þér blessadur meigi þreingjast í gégnum daudann til eilífs lífs og ævarandi himnanna dýrdar og gledi, Amen.

## 16. Píslar-Pánki.

Um Júdasar ydran.

Þá er Júdas, sá er hann hafdi forrádid, sá þad hann var dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu Prestum og Øldúngum þá þrjátigir silfurpenínga og sagdi: syndgad hef eg, ad eg forréd saklaust blód; en þeir søgdu: hvad kémur þad vid oss? Sjá þú þar fyrir. Og hann snaradi þeim silfurpeníngum í Musterid, gécK í burt þadann og heingdi sjálfann sig.

Svo sem þeim frómu og meinlausu mun fyrir Guds fødurlega mildi ad sídustu vel vegna, Psálm. 31. svo munu og í annann stad allir ótrúir svikarar, eptir Guds stránga réttlæti, í herfilega smán og ólucku

rata. Það reyndi sá gløtunar sonur Júdas, sem sinn eiginn Lávarð og Lausnara forréd með følskum slá-rædis koßi, og fékk því qvalafullann og smánarlegann dauð-daga. Gjæt þeßa ógnarlega dæmis, mín sál! þér til gudrækilegrar vidvørunar, og sjádu hér svo sem í einum speigli:

1) Hversu herfileg svívirding og hættulegt ólucku efni ad er ótrygd, undirferli og fláttskapur. Allir ýdrunarlausir Judæ líkar í svikunum, munu eiga lík-ann ángur med honum í qvølunum; Drottinn fyrirser øllum lígimælendum, og allir fláráðir hræsnarar eru svívirding fyrir hans heilaga augliti, Psálm. 5. Otrygdin sálgar hvad hørmulegast sínum eigin herra; því hættulegri svika grøf sem einn ætlar ødrum ad grafa, í þeß djúpari bølvunar pitt hlítur hann sjálf-ur ad detta, Ordsq. b. 26. Gjætum ockar því í Guds nafni, sála mín! og vørumst allskonar fals og undirferli, eins og þad heita helvíti; vendum sem best allt ockar framferdi í prettalausum, einføldum og óføls-sudum Guds grandvarlegleika, 2 Cor. 1.

2) Er þad audrádið af gudspjallegri historíu, ad med þeirri bølvadri ágyrnd og aura-elsku hefur hinn vondi djøfull í fyrstu bleckt Júdasar hjarta, til ad fremja þá dæmalausu óhæfu ad svíkja sinn og allrar verald-arinnar sáluhjálpara, og selja hann í daudann fyrir smánarlegt lítilrædi; hann gleymdi allri æru og trú; hann fékk í burt sína velferd og sáluhjálp fyrir 30 silfur peninga, sem lokfins urdu ad nagandi áng-istar ormi og brennandi ørvæntingar eldi í hans vondu samvitsku. O! hvad satt er þad, sem Páluß seigir, ad ágírndin sé rót allra lasta, 1 Tím. 6. Hinn á-gjarni kastar í burt frá sér frómleika og rádvendni, en

fleckar sig margskonar løstum og ódygdum, og þad opt fyrir lítilfjørlegs ávinníngs sakir; hann fyllir hús og hyrdslur af fánýtum og fallvøltum munadi, en tæmir sál sína og samvitsku af himneskri blessan og gledi; já, hann fellur í freistíngar og snørur djøfulsins, og í margvíslegar skadsamar gyrndir, þær ed manninum drekkja í fordjørfun og fordæmíng. 1 Tím. 6. O! hversu ølduíngis ekkért eru allir menn, þeir ed svo athugalauslega lifa! Psálm. 39. Hørmuleg blindni má þad heita, ad setja sína sálu í ved fyrir svo fallvalt láns-glis, sem audurinn er, sá ed annadhvert yfirgéfur manninn, þegar minnst vonum vatir, edur madurinn hlýtur hann naudugur viljugur ad yfirgéfa, þegar hinn kaldi daudi kémur ad høndum, og sérhvør skal nakinn fara úr heiminum, eins og hann kom nakinn í heiminn, Job. 1. og er þá ecki vid ødru ad búast, fyrir øllum yfirbótarlausum fé-púkum, enn ad sálir þeirra muni því sárara þyrsta í ósløckvanlegum helvítis eldi, sem þeir svøludu meir ágirnd sinni med íllu auds safni hér í heimi. Varastu því, sál mín! þá vidurstyggilegu ágirnd, svo hún verdi þér ecki ad eitradri ángistar ólifjan, þegar þú átt í daudanum hér vid ad skilja; legg enga von uppá þennann fallvalta ríkdóm, heldur uppá lifanda Gud, og képpstu øllu framar eptir þeim ábata, ad óttast Gud, og láta þér þína luckú nægja.

3) Athuga þú, sála mín, ad svo sem svikarinn Júdas hafdi þverúdarsamlega forsmád og ad litlu lagt opt ítrekadar ástúdlegar Jesú áminníngar á medan hann lifdi, svo misti hann líka alla andlega nád og hugsvølun þegar hann deydi; þad var verst sem sein-

ast var af øllum hans glæpum, að hann ørvænti sér Guðs náðar; það var aumast sem síðast var af øllum hans æfistundum, að hann dó herfilegum dauða í sínum syndum, O maður! gæt þinnar velferðar í Guðs nafni; ef þú villt deya Drottni í hans náð og friði, kostaðu þá kapps um að lifa Drottni í hans ótta og elsku; varðveittu jafnan orðið Drottins í þínu hjarta, svo þú syndgir ekki mótþróanlega gégn Guði þínum Psálm. 119. Nær þú verður yfirfallinn af syndinni, þá flýt þér að umvenda þér og snúa til þíns himneska Guðs og Føðurs með ydraninni, og stofna þér aldrei í þann stóra sálar háska, að skjóta þinni yfirbót á frest frá einum degi til annars, Sýr. 5. Gleym ekki að játa og gráta glæpi þína auðmjúklega fyrir Guðs augliti; en minnstu ætíð undir eins að leita þér í trúnni vægðar hjá føður miskunsemdanna, og forlíka þig við hann í Jesú náðar nafni; lát minníng afbrota þinna særa og kremja þína sál og hjarta, og þygg síðan með gleði heilræði og hugsvølun af himneskum náðar fyrirheitum, vitandi og trúandi þér til lífkrøptugrar huggunar, að þótt þú syndgir, þá hefur þú árnaðar-manninn hjá Føðurnum Jesúm Kristum þann réttláta, sem er fórn og forlíkun bæði fyrir þínar og allrar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2. O minn líknarfullasti Lausnari Jesú! varðveit mig frá allri andvaralausri synda ydju! vægðu mér fyrir øllu forþéntu synda straffi! lát ekki mínar syndir ofbjóða mér í mínu andláti, virðstu þá mitt hjarta náðarsamlega að gleðja með heilags Anda hugsvølun og hjálpræði, Amen!

17. Písl-

## 17. Píslar-Pánki.

Um Leirpotta-Smidsins Akur.

Enn þeir ædstu Prestar og Öldúngar héldu eitt ráð, og keyptu med þeim (30 silfurpeníngum) einn Leirsmids akur vegfarendum til greftrunar, fyrir það er sá akur kalladur blóds akur allt til þessa dags. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremíam spámann segjandi: þeir tóku þá þrjátýgi silfurpenínga, er hinn seldi var med betaladur, hvern þeir keyptu af Ísraels børnum, og hafa géfid þá fyrir Leirkéra-smids akur, eptir því sem Drottinn hafdi mér bodid.

Þad má maklega satt játa, sála mín, ad Lausnarans Jesú blessud Píslar saga er bædi hin djúpfundnasta lærdóms- og líka hin hjartnæmasta huggunar-bók fyrir alla þá, sem hana med andakt og gudrækni yfirvega; sérhvert atridi þar inni, er af háleitri Drottins speki og addáanlegri gædsku svo dásamlega nidurskamtad og skickad, til þess, ad allir spádómar og fyrirmyndanir þess gamla Testamentis skyldu fullkomlega rætast, og allir syndugir Adams nidjar, sem þar ad vilja réttilega gjæta, mættu þar um efunarlaust vissir vera, ad sá Jesús, sem qvalinn var og krossfestur, sé þad saklausa Guds lamb, sem borid hefur allar veraldarinnar syndir, Jóh. 1. Þetta sáum vid, sála mín! ad sanna í þessari merkilegu grein, sem segir, ad med þeim 30 silfur-peníngum, sem Sonur Guds var seldur fyrir, hafi Gydíngar keypt leirkéra smids akur, vegfarendum til greftrunar; hvad ecki er skéd af nockri hendíngu, heldur fyrir Drottins dásamlega rádstøfun, sem ecki vildi ad sín dýrmætu

ord skyldu á jörd falla, hvør heilagur Jeremías hafdi laungu ádur hér um fyrirspád, en finnast ritud hjá Prophetanum Zacharia, á þennann hátt: þeir vógu svo mikid sem eg gyldti 30 silfur-penínga, og Drottinn sagdi til mín: varpa þeim burt, svo þeir gésist Pottamøkurum, Zach. 11. Hér út af meigum vid, sála mín, draga ockur til gudrækilegrar íhugunar, allmarga ágjæta lærdóma.

Líknarfullur Gud má maklega, eptir Esajæ ordum, Es. 45. líkjast vid Leirkéra-smid. Allt mannkynid af jardar leir fagurlega mindad, og med ódaudlegri sálu lífgad, er addáanlegt meistara verk hans mildiríku almættis handa. Eptir sínu stránga réttlæti setur hann þau saurugu synda kér til vanæru og smánar; eptir sinni hjartgróinni miskunsemi tilbýr hann þau hreinu heilagleikans kér til æru og vegsemdar, Róm. 9.

Þessi blessadi Herra hefur á bodángi einn blómlegann akur, og þad er hans blídasta miskunsemi, sem fyrir einga penínga og aldeilis gésins er føl látin og frambodin øllum synda þjádum og sorgmæddum vesælíngum til gledilegrar hvíldar, og øruggs nádarhælis, og þad af einskjærri nád fyrir dýrmæta forþénustu Frelsarans Jesú Kristi, hver ed líf og blód sitt blessad lagdi í sølurnar til þess, ad allar þjádar og harmþrúngnar sálir skyldu hæga hvíld og sæta svølun finna hjá honum og í hans himneska Føburs miskunsemi, Matth. 11.

Pad framandi fólkid, sem ecki átti nockurn hvíldarstad vísann, meigum vér vesælir Adams nidjar maklega kallast, sem í falli vorra fyrstu foreldra urdum, og med íllgjørdum vorum daglega forþénum ad verda

útlagar frá Guðs barna blessan, og framandi frá Ís-
raels borgar-rétti, Eph. 2. útsnaradir eins og annad
andstygdar hræ, hverju eckért auga miskunadi, Ezech.
16. En lofadur sé líknarfullur Jesús, sá ed leit mild-
um medaumkunar augum yfir eymd vora, og lagdi
út þad dýrasta lausnar-gjald sinna guddómlegu og
blessudu blód-dropa, bædi til ad fullnægja síns himn-
eska Födurs stránga réttlæti, og líka til ad afreka
því seka mannkyni æskilega og eilífa Guðs miskun-
semi, svo nú meiga allir sannydrandi trúadir Jesú
elskendur óhræddir lifa, óqvídnir deya, því ellum er
þeim víst og búid í lífi og dauda ad hvílast og hugg-
ast í himneskum akri hjartgróinnar Guðs miskunsemi;
þótt líkaminn hljóti líflaus í moldu ad leggjast, munu
þó dýrkeyptar sálir Guðs barna í dýrkeyptum akri
Drottins miskunar gledilega hvílast af ellu synda og
sorga erfidi, Jesús gefur þeim ellum eilíft líf, aldrei
skulu þær fyrirfarast, og enginn fær slitid þær úr
hans hendum, Jóh. 10.

En þad er vel merkjandi, mín sál, ad þeim einum
sem áttu heima í Jerúsalem, var leir-potta smids ak-
urinn til greftrunar ætladur; Guðs heileg kristni hér
í heimi er andleg Jerúsalem, og allra Guðs barna
blessud módir, Gal. 4. Allir hljóta þeir fyrir skírn-
ina, ad verda henni innplantadir, allir hljóta þeir
fyrir sáluhjálplega trú og í sannri hlýdni vid födur-
legann Guðs nádar vilja ad vera kristninnar rétt-
skickadir innbyggendur, sem í þann blómlega akur
blídrar Guðs miskunar vilja medteknir verda; þad
eru ecki allir þeir, sem hrópa Herra, Herra, heldur
einasta þeir, sem undir eins kappkosta, ad gjöra þess

himneska Fødurfins nádar-vilja, er inngánga munu í himnaríki, Matth. 7.

Eilíflega lofadur sértu, minn elskulegasti Jesú, sem svo nádarsamlega hefur leyst mig úr útlegd minnar ólucku og bølvunar, en afrekad mér gledilegt athvarf og hæli í akri þinnar mildi og miskunar. Óqvídinn skal eg lifa, óqvídinn mun eg deya, fulltrúa um þína fødurlega gædsku, ad ei munir þú sálu mína, þótt aum sé og óverdug, úr akri þinnar eilífu miskunar hrekja. Hvernin fara muni um minn vesæla líkama í daudanum, sé þinni fødurlegri forsjón best befalad, þad er mér nóg og þess vænti eg og bid audmjúklega af þinni eilífri nád, ad þú lofir þá sálu minni ad frelsast og fríast frá allri neyd og pínu í þinni nádar og verndar hendi; þú hefur gésid mér akur þinnar miskunar, þygg þú einninn nádarsamlega og medtak í þína miskunar vøktun akur míns hjarta. Eg offra þínu blessada nafni til dýrdar, ebl þú med þínum nádar-krapti mér og mínum til æskileguslu blessunar, ávøxt minnar embættis ydju í akri þinnar kristni. Æ! lofa þú, Drottinn minn! andvana líkama mínum, ad njóta kristilegrar greftrunar og gledilegrar hvíldar í þinna blessadra barna andlegum akri hér í heimi, og vyrdst hann sídan á efsta deigi, svo sem þitt andlegt hveitikorn, blessadann og vegsamlegann úr grøfinni ad uppreysa, og í bindini þeirra lifendu á himnum, gledilega ad innsafna, Amen.

## 18. Píslar-Þánki.

### Um Gydíngamma ákløgun fyrir Pílató.

Og Høfud-Prestarnir og Øldúngarnir geingu ei sjálfir inn í Þíng-húsid, ad þeir saurgudust ecki,

heldur svo þeir mættu neyta Páskanna. Pílatus géck þá út til þeirra og sagdi: hverja ákjæru færid þér í gégn þessum manni? þeir svörudu og sögdu til hans: ef þessi væri ei illrædis madur, þá hefdum vér eigi í hendur feingid þér hann. Þá sagdi Pílatus til þeirra: takid þér hann þá og dæmid eptir ydar lögum; Gydíngar sögdu þá til hans; oss leifist ecki ad lífláta nockurn, svo þad ordid Jesú uppfylltist, er hann sagdi, teiknandi þar med hverjum dauda hann skyldi deya. En Jesús stód frammi fyrir Landsdómaranum. Og þeir tóku ad áklaga hann og sögdu: þennann finnum vér ad hann frásnýr fólkinu, fyrirbýdur skatt ad gefa Keysaranum, og segir sig ad vera kónginn Krístum.

Þess heilagri og hreinferdugri sem einn hræsnari vill sýnast fyrir mönnum, því fordæmanlegri og vidurstyggilegri finnst hann fyrir Gudi; þvílíkir voru hinir vondu og blindu Gydíngar; þeir virdtu þad fyrir vondann glæp ad gánga inn um húss-dyr þess heidna Landsdómara, en saurgudu sig þó med annari synd lángtum svívirdilegri, ad selja hinn heilaga og réttláta Jesúm í krossins qvöl og dauda. Svoleidis má lýsa eptir sonum þessarar veraldar; hid ytra vilja þeir gódir sýnast fyrir mönnum, en þótt hjartad sé fullt hræsni og ódygda, Matth. 23. virda þeir fyrir litla edur einga synd. Þeir blygdast jafnvel vid, ad veita fáráđum vesælíngum miskun og ásjá, en vila ecki fyrir sér med gudlausu athæsi og gjálífisfullum heimsins vellystíngum, ad steypa sálu sinni í glötun og fordæmíng. Gjæt þín, fyrir Guds sakir, sála mín, og sjá vel til, ad þinn Guds ótti sé eingin hræsni og þjóna honum alldrei med fölsku hjarta, Sýr. 1.

Ecki vildi Landsdómarinn Pílatus í øndverdu sæta offsa og frekju Lausnarans ákiagenda, heldur heimti, ad þeir skyldu med røkum sýna og sanna hverja ákjæru þeir færdu í gégn þessum manni; haldi þad sérhvør kristinn madur fyrir hina mestu blygdan, ad láta sér midur fara enn þessum heidíngja, en láta sér enga lægíng þykja af þessu hans loflegu dæmi ad læra, ad gjøra rétt og tala sannleikann af hjarta, hver sem í hlut á, Ps. 15. verandi aldrei svo óttasleginn fyrir nockrum maktar manni, ad hann láti þad med skomm nidurfalla, sem hann veit fyrir Gudi og finni samvitsku satt og rétt ad vera; varist øll gudhrædd yfirvøld, af drambsemi og hofmód, aumíngjans rétti ad halla, en ástundi med gódri røggsemd og alvøru, illra manna offstopa, ad nidurdempa og lagfæra, gætandi æ jafnan ótta Drottins hjá hverjum eckért ránglæti er, ecki heldur persónunnar álit, 2 Cron. 19.

Ad sídustu merkjum vid, sála mín, ad ockar mildiríkum Lausnara Jesú var af Gydíngum géfin þreføld søk, nefnilega: 1) Ad hann fráfnéri fólkinu. 2) Ad hann bannadi skatt ad gjalda Keisaranum, og 3) segdi sig vera kónginn Kristum. Hér finnum vid enn þá, sála mín! himneska lind lífkroftugrar huggunar. Frelsarinn Jesús var fyrir þrefalda søk ránglega klagadur mér til vægdar og miskunar; eg sem í þrennslags bodorda broti er réttilega sekur, má medkénna, ad

1) Er gjørvallt edli minnar íllu náttúru og allt mitt framferdi afundid og fráfnúid almáttugum Gudi, og hans blessada nádar vilja, svo þad góda, sem eg á ad gjøra, gjøri eg ecki, en þad illa, sem bædi bodord Drottins og mín kristinndóms skylda ávísa ad eg

eigi ecki að gjøra, það gjøri eg opt og laungum, Róm. 7. hvar með eg bæði móðga minn himneska Guð og Føður, og líka hneixla minn samkristinn náúnga; en það er mér eilíf huggun, að það sem Jesú óvinir kløguðu honum til sakfellis og fordæmíngar, það heimfæra nú øll Guðs børn með gleði honum blessuðum til æðstu vegsemdar, en sér til eilífrar miskunar, segjandi: þennann Jesúm finnum vér allir, að hann með sinni dýrmætu forþénustu hefur snúið fólkinu frá reiði Drottins, bølvan løgmálsins, ákløgun djøfulsins, ógn dauðans og eilífri fyrirdæmíngu. Æ! lofaður sé líknarfullur Guð, sem oss hefur svo gleðilegann sigur géfið fyrir Jesúm Kristum, 1 Cor. 15.

2) Veit eg mig augljóslega skyldann vera, og meðkénni augljóslega mig margopt forsómað hafa mínum himneska Herra og konúngi andlega elskunnar, hlýðninnar og þacklætisins þegn-skyldu að lúka; eg er sá illi þjón, sem vitað hefi vilja míns hæsta Herra, en ecki gjørt hann, Lúk. 12. sem þegið hefi velgjørnínga míns hjartagóða Føðurs, en ecki þackað þá, og hefi því forþénað að líða mørg høgg. En blessaður sértu, minn blíðasti Jesú, sem með þinni fegurstu hlýðni hefur bætt og forlíkað alla mína óhlýðni; þú hefur sjálfur géfið, Matth. 17. bauðst og einninn, að aðrir skyldu géfa það Guði, sem Guðs er, og það Keisaranum, sem Keisarans væri, Matth. 22. Blessuð se þín blíðasta ást og hlýðni og géf að hún hríni á mér brotlegum vesælíng mér til synda bótar og og miskunar.

3) Hefi eg mold og aska, Sýr. 10. mér allt ofmjøg upphrokað, en míns Guðs náðar-vilja lítils aktað; æ! virðst þú, Lausnari minn, með þínu bless-

ada lítillæti, lífn og lagfæríng ad veita mínum hroka og margfaldri drambsemi; þú hafnadir fordum fáfeingilegum kóngdómi hér í heimi, Jóh. 6. sem eilíflega lifir og ríkir í dýrd himnanna, Opinb. 19. svo hefur þú, Drottinn minn, djúpt lítilækkad þig, ad eg aumur þræll skyldi til eilífrar dýrdar upphafinn verda; þú varst fyrir óforþénta sök klagadur, svo mín forþént synda-sekt skyldi ad eilífu verda afmád og innsiglud, fyrirgéfin og forlátin, Dan. 9. Æ! lát þú, Lausnari minn, þá hördu klögun, sem þú hlautst hér saklaus ad lída, vera mitt fegursta nádar-forsvar, þegar eg skal mæta fyrir þínum dýrdar dómi, Amen.

## 19. Píslar-Pánki.

Játníng Kristí fyrir Pílató.

Þá géck og í annad sinn inn, Landsdómarinn Pílatus, kalladi Jesúm og sagdi til hans: ertu kongúngur Gydínga? Jesús svaradi: talar þú þad af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? Þá svaradi Pílatus: er eg nockud Gydíngur? Þín þjód og Kénnimanna-höfdíngjar ofurseldu þig mér, hvad hefur þu gjört? Jesús svaradi: mitt ríki er ecki af þessum heimi, ef ad mitt ríki væri af þessum heimi, þá mundu mínir þénarar strída þar fyrir, svo ad eg ofurseldist ecki Gydíngum, en nú er mitt ríki ecki þadan; þá sagdi Pílatus til hans: ertu þó samt Kóngur? Jesús svaradi og sagdi til hans: þú segir þad, eg em og Kóngur; til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hver hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rödd.

Til því ædri embættis og vyrdíngar, sem hinum náduga Gudi þócknast einn ad upphefja, þess framar skyldi hann láta sér umhugad vera, ad brúka vald sitt og heidur, ad hinum allra hæsta himnanna Drottni meigi þéna til lofs og þócknunar, en landi og lýdum til fridar og farsældar, ad þeir óttist Drottinn, og gjøri hvad honum vel líkar, Sýr. 2. Um þetta hyrdti ecki sá heidni Landsdómari Pilatus, hann géck þeigjandi framm hjá þeirri fyrstu Gydínganna sakargift, sem Guds dýrd snerti; hann tradkadi Jesú forsvari, sem hann vissi þó øllum augljóst vera, en var helst tídt taladur um hans Kóngdóm, er hann hugdi járdneskann vera, og vildi svo Keisarans vináttu kaupa med vísvitandi ránglæti. A þessum ódygda vegi gánga enn nú í dag allir þeir, sem hyrda lítt um Guds dýrd og góda landstjórn, snikja sér út hylli høfdíngjanna med hræsni og yfirdrepskap, og láta sverd Drottins, Róm. 13. sakir skémmilegs ávinníngs ridga í slídrunum, nær þeir eiga ad forsvara frelsi og frid sinna undirgéfinna, séljandi þannveg hinn réttláta fyrir penínga, og hinn fátæka fyrir eina skó, Am. 2. Varist svoddan víti allir Yfirvaldsménn, og sjái vel til í sønnum Drottins ótta, hvad þeir gjøra, því ecki halda þeir dóma fyrir mennina heldur fyrir Drottinn, hann er med þeim í dómunum, 2 Chron. 19.

I ødru lagi merkjum vid hér, sála mín, med audmjúkri lotníng og æskilegri hjartans gledi, fagra játníng Frelsarans Jesú Kristí um hans eilífann Kóngdóm og andlega ríkisstjórnan, øllum hónum hjartkjærum børnum og hlýdnum þegnum til hjálpræðis, huggunar og eilífrar endurlausnar. Já, víst

ert þú, minn elskulegasti Jesú, einn Gud og eilífur Kóngur óforgeingilegur, ósýnilegur og alleina vís, 1 Tím. 1. Þitt ríki er í heiminum, enn þó ecki af heiminum, þad er eitt eilíft ríki og allt vald hlítur þér ad þjóna, Dan. 7. Af þinni miskunar og maktarhendi þyggja allir Kóngar sitt vald, og fyrir þig ríkja allir höfdíngjar og stjórnendur á jørdu, Ordsqv. 8. Undir þínu verndar-skjóli sitja þeir ad sínum ríkjum, og stýra sínum þegnum med farsæld og fridi fyrir þeirra óvinum; en á móti djøfulsins og daudans makt megnar eingin veraldar høfdíngja makt eda vald ad standa, þad kostar allt formikid og þeir hljóta ad láta þad kyrrt vera ad eilífu, Ps. 49. Þú mikli mannanna elskari leitst þínum miskunar augum yfir vora eymd; þú eilífi dýrdarinnar Kóngur hefur med þínum guddóms krapti sigrad vora óvini; þú hefur fridstillt og forlíkad fyrir syndina, yfirunnid andskotans makt og apturlokad helvíti, uppsvelgt daudann í sigur, en nád og sáluhjálp afrekad, lífid og ódaudlegleikann í ljós leidt, 2 Tím. 1. Þitt ríki er andlegt ríki, sem blífur ad eilífu, Lúk. 1. hvar inni þú útbýtir oss þegnum þínum allshátudum andlegum blessunar gjædum hér í nádinni, Eph. 1. og lofar oss eilífum vegsemdar gjædum sídar meir í dýrdinni; æ! lofa þú mér aumum vesæling, minn líknarfulli Herra, undir þinni miskunarríkri Kóngs stjórnan bædi ad lifa og deya; lát veldis-sprota þíns ríkis, sem er þitt blessada lífsins ord, vera minn vønd og staf, sem mig veikann stidji, styrki og leidi í gégnum heimsins myrkvann dal og dymmann daudans skugga, Psálm. 23. inn í eilífa himnanna dýrd og sælu. Jesú andlega ríki er ecki af þessum

heimi; undrumst því ekki, sála mín, þó heimurinn hati ockur, 1 Jóh. 3. Gjætum þess, ad vid erum géstir og útlendíngar hér í heimi, Ebr. 11. Látum ockur því, í kjærleika Guds og þolinmædi Jesú Krists, keppast eptir voru rétta Födurlandi, sem eilíft er á himnum, hvar øll ockar eymd mun ad eilífu endast, og øll ockar hrygdar-tár ad eilífu afþurkast.

Í þridja máta gjæt þess, mín sála, ad svo sem þinn blessadi Herra Jesús er sannleiksins Kóngur, og hans háleita ord er sannleikans ord, svo hlítur þú, ef frid og miskun fyrir hans augliti villt finna, í anda og sannleika, án allrar hræsni, ad óttast hann og elska, tigna og tilbidja, Jóh. 4.

Ad sídustu skaltu, mín sál, láta þad skarpa ransak, undir hvert Drottinn hlaut hér ad koma, minna þig á þann sídasta allsherjar dóm, hvar Gud mun hid gaumgjæfilegasta eptirspyrja og ransaka: hvad hefur þú gjørt? Þá mun aungvum stoda med hræsninni sitt mál ad fegra, øllum mun þá óbærilegt almáttugum Gudi einu ordi á móti þúsund ad svara, Job. 9. Ó! mín sál, med því þú skalt þessa vænta, ad mæta fyrir dómstóli Drottins, þá kostgjæf med heitri ydran og alvarlegri gudrækni, ad þú heiløg og óstraffanleg í Jesú fridi fyrir honum fundin verdir, 2 Pét. 3. Spyr daglega sjálfa þig: hvad hefir þú gjørt? játa þínar illgjørdir, med audmjúkri blygdan, og grátbæn med jafnadi gjædskurikann Gud í Jesú nafni, ad hann gésí þér bædi viljann og máttinn til ad láta af illu, enn læra gott ad gjøra Ó! minn líknarfullasti Lausnari Jesú! eg játa audmjúklega, ad á móti þér hefi eg allt íllt gjørt og brotid; eg trúi stadfastlega, ad þú hafir med þinni bless-

aðri forþénustu øll mín afbrot forlíkað, alla mína skuld borgað; því skal allt mitt hjarta elska þig, allir mínir kraptar þjóna þér; en unnþú blessaður mig veikann best að styrkja, svo að lífernið mitt haldi af allri alvøru þín blessuð boð og réttindi, Amen.

## 20. Píslar = Þánki.

Um Gyðínganna ákløgun fyrir Pílató.

Pílatus sagði til hans: hvað er sannleikurinn? og þá hann hafði þetta sagt, géck hann út aptur til Gyðínga, og sagði til þeirra yppurstu Presta og til lýðsins: enga søk finn eg með þessum manni. Og Høfuð = Prestarnir ákløgudu hann harðlega. Og sem hann áklagaðist af þeim æðstu Prestum og Øldúngum svaraði hann engu. Pílatus spurði hann aptur að: svarar þú engu? heyrir þú ecki? sjá! hversu harðlega þeir áklaga þig! en Jesús svaraði honum eingu framar til nockurs orðs, svo að Landsdómarinn undraðist það nærsta. En þeir voru því ákafari og søgðu: hann hefur uppæst fólkið, með því hann hefur kennt á øllu Gyðínga landi, og hefur tiltekið í Galilæa allt híngað. En er Pílatus heyrði Galilæam nefnda, spurði hann að, hvert hann væri einn Galilæari? og er hann fornam að hann var undir Heródis valdi, sendi hann hann burt til Heródem, sem einninn var á þeim sømu døgum í Jerúsalem.

Það er nærsta grátlegt til þess að vita, svo sem sannleikurinn er fyrir Drottins augliti dýrmætur, þá er hann þó af mørgum óráðvendum veraldar sonum optlega óvirdtur og að litlu metinn, hvar með þeir

verlega sverja sig í ættina, ad þeir eru ecki af Gudi, heldur af födurnum Fjanda, hver ad er ljúgari og ecki stód hann í sannleikanum, Jóh. 8. Þannig breytti hinn heidni Landsdómari Pílatus; hann létst vilja med vyrdíngu grenslast eptir um heimsins sannleika, en óvyrdti þó og einkis aktadi þann sáluhjálplega Guds sannleika, sem Lausnarinn Jesús honum til vidvörunar taladi, elskandi lángtum framar hégómann og lygarnar, Ps. 4. svo sem mjög er nú tídt ordid í þessum hreckvísa heimi. Varist allir heidvirdir menn þessa vidurstyggilegu synd, afleggi lygar, og tali sannleika af frómu og falslausu hjarta hver vid sinn náúnga, Eph. 4. Allir þeir sem Guds vinir vilja vera, elski, læri og gjöri sannleikann, og láti lífsins ord Drottins, sem er hinn ædsti sannleikur til sáluhjálpar, Jóh. 20. vera sér, öllum jardneskum munum kostulegra, öllum heimsins vellystíngum sætara.

Enn framar fær sálin mín ad smacka hér ylmsæta svölunar og nádar strauma, sem til hennar frammfljóta af Frelsarans Jesú fullkomna og flecklausa sakleysi, hverju sá heidni Landsdómari Pílatus hlaut jafnvel naudugur viljugur ad hrósa og opinberlega ad yfirlýsa því, ad hann fünndi enga sök med honum. Þad játa og finn eg brotleg saka-sképna, med hljúgu hjarta, ad á mér liggur ofurþúng byrdi minna íllverka, og margvíslegs ránglætis, Ps. 38. Þad heyri eg nú og merki, med fagri sálar gledi, ad hjá þér, Drottinn minn, fundust engin líkindi til nockra synda edur sakfellis; þér sé eilíft lof, þú ófleckada lambid Guds, 1 Pét. 1. sem hefur tekid uppá þig mitt fordæmanlega ránglæti, en géfid mér aptur í stadinn

þitt guddómlega og sáluhjálplega réttlæti! þótt Guds heilaga lögmál segi mér nú, vegna minna synda, ó-bærilega sök og eilíft bölvunar straff á hendur, þá treysti eg og trúi, ad þú, Drottinn minn! munir mér þetta líknar málid leggja: engin sök finnst med honum; eg hefi afmád og innsiglad hans sauruga sakfelli; eg hefi tilfært og géfid honum mitt sannheilaga sakleysi, Dan. 9. Eg er ordinn forlíkunar offur fyrir hans synd, svo hann skyldi verda Guds réttlæti í mér, 2 Cor. 5. Hver vill framar ásaka mína útvalda? eg em hann sem þá réttlætir; hver er hann sem þá gétur fordæmt? Róm. 8. Géf mér, Drottinn minn! ad þetta þitt nádar forsvar hrýni á mér fyrir þínum dýrdar dómi. Mitt ónytju hjal og margföld íllmælgi, ætti med öllum rétti ad orka mér ógurlegs dóms-áfellis og óbærilegs reikningsskapar, Matth. 17. En þú hefur, ó Herra! med þinni heilagri þagmælsku, bætt og forlíkad brotin mín, mér til frelsis og miskunar; þad þacka eg þinni nád audmjúklega, og vil aptur á mót feiginn kappkosta, eptir þínu blessada dygda dæmi, med kristilegri þögn og þolinmædi þad ílla ad þola, og hid órétta ad umlída, 1 Pet. 2.

Ad sídustu merk þú, mín sál, hvörsu Pílatus vildi, med slægsmunum og kjænsku, koma þeim vanda af sér uppá kónginn Heródem, ad dæma í Jesú dauda sök; og ætla eg, ad allmargir veraldar menn séu enn þá í dag alþecktir ad þvílíkum hreckjum og undirferli. Sérhver má vara sig vid sínum vin, og trúa ecki ofmjög sínum bródur, því einn bródurinn nidurþryckir annann, og einn vinurinn svíkur hinn annann, Jer. 8. Gleymum því ecki, sála mín! med yduglegri bæn ad

leita hjálpar og mýkunar hjá Gudi, en med gudrækilegri forsjálni ad umflýa veraldarinnar pretti og svikrædi; einfaldleiki og réttlæti vardveiti ockur, þá meigum vid med gledi vænta og bída Guds mildiríkrar verndar móti øllum háska, Psálm. 25. O! minn elskulegásti Jesú! þú varst frá einum ránglátum dómara til annars hrakinn og hrjádur, og fékkst einga værd edá ró ad hafa: æ! veittu ád sálin mín, leyst af øllum eymdum, meigi í eilífri himnanna sælu njóta æskilegrar og æfarandi hvíldar og rósemi. Lát mig, Lausnarinn gódi, míns embættis hita og þúnga í víngardi þinnar kristni, þér til dýrdar, þolinmódlega bera, og unn mér sídan, ad farsællega afstádinni allri erfidis þjáníng, trúrra þjóna dýrdar verdlaun af þinni einskjærri nád njótandi ad verda. Amen!

## 21. Píslar-Pánki.

Um Heródis forvitni og hvíta klædid.

Enn er Heródes sá Jesúm, vard hann gladur, því hann hafdi fyrir laungu gyrnst ad sjá hánn, af því hann hafdi margt heyrt af honum, og hann vænti ad hann mundi sjá eitt teikn af honum, og adspurdi hann á marga vegu, en hann svaradi honum eingu. En kennimanna høfdínginn og skriftlærdir stódu og áklægudu hann hardlega, en Heródes med sínum stridsmønnum forsmádi hann og spottadi, færdi hann í hvítt fat, og sendi hann aptur til Pílatum. Og á þeim deigi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, því ad ádur voru þeir óvinir sín á milli.

Mikil er blindni og þvermóðska daudlegra manna, á medal hverra þeir eru fleiri enn færri, sem svo lítils vyrda og meta þad háleita Guds ord, hvert ed alla ydrunarlausa foraktara mun eilíflega fordæma, Jóh. 17. þeir ed svo opt vanrækja þad lífkrøptuga Guds ord, sem þeirra sálir kann þó eilíflega hólpnar ad gjøra, Jak. 1. Margir finnast enn nú (æ því midur!) réttir Heródis líkar, þeir ed, án verdugrar andaktar og gudrækni, heyra og um hønd hafa þad hábless-ada Drottins ord, einasta til hóldlegrar skémtunar, og af hégómlegri fýsn til ad heyra nockud nýtt, Post. G. 17. þeir ed hnísast í Drottins háleita leyndar-dóma, og dirfast ad dæma um þá, eptir sínum dár-legum og blindum hugþótta, sem eckért skynjar þó réttilega af því sem Guds anda tilheyrir, 1 Cor. 2. gjørandi þann veg gis ad hans heilaga nafni og háleitu leyndardómum, hvad þó er einn hinn skélfileg-asti sálar vodi. Varastu, ó madur! þessi vondu víti; þackadu og virdtu þá miklu Guds nád med audmjúkri andakt og vyrdíngu, ad hann blessadur hefur vyrdst til ad láta kénna þér og kunngjøra sitt heilaga ord, þér til sáluhjálplegrar uppfrædíngar og eilífrar hugg-unar. Vit fyrir víst, ad Gudi er eckért gaman øll-um ydrunarlausum syndurum, reidi, hrellíng og harm-qvælum ad hóta; honum er enginn yfirdrepskapur, øll-um sannydrandi sálum nád, fridi og fyrirgéfníng ad lofa; gjæt hins fyrra med hjartanlegri blygdan og undirgéfni, en gled þig vid þad sídara med øruggu og elskufullu trúnadar trausti. Gjør aldrei Guds hei-laga ord ad hégóma máli, hlýd því þegar þad er kénnt af ødrum, og haf þad einninn sjálfur um hønd med glóandi andakt og vyrdíngarfullri gudrækni,

gjætandi þess, ad Drottinn mun ecki láta þann óhegndann, sem hans nafn brúkar fáfeingilega, 2 Mós. b. 20.

Lífkroptuga hjartans gledi, og líknarfulla bót allra minna meina finn og fæ eg aumur vesælíngur, þá eg heyri rædt um þig, minn hjartkjæri Lausnari Jesú, í þínu háblessada hjálprædis ordi; þar fæ eg med mínum døpru trúar augum ad sjá þína dásrídu nádar ásýnd, og med mínum nádþyrsta sálar munni, ad minnast vid þínar mildidrjúpandi varir í þínum háverdugu Sakramentum; þar tendrast hinn lítilogandi hørqveikur minnar veiku trúar; þar læknast þau svídandi synda og sorga sárin míns sundurkramda hjarta; þar ljómar fyrir mínum sálar augum fagurt lífsins ljós, hverju, ef nockur eptirfylgir, þá mun hann ecki ráfa í myrkrunum, heldur skal hann hafa ljós þess eilífa lífsins, Jóh. 8. Þú létst færa þig, minn Herra, í augsýn þeim grimma ref Heródi, sem af holdlegri forvitni vildi þig sjá og heyra; því vona eg, ad þú munir ecki þitt miskunar andlit byrgja fyrir minni voladri sálu, sem af audmjúkri ást og trú lángar eptir þér, svo sem hjørtinn eptir fersku vatni, Psálm. 47. O! hvad gladur hugsa eg til þeirrar føgru fagnadar tídar, þá eg, leystur af øllum mínum eymdum, fæ ad sjá og skoda þína ljómandi dýrdar ásjónu auglití til auglitis á landi lifandi manna; hjartans feginn vil eg med þolinmædi þar eptir þreya og bída; æ! vyrdstu, Drottinn minn! komandi ad koma og ecki ad tefja, Hab. 2.

Ecki svaradi Lausnarinn þeim gudlausa kóngi Heródi einu ordi til hans flóknu forvitnis spurnínga; kénnandi þar med, ad ecki vill hann blessadur láta

varpa dýrum helgidómi sínna himnesku nádargjæda fyrir hunda, sem eru allir hrokafullir og ydrunarlausir synda-þrælar. Vertu aldrei, sál mín! samtaka hinum stoltu veraldarinnar sjálfbyrgíngum, hverjum Drottinn vill ørbyrgum sleppa, heldur stunda til ad fílla flock þeirra audmjúku og nádhúngrudu Guds vesælínga, sem hann vill med gledi og blessunar gjædum sedja, Lúk. 1.

Enn framar er athugandi, mín sál! ad Lausnarinn var af Heróde og hans hof-fólki, klæddur hvítu klædi til spotts og hádúngar, en þar med hefur hann blessadur afrekad ockur hvítt heilagleikans silki og himneskann hjálpræðis møttul síns fagra forþénustu réttlætis. Pad hylur blygdun ockar fatleysis, Opinb. b. 3. þad gjørir ockar audvirdilegu sorgar mind dýrmæta og þægilega fyrir Drottins nádar augum, og Gud mun vera ockar styrkleiki, Es. 49. O minn elskulegasti Jesú! sem skrýddur ert føgru heilagleikans og sakleisisíns klædi, veit mér krapt þinnar miskunar, ad hjartad mitt þér til lofs og þócknunar mætti finnast óstraffanlegt í frómleika og meinleysi; lát þann blessada møttul þíns réttlætis og skínandi skrúda þíns hjálpræðis í lífi og dauda á mér skarta, Es. 61. og gef, ad eg því betur, sem leingur lifi, meigi afklædast syndsamlegum íllverkum en íklædast kristilegum dygdum og dádum, sem þér meigi vel þócknast.

Pílatus og Heródes afløgdu sinnundanfarinn óvinskap, þegar þú, Drottinn minn, hlaust milli þeirra ad gánga; eg veit og vissulega trúi, ad þú gengur enn nú daglega, med þinni nádarfullu fridþægíng og forlíkun, milli hins réttláta Guds og mín, brotlegs syndara, til ad fridstilla hans reidi og forlíka minn mis-

gjørníng, því þú lifir eilíflega og bídur fyrir mér, Ebr. 7. Hvenær sem holdsins ofstopi og íllyndi qveikir nockurn vondann ófrid edur sundurþycki medal kristinna manna, æ! vyrdstu þá, Lausnarinn gódi, med þínum fridar anda ad gánga á milli þeirra; vyrdstu íllann ófrid miskunsamlega ad stilla og yfirvofandi vandrædum mildilega ad afvenda; hjálpadu oss til ad lifa svo í gudrækilegum kjærleika hér í nádinni, ad vér meigum allir samgledjast í eilífum kjærleika í þínu dýrdar ríki, Amen.

## 22. Píslar-Pánki.

Um krossfestíngar hróp yfir Kristó.

En Pílatus samankalladi Presta høfdíngja og høfuds menn og lýdinn, og sagdi til þeirra: þér hafid þennann mann til mín haft, svo sem þann er fráfnýr fólkinu; og sjáid! eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum manni finn eg enga af þeim søkum, hvar um þér áklagid hann, og ei heldur Heródes, því ad eg sendi ydur til hans, og sjáid, ad eckért er af honum gjørt þad dauda sé verdugt, fyrir því vil eg hegna honum og láta hann lausann. Því hann hlaut þeim, eptir venju hátídis dagsins, einn lausann ad géfa. Þá kalladi upp allur hópurinn og sagdi: burt med þennann og géf oss Barabbam lausann, hver ed var fyrir eitt upphlaup og manns-slag, er skéd var í borginni, innsettur í fángelsi. Pílatus kalladi þá enn aptur til þeirra, og vildi Jesúm lausann láta, en þeir kølludu upp og søgdu: krossfest þú hann! Þá sagdi hann enn í þridja sinn til þeirra: hvad

íllt hefur þá þessi gjørt? Enga dauda-søk finn eg med honum, fyrir því vil eg hegna honum, og láta hann lausann. En þeir stódu því fastara þar á, med miklum hljódum, æskjandi, ad hann yrdi krossfestur. Og þeirra hljód og Høfud-prestanna tóku yfir.

Svo sem Drottinn elskar hjartanlega rádvandt og gudrækilegt framferdi, svo styrkir hann einninn, stidur og umbunar þad næsta nádarsamlega; hann lætur hrekvísi hinna ógudlegu fá enda med skømm og hneisu, en forhefur þann réttláta til heidurs og æru, já, hjálpar þeim, sem frómir eru af hjarta, Ps. 7. Þess optar sem Jesú óvinir vildu hans allra helgasta og fegursta sakleisi nidurþrykkja, því augljósara og vídfrægara hlaut þad ad verda, jafnvel af þeirra eiginn munni. Þannveg lætur líknarfullur Gud frómlyndi og sakleisi finna jafnann nád og heidur; andskotinn og allir hans undirsátar megna því ecki móti ad standa. Lát þessa nádarríku Guds verndan yfir sínum elskendum locka þig og lada, mín sál, til ad ástunda hreinferdugt og lastvart Guds barna framferdi í þessum vonda heimi, og vert þess fullørugg, ad hver hann óttast Drottinn, sá þarf fyrir eingu ad skélfast, því Gud er hans traust, Sýr. 34.

Ecki var sá Gydínganna sidvani, ad géfa einn saka-mann á páska hátídinni lausann frá forþéntu straffi, af almáttugum Gudi leifdur eda bodinn í løgmálinu, heldur af Gydínganna eiginn hugþótta uppfundinn og tilskipadur, og því kunni hann ecki Gudi ad þócknast; því ad ónítu þjóna þeir honum, sem kénna þau bodord, sem einasta eru manna setn-

íngar. Varastu því, sála mín, að fylgja veraldar mannanna venju og síðum fremur enn Guðs orð gèfur þèr lof eða leifi til; gjæt þess að ill meiníng gètur að vísu spillt góðu verki, en góð meiníng kann aldrei illt verk Guði þægilegt að gjøra; hann vill ecki að hver einn gjøri það sem honum sjálfum þykir rètt vera, heldur breyti af fremsta megni eptir Drottins boðorðum og vilja, 5 Mós. b. 12.

Pílatus hugði með slægsmunum að vinna það, sem hann vissi rètt, en vogaði þó ecki að dæma, að hinn meinlausi Jesús skyldi laus látast, en morðínginn Barabbas missa lífið, eptir maklegleikum. Hannveg verður það ráð og áform að eingu, sem ecki er í ótta Drottins byrjað, Orðsqv. b. 14. Holdsins sèrvitska svíkur þá hellst, sem henni mest treysta, og um síðir leiðir hún til dauða. Akøllum því máttugann og mildann Guð, mín sála, í øllu ockar ráði og áformi, og biðjum auðmjúklega, að hann vyrðist alla ockar vegu til blessunar best að greiða, og sèr þægilega vera láta, Sýr. 31.

Yfirmennirnir voru fremstir í flocki, og eggjuðu líka almúgann, til að æskja hinum saklausa Jesú lífláts, en biðja frelsis og friðar morðíngjanum Barabbas. Varastu, sála mín, í Guðs nafni! illt veraldarinnar dæmi; vogaðu aldrei, að leika það eptir, sem þú sjerð að aðrir ósæmilegt aðhafast; því ef blindur leiðir blindann, falla þeir báðir í grøfina, Matth. 15. Hafðu því eckért samlag við ófrjóssem verkin myrkranna, Eph. 5. heldur hataðu þau miklu framar, og sjá til að þú vinnir það ecki fyrir veraldar manna vinfeingi, að leiða yfir þig með vísvitandi glæpum, Guðs eilífa óblíðu. Þeir sem Guð hefur

yfir adra sett, ættu þess æ jafnan vel ad gjæta, ad þess húsfari sem allir eru í höfdíngjanna fótspor ad feta, því stærri vandi liggur á þeim, ad þeir ecki med vondu hneixli og ljótum lifnadi leidi adra, eda steypi sjálfum sér, í eilífa glötun, heldur ástundi ad gánga í Guds ótta verduglega þeirri kallan, hvar inni þeir eru kalladir, Eph. 4.

Gudspjalla-madurinn Matthæus getur þess, ad Húsfrú Píláti hafi med hollum rádum tekid honum vara fyrir ad dæma hinn réttláta Jesúm til dauda, Matth. 27. Gjæti þess allar gódar konur, ad þær varist Jessabels ill rád og ógudleika, sem stofnar einasta til ólucku og smánar, 1 Kóng. b. 12. en adhyllist Abígaels gudrækilega og skynsamlega forsjá, sem greidir veg til heidurs og heillasamra blessunar nota, 1 Sam. 25.

Ad sídustu sný eg huga og minni til þín, minn hjartkjærasti sálar brúdgumi Jesú! Ædsta hjartans gledi og sætasta sálar svölun stendur mér af þinni blídustu hógværd og blessadri þolinmædi; þú sem ecki upplaukst þínum munni, heldur enn lamb, þad sem til dráps er leidt, þegar allir þínir óvinir, med ógurlegri brædi, hrópudu yfir þér qvöl og krossfestíng, hvad allt eg veit og trúi skéd vera mér syndugri skepnu til miskunar og sáluhjálpar; þótt lögmálsins ógnarleg bölvan, andskotans illskufull áklögun, og öll mín vondu verk hrópi nú yfir mér hefnd og fordæmíng, þá vona eg, fyrir þína blessada forþénustu, ad fríast frá allri áklögun, og fá ad heyra og hreppa af þér vingjarnlegt nádar og miskunar ávarp, frid og fyrirgéfníng. Þú hlautst fyrir þínum eyrum óvinanna illsku hróp og áklögun ad heyra; æ! látú

ecki, Drottinn minn, það ógnarlega dómsins orð og eilíft qvala vein þeirra fordæmdu nockurn tíma mér fyrir eyru koma; þitt náðar hróp hljómar nú í þínu heilaga orði fyrir mínum eyrum mér til sætustu huggunar; mitt bænar hróp heyrist nú, fyrir þíns himneska Föðurs náðar eyrum, mér til bænheyrslu og blessunar; himin og jörð hrópa nú yfir mér í þínu nafni frið, náð og gleði, Lúk. 18. Allir heilagir englar og útvalinn skari þinna blessaðra barna sýngur þér bæði á himni og jörð lof, dýrð, heiður og þacklæti; hvar til eg, þinn aumasti vesælíngur, legg mitt auðmjúkt og elskufullt Já og Amen.

## 23. Píslar-Þánki.

### Um Kristí húðstrýkíng.

Þá tók Pílatus Jesúm og húðstrýkti hann.

Þess hörmulegri sem Jesú blóðug píslar-mynd hefur verið fyrir holdlegri sjón á að líta í qvölinni, því fegra hefur hún skinið fyrir náðar-augliti þess himneska Föðursins, öllu töpuðu mannkyni til friðþægíngar og miskunar; því skjærari ljómar hún fyrir þinni andlegri trúar-sjón, sála mín, þér til lífsfrejptugrar gleði og huggunar; hans qvöl er þinna synda qvittun; hans hörmúng þinna eymda lækníng og linun; allt það sem hann leið, hefur hann liðið þér til eilífrar endurlausnar. Þú varst reirð með hörðum ránglætis fjötrum, og af andskotanum aumkunarlega hertekin haldin eptir hans vilja til eilífrar fordæmíngar, 2 Tím. 2. Sá banvæni syndarinnar sjúkdómur hafði allri þinni fegurð fortært,

allt þitt edli saurgad, svo þar var eckért heilbrygdt á þér, heldur illa luktandi synda-sár og bólgnar glæpa benjar; Lögmálid lamdi med þúngri bølvunar svipu; samviskan ógnadi med ótta og qvída fyrir yfirvofandi straffi; þín synda sök var stór ordin allt upp til himins, Esd. 9. og þín synda-sár luktudu illa, og svidu óbærilega fyrir þinnar heimsku sakir, Ps. 38. Yfir þessari þinni allra herfileguſtu eymd, lét Jesús sitt blessada módur hjarta af medaumkan og mildi sundurbresta, Jer. 31. og þess vegna blód hann þínum ørkumslum uppá sig, svo ad þú skyldir heilbrygd verda; hann leid hørmúngina, svo þú hrepptir huggunina; hann bar hegníngina, svo þú fengir fyrirgéfnínguna; hans helgasti líkami var í húdstrokunni svo herfilega sleginn og særdur, svo grædi-plástur gudlegrar líknar og miskunar yrdi lagdur vid þín synda- og sorga-kaun, og þú skyldir fyrir hans blessudu benjar heilbrygd verda, Es. 53. O! minn líknsami Lausnari Jesú! Eg vesæll syndari skélf og titra af hrædslu og qvída, svo opt sem eg þenki um þína qvalafullu húdstroku, af því eg veit mig med minni yfirbótalausri íllgjørda ydni hafa gjørt þér, Drottinn minn, þetta qvalanna erfidi, og aukid þér þessa ángistar mædu, Es. 43. Æ! einga hef eg þá afsøkun, Drottinn minn, hvar med eg kann eda vil mína synda-sök fegra, nema einasta þessa, ad skrýda ad þínum miskunar fótum med audmjúku og ángrádu hjarta, og andvarpa í himininn til þín; Gud vertu mér syndugum líknsamur! Lúk. 18. Þú sem svo harda refsíng vildir minna vegna saklaus lída, vyrdstu mér sekri stórbrota sképnu nád og vægd ad sýna; hugga þú mig med

þinni hjálp, og þinn máttar andi styrki mig til að þakka þér og þóknast, að elska þig og aðhyllast því betur sem eg lifi lengur. Gleð þig nú, sála mín, hjartanlega í Guði heilsugjafara þínum, Lúk. 1. Guðs Sonur hefur úthellt sínu blóði til að hreinsa þig af øllum þínum syndum, 1 Jóh. 1. Hann hefur borið þitt synda-straff, svo þú mættir finna frið og fyrirgéfníng; hvar sem syndin og sorgin yfirgnæfir hjá þér, þar yfirgnæfir þó náð og miskun, hjálp og huggun miklu framar í Kristó Jesú, Róm. 5.

Svo heita ást og náð hefur Jesús sýnt þér, mín sál; lát þér til hugar koma, hvað stóra elsku og lofgjørðar skyldu þér byrjar honum aptur á mót að gjalda. Fyrir Jesú dýra blóð og blessaðar undir hefur þú øðlast æskilega heilbrygði; sjá vel til, að þú heilbrygð í sáluhjálplegri trú, Tít. 2. í sønnum kærleika, í heilagri þolinmæði, þjónir trúlega þínum Guði, og verkir þína tímanlega og eilífa velferð með ugga og ótta. Þóknist náðugum Guði að láta þinn vesæla líkama sjúkdóma eða ørkumsl á sér bera, þá tak með þolinmæði þér til æru og þakka, að bera þíns blessaða Jesú hryggðar mynd, svo þú megir í hans nafni vænta þess, að verða líkur hans forkláraðri dýrðar mynd síðar meir í himnaríki, Phil. 3. Hugleið, hversu óviðurqvæmilegt það sé, að þræll-inn skuli skémta sér með saurugu syndanna gjálífi, þar Herrann líður hans vegna svo grátlega hørmúng og hryggilegt qvalræði; lát þetta, Lausnari minn, mér til guðrækilegrar áminníngar og sannra siðbóta í hjarta og munni vaka; þér sé dýrð, heiður og þakklæti að eilífu, Amen.

24. Píslar-

## 24. Píslar-Þánki.

Um purpurann og þyrni-kórónuna.

Eín stríðsmenn Landsdómarans tóku hann og leiddu hann með sér inní Þínghúsið, kölludu samann og söfnudu að honum öllu lidinu, og afklæddu hann, og færdu hann í eina purpura-kápu, og fléttudu eina kórónu af þyrnum, og settu hana á hans höfud, og reyr í hans hægri hönd, og beigdu kné fyrir honum, spjödu hann og tóku að heilsa honum og sögdu: heill sért þú Konungur Gydínga! og gáfu honum pústra og hræktu á hann, tóku reyrinn og bördu um hans höfud, féllu á kné og tilbádu hann.

Það er æskileg huggun fyrir eina ydrandi sálu, ad yfirvega, hvörsu dásamlega hinn annar Adam af himni hefur med sinni bitru qvöl og pínu afmád og burttekid alla þá reidi og bölvan, sem hinn fyrsti madur Adam inn í heiminn leiddi, en afrekad og tilfært öllu mannkyni alla þá nád og bless-an, réttlæti, líf og sáluhjálp, sem hann misti og tapadi. Þegar Adam syndgadi, afklæddist hann, og undir eins vér allir hans nidjar, því fagra heilagleikans og réttlætisins klædi, og áttum eckí annars úrkosti, enn íklæddir skömm og sneipu, Ps. 35. ad útkastast frá nádar- og dýrdar-augliti Drottins, í óp og ýlfr-an hinna eilífu helvítis myrkra. Þegar Drottinn Jesús píndist, lét hann sig klædum fletta til smánar og hádúngar, svo hann tæki frá mér mín saurugu synda-tötur, og íklæddi mig himneskum hátídar klædum síns blessada réttlætis, mér til sáluhjálplegrar æru og eilífrar blessunar, Sach. 3. Undir hans blessad-

ri purpura-kápu vil eg, brotleg skepna, mína misgjørd hylja; þar vil eg mæddur vesælíngur hjartans feiginn hælis og huggunar njóta; undir míns Jesú miskunar vængjum, skal vera mitt trúnadar-traust í lífi og dauda.

Fyrir Adams ørgu óhlýdni lýsti hinn réttláti Gud banni og bølvan yfir jørdunni, ad hún skyldi bera þyrna og þistla mannkyninu til armædu og hegníngar, 1 Mós. 3. Fyrir Jesú addáanlega ást og hlýdni er á himni og jørdu yfirlýst nád, gledi og blessan øllum naudlídandi sálum til eilífrar huggunar. Hann lét sitt helgasta høfud særa og sundurkrassa med þyrni-broddum bølvunarinnar, afrekandi þat med jørdunni, og øllum skepnum, sem á henni hrærast, blómlegann ávøxt blessunarinnar, svo ad fyrir Jesú guddómlegann almættis- og miskunar-krapt vidhaldast og forsorgast bædi menn og skepnur af árlegum jardarinnar gróda, og Gud upplýkur sinni ørlætis hønd, og sedur allt hvad lifir med velþóknan, Ps. 145. Gleym þú aldrei, mín sál, þennann addáanlega miskunar-velgjørníng hins eilífa Guds, med audmjúkri lofgjørd og innilegasta ástar-þakklæti, ad vídfrægja og vegsama, já, allt hvad andardrátt hefur þad lofi nafnid Drottins.

Yfir mínu høfdi hékk ógnarlegur þúngi bølvunarinnar, sem løgmálid hótadi; Jesús hefur borid þann hvassa þyrni-krans á sínu heilaga høfdi, svo hann leysti mig frá allri bølvan, en krónadi mína sál med nád og blessan, svo sem med skyldi einum, Psálm. 5. Fyrir þann qvala-sára þyrni-krans, sem minn Lausnari hlaut hér ad bera, veit eg og vissulega trúi, ad hann blessadur hefur afrekad mér

aumum vesælíngi fagra kórónu miskunarinnar hér tímanlega, og skínandi kórónu dýrdarinnar í himnaríki eilíflega, 1 Pét. 5.

Mér þykir bædi vonlegt og verdugt, ad þér, mín sál, ofbjódi dæmalaust gudleysi hinna vondu þræla, sem þínum hjartkjæra Lausnara gjørdu þad allt til hádúngar og qvala, sem þeir gátu vest upphugsad, þeir óvyrdtu hans guddómlega persónu med ordunum, hæddu hans himneska Kóngs-tign med atlotunum, og afmindudu hans helgustu ásjónu med hrákum og sløgum; ó! gjæt þín, í Guds nafni, sál mín, ad þú látir þad eckért finnast í fari þínu, sem komast meigi í nockurn samjøfnud vid svoddan óhæfu. Vakta þig þá þú géngur í Guds hús, Préd. 5. hvar blessadur Jesús hefur lofad med sérdeilis nákvæmri nádar nálægd, ad vera midt á medal sinna elskulegra barna, Matth. 18. Sjá þá vel til, ad þinn Guds ótti sé eingin hræsni, og ad þú hædir ecki þinn Drottinn ad nýu med fölsku hjarta, Sýr. 1. edur hrækir í hans helgustu ásjónu med kraptalausu gudrækninnar yfirskyni; undir eins og þú gjørir í Guds húsi líkamans kné ad begja, þá lát fyrst og fremst hjarta þitt og hugskot med alvarlegri andakt og lotníngu audmýkja sig undir Guds volduga hønd, og fyrir hans dýrdarfulla tignar-veldi; hugleid, ad þú ert eingu betri þrælum þeim, sem hræktu í Herrans ásjónu, þegar þú einasta hefur yfirlit gudlegs athæfis, en afneitar þess krapti, 2 Tím. 3.

Ad sídustu sje eg hér bædi ógnarleg gjøld minna illverka, og í annann stad ómetanlegann mikilleik þinna miskunsemda, minn Herra Jesú! Allt hef eg brotlegur synda-þræll til þess unnid, ad eg skyldi

með smán og vanvyrðu útskúfast frá þínu náðar og dýrðar augliti, og verða að andstygð öllu holdi um óendanlega eilífð, Es. 66. En eilíft lof sé þér, Lausnari minn, þú sem mig hefur svo náðarsamlega frá þeirri ólucku endurleyst! öll þín lægíng er mín æðsta upphefð; öll þín háðúng ablar mér eilífs sóma; þau þúngu høggin, sem þitt helgasta høfuð særðu, endurnæra, græða og gleðja mitt hrædda og harmþrúngnà hjarta; í þínu nafni og fyrir þína forþénustu, muneg, þótt bæði sé nú syndum vafinn og sorgum hlaðinn, svo sem dýrmætur sonur og elskulegt barn, af þínum og mínum himneska Føður í náð og mildi virdtur og metinn verða, Jer. 31. AE! það er mín stærsta skylda, það skál og vera mín æðsta gleði svo leingi volgur blóð=dropi er í mínum æðum, þína heitustu hjartagæðsku að vegsama, þíns heilagasta nafns æru að víðfrægja. Feiginn vil eg einninn, Frelsari minn, þessa heims aðkast og armæðu, eptir þínum náðar vilja, þolinmóðlega líða; en veit þú mér, Drottinn, fulltíngk þinnar líknar og liðsemdar í allri minni neyð. Amen!

## 25. Píslar = Pánki.

Um útleiðslu Kristí úr Píng=húsinu.

Pílatus géck þá út aptur og sagði til þeirra: sjáið, eg leiði hann nú út hingað til yðar, svo að þér vitið, það eg finn enga søk með honum. Svo géck Jesús út, berandi þyrni=kórónu og purpura=klæðið, og hann sagði til þeirra: sjáið manninn! Þá er Kennimanna=høfdíngjarnir og þénararnir sáu hann, køllu ðu þeir og søgðu: krossfestu, krossfestu.

Pílatus sagdi til þeirra: takid þér hann og krossfestid, þvíad eg finn enga sök med honum. Þá svörudu honum Gydíngar: vér höfum lög, og eptir vorum lögum á hann ad deya, því hann gjördi sig sjálfann ad Guds Syni.

Ógnarleg hefur verid brædi og blindni Jesú óvina, sem svo herfilega útléku og ránglega klögudu hid blessada og saklausa Guds lamb; þeir vildu eckért hans forsvar heyra, enga hans afbötun meta, eingra laga eda réttinda gæta; þeir dæmdu þad dauda-verda gudlöstun, sem þó var sáluhjálplegur Guds sannleiki, er Drottinn qvadst Guds Sonur vera. Varist svoddan vonda rángsleitni allir þeir, sem Guds börn vilja kalladir verda. Varist þeir, sem Gud hefur valdstjórnar-sverdid og þad veglega dómara embætti tiltrúad, ad láta heiptarfulla áklögun vondra manna villa sig til ad tradka réttu máli og forsvari þess, er rángindin lídur; brúki þeir vald sitt og beiti sverdi laganna íllvirkjunum til hefndar og leidréttíngar, en gódum til forsvars og styrkíngar, 1 Pet. 2. Ó minn Herra Jesú! med hryggu og harmandi hjarta hugleidi eg þitt sára qvalrædi, því eg veit, ad þess vegna var þín pína svo mikil og megn, ad mín afbrot eru svo mörg og stór, en med glödu og fagnandi hjarta dáist eg ad þínu sannheilaga sakleysi, æ lát þad, Lausnari minn! mína synda sök bæta, minna synda bölvan burttaka, mitt synda straff forlíka; byrg þitt andlit frá mínum syndum, og afmá þú allar mínar misgjördir, Psálm. 51.

Enn framar gefst ockur orsök, mín sál! med gudrækilegri andakt ad hugleida, og svo sem eitt innsigli

á ockar hjarta ad festa þá hryggilegu qvøl, sem Jesús leid fyrir ockur, og þá há-dýrmætu nád og miskun, sem hann afrekadi ockur, þá hann géck út úr dóm-húsi Pílati, berandi þyrni-kórónu og Purpura-klædi. Vid áttum, sál mín! eptir ockar verdugleikum, allsnakin og bersnaud af allri blessan og gledi, en íklædd blód-skuldar forsmán og bølvunar ránglæti, ad útskúfast frá allri Guds nád og miskun, og varpast med hleckjum myrkranna í eilífar helvítis qvalir, 2 Pet. 2. O! þá skammarlegu syndanna svívirdíng, ó! þau skélfilegu syndanna verdlaun! Gud vægi minni blindni, lagfæri mína breitni, og miskuni minni brotlegri sálu! en eilíf dýrd sé þér, Drottinn minn! þú varst med smán og hádúng útleiddur úr dómhúsi Pílati, svo eg skyldi med nád og heidri verda innleiddur fyrst í þitt nádar-ríki hér í heimi, sem er réttlæti, fridur og føgnudur í heiløgum anda, Róm. 14. og sídan til þíns yndisfulla dýrdar-ríkis í himninum, hvar ed vera mun gnógt fagnadar og gledilegt líferni til þinnar hægri handar eilíflega, Ps. 16. Þú létst þig med hrygd og hormúng útleida, og því fæ eg í þínu nádar-nafni, med blessan og gledi, ad gánga út og inn, svo leingi sem þú lofar mér ad lifa; og þegar þér, Drottinn minn, þóknast ad kalla mig hédan, fyrir tímanlegann dauda, munu mínir brædur, sem eptir þreya, útbera mitt andvana lík til æskilegrar hvíldar í svefnherbergi grafarinnar, Es. 56. en þínir heilagir Englar munu þá leida mína sálu burt úr øllum eymdum, í fagrann Abrahams fadm eilífrar sælu og unun-ar; þá munt þú, minn Jesú! sem minna vegna barst qvalasárann þyrni-krans og forsmánarlega purpura-

slík, gefa mér, ad afstødnu mínu mótlæti, fagra dýrdarinnar kórónu; þú munt bígáfa mig, ad sigrudu øllu mínu andstreymi, med skínandi sælu-skarti og sigurvinníngar pálm-vid frammi fyrir þínum tignar-stóli. Þá munu heilagir Drottins Englar hrópa yfir mér med himneskri dýrdar kjæti: sjáid manninn, þann sem kominn er úr miklum hørmúngum, og hefur sinn skrúda þvegid og hvítfágad í lambsins blódi; þá munt þú, sál mín, ad eilífu eymda frí, og ordin hluttakandi himneskrar sælu, fagurlega sýngja eilíft fagnadar hallelúja, og med lystileguftu Englánna rødd sýngja og segja: daudi, hvar er þinn broddur, helvíti hvar er þinn sigur? Gudi sé lof, sem mér hefur sigurinn gefid fyrir vorn Drottinn Jesúm Kristum, 1 Cor. 15. O! þú lifanda Guds Son! minn ljúfasti Lausnari Jesú, þú ert sannarlega Kristur Sonur Guds, Matth. 16. Þú eingétni Sonur Fødursins, sem ert í hans skauti, hefur þinn Sonar arf, sem er nád, sannleiki og sáluhjálp, øllum oss þíns Fødurs børnum og brædrum gefid. Þér, þú Sonur Guds, sem sjálfur ert sannur Gud og þad eilífa lífid, 1 Jóh. 5. sýngist ævarandi lof og ódaudlegar þakkir af øllum túngum Engla og manna, nú hédan í frá og um allar aldir, Amen!

## 26. Píslar-Þánki.

### Samtal Kristi vid Pílatum.

Þá Pílatus heyrdi þad ord, óttadist hann enn meir, og gékk aptur í þínghúsid, og sagdi til Jesúm: hvadan ert þú? en Jesús gaf honum eckert svar. Þá sagdi Pílatus til hans: talar þú eigi vid mig? veitst þú ecki, ad eg hefi rád til ad krossfesta

þig, og eg hefi ráð til að gésa þig lausann? Jesús svaraði: eigi hefðir þú nockuð vald yfir mér, nema þér væri gésið það hér að ofan, fyrir því hefur sá meiri synd, er mig ofurselði þér. Og eptir það leitaði Pílatus við, hvörnin hann gæti látið hann lausann; en Gyðingar hrópuðu og sögðu: ef þú lætur þennann lausann, þá ertu ecki Keysarans vinur. Hvíað hvör sem sig gjörir að kóngi, hann er á móti Keysaranum.

Hræðilegt og aumkunarverðt er að hugsa um það, að þeir sem vilja kristnir kallast, skuli láta sér miður fara í því, að elska og óttast hinn eilífa og alvalda, hinn lifanda og líknarfulla Guð, heldur enn heiðingjum fór í því, að heiðra og hræðast þau dauðu líkneski og mállausu skurðgoð, er þeir af djöfulsins innblæstri meintu og trúðu Guði vera; og svo qvað ramt að blindni þeirra, að þeir héldu goð sín mundi géta börn af sér, eins og aðrir holdlegir menn; og hefur Pílatus kannské leidt í huga sér, að Jesús, sem qvaðst Guðs Sonur vera, væri af svoddan goðanna kyni borinn, og því óttaðist hann enn meir, viljandi fara sem varlegast að ransókn þessa máls, svo hann felldi ei yfir sig goðanna reiði. Hafi nú heiðnir menn borið svoddan blygðun og virðingu fyrir sínum vesælu afguðum, sem þó eru eingu neytir, og ecki annað enn vindur og hégómi, Es. 41, ó! hversu miklu framar ættum vér, kristnir menn, sem vitum og trúum, að þar er einn Guð til, einn sannur Guð, einn lifandi Guð, einn eilífur kóngur, fyrir hvörs reiði jörðin skélfur, og engin kann að þola hans ógnan, Jer. 10, ó! hversu miklu framar ættum vér að blygðast fyrir hans háleita heilagleik, að hræðast fyrir hans stránga

réttlæti, ad umfadma og elska hans fødurlega gædsku og miskunsemi med allri hlýdni, ást og undirgéfni, gætandi þess, ad í hans voldugu almættis hønd er øllum ydrunarlausum og ógudlegum ógnarlegt ad falla.

Fávíslega fór Pilató, er hann stærdi sig af makt sinni, og meinti sér leyfilegt ad beigja veg réttarins eptir vild sinni; varist svoddan vondt dramblæti allir heidvirdir yfirmenn, og gæti þess, ad þeir hafa vald sitt og umdæmi þeigid af Guds nádar hendi, og eiga því eptir Guds nádar vilja og laganna reglu, en ecki eptir sínum eigin hugþótta, med þad ad fara; Gud hefur géfid þeim heidur maktarinnar, og heimtar því af þeim aptur á mót heidur hlýdninnar; vyrdíngu og æru meiga þeir ad vísu, vegna síns embættis, njóta, en varast eiga þeir med hofmód eda rángsleitni annara heidri edur sakleysi ad nidra, gætandi þess, ad Gud straffar hina dramblátu, og bølvadir eru allir þeir, sem þverúdarsamlega burtvíkja frá hans bodordum, Psálm. 119. Vor Yfirvøld eru af þeim hærsta himins og jardar Drottni yfir oss sett og skipud, því er oss skyldt ad veita þeim alla tilbærilega hlýdni, elsku og undirgéfni, Róm. 13. Vyrdum og heidrum þad veglega réttarins og laganna sverd, sem þau í hendi hafa; vørumst íllverk og vonda glæpi, hverjum valdid er sett til hegnínga; en kappkostum ad lifa í skildugri hlýdni vid Guds ord og konúngsins løg; þá munum vér af valdstéttinni hafa frelsi, frid og lofstýr. Þad er réttvíst, ad straffid sé ad því leiti þúngt álagt, sem syndin er stór til, 5 Mós. b. 25. Sá hlýtur hardari hefndum ad mæta, sem verr og ógudlegar hefur breytt; ydran og yfirbót finnur jafnan

vægd og miskun, en þrjótsku og þverúd er vís reidi og strøffun bædi af Gudi og mönnum; sá þjón, sem veit vilja síns Herra og gjørir hann ecki, hann mun lída mørg høgg, Lúk. 12.

Vernda þú og blessa, gódi Gud! øll vor Yfirvøld ædri og lægri stéttar; géf ad þau flýi og fordist íllt hneixli og alla rángsleitni; géf ad þau elski, adhyllist og ræki góda landstjórn og gudrækilegt framferdi; géf ad allir undirgéfnir gæti med gudrækni sinnar skyldu í því ad óttast þig, heidra konúnginn, 1 Pét. 2. og elskast innbyrdis, svo sem kristnum sómir, svo vér allir, undir þinni vernd og blessan, mættum lifa í fridi og kjærleika med allri gudrækni og sidsemi, Amen!

## 27. Píslar = Pánki.

Pílatí samtal vid Gydínga á dómstólnum.

Sem Pílatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jesúm út, og setti sig á dómstólinn í þeim stad, sem kallast hinn steinlagdi, en á Ebresku Gabbatha, en þad var adfánga=dagur Páska nærri siøttu stundu; þá segir hann til Gydínga: sjáid, þad er ydar kóngur. En þeir køllудu: burt, burt med hann, krossfestu hann. Pílatus sagdi til þeirra: skal eg krossfesta ydar konúng? kénnimanna høfdíngjarnir svørudu: engann konúng høfum vér nema Keysarann.

Ecki er þad ad undra, þótt ord Drottins hrópi svo ógnarlega reidi og bølvan yfir einum ránglátum dómara, sem veit réttindin, en gjørir þau ecki, Jer. 5. og lætur mannanna myndugleika hræda sig; edur þeirra vináttu locka sig til ad hjálpa ecki þeim fátæka til réttar; því svo sem rádvendni og réttvísi er hinum

ndduga Gudi þeck og þægileg, svo er einnig málafylgi og rángsleitni sú argasta svívirdíng fyrir hans dýrdarfulla augliti, Ordsq. b. 17. Varist því allir heidvirdir menn, og sérdeilis þeir, sem Drottinn hefur dómara embætti tiltrúad, íllt dæmi hins heidna landsdómara Pílatí, hver ed svo ógudlega sem heimskulega hræddist framar Keysarans reidi, heldur enn hinn lifanda Gud, og matti meir sitt eigid gagn, heldur enn sannleikann og góda samvitsku; og er þá ílla farid med sverd Drottins, þegar menn þann veg beita því, til ad nidurbrjóta Guds, en uppbyggja andskotans ríki, til ad spilla annara rétti, en myrda sína eigin sálu. Vakti sig því allir gódir menn fyrir svoddan vidurstyggilegri smán og vofeiflegum sálar háska; láti allir dómendur ótta Drottins hjá sér vera, svo þeir vardveiti sig og gjöri þar eptir, 2 Chron. 19.

Med hjartans gledi og lotníng sný eg hugrenníngum og máli mínu til þín, minn háblessadi Lausnari Jesú! Pílatus kalladi þig koníng med spé og hædni; Gydíngar hrópudu yfir þér qvøl og krossfestíng med offa og ógnar brædi; en mín sál veit og trúir, vidurkénnir og játar med djúpustu audmýkt og heilagri hjartans gledi, ad þú, minn Jesú, ert einn Gud og koníngur frá eilífd til eilífdar, Ebr. 1. Þú ert koníngur bædi á himni og jørdu, koníngur Eingla og manna, koníngur hinnar ædstu maktar og mestu miskunar, af Gudi mínum himneska Fødur smurdur med gledinnar vidsmjøri lángt fram yfir þína hluttakendur, Psálm. 45. Og þó hefur þú, ó Herra, svo djúpt lítilækkad þig, mér vesælum jardar ormi til miskunar, ad þú stódst bundinn og fjøtradur, svo sem hinn argasti íllrædis madur fyrir ógudlegra manna

dómi, og varst af øllum áklagadur, útskúfadur og til dauda dæmdur. O Jesú! Eg trúi stadfastlega, og bid audmjúklega, ad þú látir mig aumann vesæling njóta þessarar þinnar djúpu nidurlægíngar, þegar þú kémur á sídasta deigi í skýunum, med stórum krapti og dýrd, til ad dæma alla jardar-kríngluna med réttvísi, Post. G. 17. Þú mættir ákløgun og sakfelli fyrir ránglátum manna dómi; géf, ad eg heilagur og óstraffanlegur í fridi fundinn verdi fyrir þínu augliti á þeim efsta degi, 2 Pet. 3. Þínir óvinir létu hér íllskufullt qvala hróp fyrir þínum eyrum hljóma; Drottinn minn! géf ad eg fái þar gledilegt nádar ávarp af þínum blessada munni ad heyra; þú varst af øllum sem íllvirki reiknadur; veit ad eg, ásamt þínum blessudum børnum, sé og verdi talinn, og á lífsins bók teiknadur. Med audmjúku og elskufullu hjarta vil eg þig minn konúng kalla, tigna og tilbidja; vyrdstu í nád og vægd ad þeckja og medtaka mig fyrir þinn þræl og þénara; eckért veraldarinnar herradæmi vyrdi eg til jafns vid þá æru; allt heimsins gótz og glis vil eg feiginn fyrir þreck halda, uppá þad eg ávinni þig, minn Jesú! og meigi njótandi verda þíns sáluhjálplega réttlætis, þíns guddómlega nádar hjálprædis, þinnar eilífu dýrdar og sælu, Phil. 3.

Á þad háfa Gabbatha stein-stræti lét gædskuríkur Jesús sig leida, svo eg mætti, í allskonar heimsins hættu og hørmúng, hans líknar og varatektar njóta; hann er vor Gud, uppá hvern vér vonum, og hann mun hjálpa oss, svo ad vér gledjumst og séum gladir í hans hjálprædi, Es. 25. O Herra Jesú! þú blessadi konúngur yfir Guds heilaga fjall Síon! Psálm. 2. Þín dýrkeypta kristni kýs þig, tignar og tilbidur, svo

sem sitt höfud, sinn Herra og kóng; æ! lát hana undir þinni nádarfullu kóngs stjórnan vidhaldast, verndast og blessast, svo port helvítanna megni eckért á móti henni, Matth. 16. Vertu hennar hjálpar-skjöldur og sigurvinníngar sverd, medan hún er hér í heimi strídandi; og veit henni ad síduslu fyrir þína nád í himneskum dýrdar fridi ad verda eilífum sigri hrósandi, Amen!

## 28. Píslar-Pánki.

Um Pílatí handa þvott og dóm.

Enn er Pílatus sá þad hann kom eingu til vegar, heldur ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tók hann vatn og þvodi hendurnar fyrir fólkinu, og sagdi: saklaus er eg af blódi þess réttláta, sjáid þér til. Þá svaradi allur lýdur og sagdi: hans blód komi yfir oss, og yfir börn vor!

Ognarlegt er ad hugsa um þad, hversu herfilega djöfullinn fer ad forblinda mannskepnuna, þegar hún hyrdir ecki um ad hafa almáttugann Gud fyrir augum sér; hún gengur vísvitandi á djöfulsins vegi, og gjörir viljandi djöfulsins verk; hún fer ad hans rádum og fylgir hans aeggíngu, allt eins og einn þræll kémur, þá hans Herra kallar á hann, og gjörir þad sem hann skipar honum, Matth. 8. Svoddann hrædilegt blindninnar og ógudlegleikans dæmi sjáum vid, sála mín, á þeim heidna Landsdómara Pílató; hann vissi vel, ad Gydíngar höfdu af hatri ofurseldt Drottinn í hans hendur; hann hafdi optlega berlega yfirlýst Jesú sakleysi; og þó blindadi andskotinn svo herfilega hans augu, ad hann lét Keisarans reidi hræda sig, og fólksins ædi locka sig til ad dæma

Jesúm til dauða, þvert á móti sinni samvitsku; óskandi væri, að Yfirvøldin vildi Guðs dýrðar, landsins og sinnar eiginn velferðar vegna, taka sér trúann vara fyrir svoddann synda svívyrðíng. Guð betri náðarsamlega vorar tíðir! hvað margur mun nú sá í heiminum, sem lastar og fordæmir þessa Pílatí aðferð, en geingur þó í sømu glæpa spor, og fylgir sama ránglætisins ferli? Óttinn fyrir mannanna makt og valdi situr opt (æ því miður!) í dómara sætinu, og leggur úrskurð á mál manna, høfðíngjunum til vilja og þóknunar, vondum skálkum til forsvars og frúnar, en aumíngjanum, sem ecki fær rétt sinn, til skaða og niðrunar. Ábata von og vináttu fylgi setur jafnvel dygðanna nafn uppá skammir og lesti; og kannské þeir sinnist, sem sýna fordyld sína, í því að verja svo rángt mál sem rétt væri, til að taka í forsvar einn glæpafullann Barabbam; og eg ætla menn meigi allt of opt sjá það og sanna, hversu gulltúngan og hin Babýloniska kápa gjøra mikið að verkum í því að blinda einn ágjarnann Achan til að gjøra þvert á móti Guðs boði og sinni eigin samvitsku sér til ólucku og fordæmíngar, Dóm. b. 7. Verða má og svo, að sumum fari verr enn Pílató í því, að þeir þyggi mútur og gjafir til að beigja veg réttarins, hvað að er hin argasta svívyrðíng, bæði fyrir Guði og mønnum. Svoddan løgleisa er hin skaðlegasta drepsótt í einu landi, og einn hyrníngar steinn í andskotans samkundu, Opb. b. 3. eða, má eg spyrja: hvað veldur því að illgresi aðskiljanlegra lasta og ódygða vex nú svo óðum í akri þeirrar sýnilegu Guðs kristni vor á meðal? Matth. 13. Að vísu veldur því einna mest umsjónarleysi þeirra yfir-

bodnu, þeir ed meta sitt eigid gagn meir enn velferd sinna undirgéfinna; vilja kjósa sér hrós af hvers manns munni, med því ad þyrma skálkinum undir medaumkunar yfirskyni, látandi höfdíngjanna mikilmennsku halda lögunum svo hræddum, ad þau hlaupa svo sem í felur, þegar þau eiga ad heimta hinn ógudlega undir straffid. Gud vardveiti vor Yfirvöld frá svoddann vondum dæmum, og géfi þeim nád til ad vanda svo sitt embætti í ótta Drottins, ad hans verdi býrdin, en bædi yfirbodinna og undirgéfinna tímanleg, andleg og eilíf velferdin!

Í annann máta merk þú hér, mín sál, heimskulega blindni hins heidna Pílatí, ad hann hugdi med sínum handa þvotti ad fegra og afplána sitt ránglæti fyrir Gudi og mönnum. Varastu, í Drottins nafni, þessi víti, ó madur! gjæt þess, ad þótt þú kunnir med þinni fánítri hræsni ad fegra synd þína fyrir mannanna dómi, þá er þér þó ómögulegt ad dyljast fyrir Drottins augum, sem eru þúsundsinnum skjærari enn sólin, og sjá allt hvad menn gjöra, Sýr. 23. Viljir þú þvo þig, svo ad þér megi fyrir Drottins nádar augliti duga, þá þvo og hreinsa hvad best og náqvæmast hjarta þitt og hugskot, og það med heitum ydrunar tárum, og gudrækilegri lifnadarins betran, leitandi þér helgunar og hreinsunar í Herrans Jesú blessada blóds krapti, sem er frí-opinn brunnur til ad afmá og forlíka saurugleik þinna synda, Sach. 13. Varastu skinhelgann hræsnis þvott hins heidna Pílatí, en ydkadu sem optast gudrækilegann umvendunar þvott þess ydrandi Davíds; andvarpadu med tárum án afláts til hins góda Guds; þvo þú mig vel af illgjörd minni, og hreinsadu mig af mínum

syndum, Ps. 51. Kosta kapps um í Jesú krápti ad bæta þinn lifnad og betra þitt framferdi, Jer. 7. þad er sá Gudi þægasti, og þér hollasti hreinsunar þvottur.

Hinn blindi Gydínganna lýdur hrópadi í brædi sinni Guds Sonar blóds hefnd bædi yfir sig og børn sín, sem sídan hefur hrinid og mun hrína á þeim til ógnarlegs straffs og hegníngar. Setji því sérhver, sem sína velferd kjæra hefur, innsigli gudrækilegrar vareygdar og forsjálni á varir sínar, Sýr. 22. einkum og allra helst þá hann er reidur, svo hann hverki skadi sína eigin sálu, né ókki ødrum nockra ófara, því þess hafa dæmin géfist, ad af vondum óbænum hefur beiskur ólucknnar ávøxtur sprottid. Því eru þad ágjæt heilrædi, er allir ættu vandlega ad geyma, ad menn vari sína túngu frá illu, Psálm. 37. eu venji hana Skaparanum til dýrdar, en sér og sínum til bestu blessunar nota.

O! Herra Jesú, sem mér til miskunar vildir ránglátann dóms úrskurd lída; þú sem snarlega munt aptur koma réttlætis dóms úrskurd yfir allri jørdunni ad uppsegja, stjórna þú dómurunum til ad fara vel og varlega ad sínum dómum, svo þín verdi dýrdin en þinna barna æskileg velferdin. Drottinn minn, afleis oss med Isópó, svo vér hreinsumst, þvo þú oss, svo vér fyrir trúna hreinir og vid þig forlíktir, snjó-hvítir verdum, Psálm. 51. Þitt dýrmæta blód, þú óflekkada Guds lamb, sem útflódi á krossinum, hríni á oss og vorum, já, øllum þínum børnum, til frelsis og fridþægíngar, til synda bóta, og sannrar blessunar, Amen.

## 29. Píslar=Pánki.

Um Barabbas frelsi.

En Pilatus þeinkti fólkinu fullnægju ad gjøra, og dæmdi ad ské skyldi þeirra beidni, gaf þeim Barabbam lausann, þann er inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkva stofu, um hvern þér bádu; en Jesúm húdstrýktann frammseldi hann þeim, eptir þeirra vilja, ad hann krossfestur yrdi.

Merkilega hugleidíng mátt þú, sála mín, draga þér af þessu dæmi, bædi um mannsins mikla eymd, og líka þá miskunarríku Endurlausn, sem skéd er fyrir Frelsarans Jesú bitra og blódugа pínu, sá ed í heiminn er kominn, og á krossinum qvalinn, til ad gjøra alla synduga menn sáluhólpna, 1 Tím. 1. Barabbas merkir, eptir lærdra manna útleggíngu, Födurs nidja; vid hann má med øllum rétti líkjast hinn fyrsti madur Adam, og allir vér hans veslu nidjar, sem undir ógn daudans áttum í eilífri þrælkan ad vera, Ebr. 2.

Bædi gjørdi Adam hid mesta upphlaup, þegar hann, med nautn þess forbodna eplis, forsmádi blessad bodord síns Skapara, 1 Mós. 2. og líka vard hann sá mesti manndrápari, þegar hann, med sinni grátlegri hrøsun, leiddi tímanlegann, andlegann og eilífann dauda bædi yfir sig, og alla sína nidja; undir Guds reidi, grimd djøfulsins, og ógnarlegri eptirbid eilífra qvala, átti Adam og allt hans afqvæmi, svo sem í dimmri dýbliſsu fjøtrad og fángid, eilífrar heljar ad bída, í því dýkinu, sem ríkur af eldi og brennisteini, Opinb. b. 19. en eilíflega lofadur sé líknar=

fullur Jesús, sem lét sig saklausann til dauda dæma! svo Adam og vér allir hans nidjar mættum frid og frelsi, lausn og lífgjøf hljóta. Hinn glæpafulli mordíngi Barabbas er laus géfinn, en hinn sannheilagi Guds Sonur Jesús til lífláts úrskurdadur, líka svo sem syndin ríkti í Adams falli til dauda og fordæmíngar, svo skal nádin miklu framar ríkja fyrir Jésú pínu, til réttlætis, helgunar og eilífrar Endurlausnar, 1 Cor. 1. Nú fyrst eg er einn af Adams nidjum, þá má eg maklega heimfæra uppá mig þetta dæmi, bædi til audmjúkrar endurminníngar míns grátlega glæpanna athæfis, og líka til gledilegrar íhugunar míns Jesú mildi og miskunar hjálpræðis. O! hvad opt hef eg aumur þræll gjørt þrjótskufulla uppreist móti mínum himneskum Gudi og Herra, og hans heilaga Anda nádar verkunum, brjótandi daglega hans blessud bodord, og vanrækjandi mína kristinndóms skyldu bædi vid Gud og náúngann; Gud hefur mig í mildi og miskun uppalid, en eg hefi med þrjótsku og þverúd frá honum fallid, Es. 1. Ecki er eg heldur frí fyrir illu manndrápi, þar eg hefi minni sálu med vísvitandi synda-ydju orsakad verdlaun andlegs og eilífs dauda, Róm. 6. og þar ad auki, med mørgu vondu framferdi hneixlad minn náúnga, og leidt hann í daudlegann sálar háska. Ofrægur em eg ordinn bædi fyrir Gudi og mønnum vegna afbrota minna, sém eru uppgeingin yfir mitt høfud, og ordin mér ein ofurþúng byrdi, Ps. 38. Eg geing í dymmum dal og daudans skugga, svo sem í myrkva stofu inniluktur, hvar løgmálid hrædir og skélfir mig, daudinn ógnar og ofbídur mér, synd=

írnar særa sálina mína; mótlætið og mæðan vill margvísleg tilfalla.

O! blessaður vert þú, minn blíðasti Lausnari Jesú! sem í heiminn ert kominn til að afreka faungudum frelsið, til að boða harmþrúngnum huggunina, og útvega öllu töpuðu mannkyni eilífa endurlausn og sáluhjálp. Þú lést þig saklausann til dauða dæma, og lætur mér nú sekum í þínu heilaga nafni náð og fyrirgéfníng boða, Lúk. 24. Þú hrópár sjálfur qvittun og frið í himninum, þú lætur þína umboðs menn og þénara með heilagri aflausn og háleitum náðarinnar meðölum leysa mín synda bönd, og lina mínum eymda fjötrum; allt það sem dauða verðugt fannst hjá mér, var til dauða dæmt á þér, Drottinn minn! því skal eg aldrei örvænta mér þinnar náðar, aldrei qvíða þínum dómi; mín sál gleður sig í þér, og er nærsta glaðvær í þínu hjálpræði, Ps. 35. Þú hefur leist mig úr dauðans fángelsi, þú munt lofa mér að lifa, og líka að deya í þínum náðar faðmi. Opt vilja mínar eymda stundir bæði lángar og strángar verða, en það er mín hugsvölun og harma-bót, að sú himnesska Páska hátíð þinnar dýrðarfullu tilkomu muni um síðir yfir mér upprenna, á hverri eg mun fyrir þína náð, minn Jesú! leysast úr myrkva stofu minna synda og sorga, en leiðast til þess himnesska samqvæmis heilagra Eingla og allra útvaldra, hvar þú, Drottinn, munt vera mitt eilíflegt ljós, og allir dagar minnar hörmúngar skulu í þinni dýrð og sælu fullkominn enda taka, Es. 60. Svo má nú Barrabbas, Adam og eg hans niðji, hjartanlega voru frelsi fagna; lof seigi því Drottni öll hans verk í öllum áttum hans

Herradæmis; lof seig þú ønd mín Drottni, Psálm. 103. Amen! Hallelúja.

## 30. Píslar-Pánki.

Um Kristí krossburd.

Þá tóku þeir Jesúm, eptir þad þeir høfdu spóttad hann, færdu hann úr Purpura kápunni og færdu hann í sín eigin klædi, og leiddu hann út, ad þeir krossfestu hann, og hann bar sinn kross og geck út. En í því þeir geingu og leiddu hann út, fundu þeir einn mann sem framm hjá geck af Cýrene, Simonem ad nafni, hver ed komin var af akri, fødur þeirra Alexandri og Rúffi, hann høndludu þeir og þreingdu hønum, ad hann bæri hans kross, og løgdu krossinn uppá hann, ad hann bæri hann eptir Jesú.

Illa gjørdu ad vísu þeir blindu og hreckvísu þrælar, sem þad saklausa Guds lamb Jesúm svo hriggilega qvøldu, og hersilega útléku, sem historian umgétur; en engu minni er þeirra synd og svívirding, engu bærilegri mun verda þeirra hefnd og fordæming, sem liggja í syndunum án nockurs Guds ótta, og leika sér ydrunarlaust ad ymsum løstum og ódygdum þvert á móti sinni samvitsku, því þeir krossfesta sjálfum sér Guds Son ad nýu, og hann fyrir skimp halda, svo sem heilagur Paulus ad ordi qvedur, Ebr. 6. Víktu frá, sála mín! víktu frá íllum selskap ógudlegra manna, varastu þeirra íllskufullu breytni, svo þú verdir ecki hluttakandi í þeirra óbærilegum plágum, Opinb. b. 18.

Það er merkilegt, að Símon, ásamt báðum sínum sonum, verður í historíunni á nafn nefndur, og hans minníng er fræg orðin meðal Guðs barna, af því hann gjörði (þótt í fyrstu nauðugur væri) það miskunar verk á Jesú, að hann bar með honum hans púnga kross; þanninn blífur minníng réttlátra í blessan, bæði hjá Guði og mönnum, Orðsq. b. 10. Sá sem af kjærleiksfullu hjarta sýnir nauðstöddum miskun og meðaumkan, hann fær bæði fyrir sig og sína að uppskéra Drottins náðarríka hjálp, og föðurlega blessan; já, Guð mun frelsa hann á þeirri vondu tíð Psálm. 41.

Það hefur ekki skéð af nockri óvissri hendíngu, heldur alvísri Drottins ráðstöfun, að útlendur maður varð á veigi fyrir Frelsaranum, og bar með honum þá þúngu krossins byrði, hvar með hið eilífa Guðs ráð hefur viljað géfa að merkja, það blessaður náðar ávöxtur blóðugra Jésú krossins qvala skyldi tilheyra ecki einasta Gyðíngum, heldur og eirninn heiðíngjum, sem voru framandi og fjarlægir Ísraels borgar-rétti, Eph. 2. og að eptir Guðs stránga réttlæti skyldi Guðs ríki, vegna Gyðínganna þrjótsku, frá þeim takast, og af grunnlausri Drottins náð heiðíngjum géfast, Matth. 21.

O! minn ljúfasti Lausnari, þú líknarfulla Guðs lamb! þér er kunnugast hversu mín hjartans og sálar sár optlega ýfast og sárlega svíða sökum þinnar reiði yfir mínum syndum. Æ minn Jesú! þú sem leiðst íllum þrælum að ýfa og uppríva þínar blóðugu benjar með qvalasárri tilfinníngu; virðstu blessaður best að mýkja og græða mínar mörgu og stóru synda og sorga undir með þinni náðarfullu huggun, fyrirbón

og forþénustu; lát mig fá að heyra fögnuð og gleði, svo að þau beinin gladvær verði, sem þú hefur sundur marið, Psálm. 51. Þessa þúngu krossins byrði létst þú, Drottinn minn! leggja á þínar blessuðu herðar, svo þú fagurlega uppfylltir þá fyrirmyndan, er Ísaach bar sjálfur fórnar-viðinn til hans ásetta offurs staðar, 1 Mós. b. 22. og þann veg hefur þú, ó Herra! með þinni armæðufullu kross og qvala-gaungu, frelsað mína sál frá eilífum qvala hrakníngi, og opnað henni beina blessunar braut gégnum allar eymdir inn til eilífrar sælu og hvíldar. Mín vegna hefur þú næsta þreyttur orðið undir þinni þúngu krossbyrði; sýn þú mér, Drottinn minn, vægð og hjálp, þegar eg tek til að mæðast undir þíns kross- og minna eymda-oki. Mitt spillta hold er ærið tregt og minn vilji næsta veikur til að feta þinn kross-feril, svo sem mér bæri, og eg feiginn vildi; æ! kom þú mér veikum til hjálpar með þínum náðar krapti; þú fékkst einn hjálpar mann til að létta undir þína byrði, ó Jesú! lát mig aldrei líknarlausann þreya í minni mæðu og mótlæti, vert þú ekki fjærri mér þegar ángistin er nálæg; þú sem ert minn styrkur, skunda þú mér til hjálpar, Psálm. 22.

Að síðustu, tak þér hér út af guðrækilega áminníng, mín sál, að þegar góðum Guði þóknast að leggja sinn kross þér á herðar, en hold og blóð vill með mögli og óþolinmæði bakspirna á móti þessum broddunum, Post. G. 9. lát þá sem þú sjáir sjálfann Jesúm gánga undan þér með sinn kross, sem hann bar þér til miskunar, og gjæt undir eins skyldu þinnar, að bera þinn kross á eptir, honum til hlýðnis og þókn-

unar; gack svo með þolinmæði úti þína eymda orustu, og haf aldrei þín sálar augu af honum, sem er uppbyrjari og fullkomnari þinnar trúar, Ebr. 12. Varastu með vondum glæpum nöckurn ræníngja kross að leggja þér á herðar; tak trúann vara á þínu eigin embætti; leitaðu þér hjá líknarfullum Guði með auðmjúkri bæn ævarandi farsældar, með alvarlegri yðran föðurlegrar friðþægíngar, svo þú meigir bera þinn kross, svo sem þess krossfesta Jesú sannur Lærisveinn, og þurfir ecki að skammast þín, heldur meigir með glöðu gédi vegsama Guð í slíku tilfelli, 1 Pet. 4. O! minn hjartagóði Lausnari Jesú! mínnstu mín eptir miskunsemi þinni, og virðstu með þinni líkfrøptugri líkn og liðsemd undir mína mæðu byrði að létta, og mína dauðans qvøl bærilega að gjøra; lát bæði mig og mína, samt alla þína, vera geymda í þínum føðurlegu forsjónar, og teiknaða í þínum føgru ástar og náðar høndum, Amen! ó Jesú Amen!

## 31. Píslar-Þánki.

Prédikun Kristí fyrir qvinnunum.

En honum fylgdi eptir mikill fjøldi fólks og qvenna, hverjar eð grétu og hørmuðu hann. En Jesús snérist til þeirra og sagði. Þér dætur af Jerúsalem: grátið ecki yfir mér, heldur grátið yfir yður sjálfum og børnum yðar. Því sjáið! þeir dagar munu koma, á hverjum þeir segja: sælar eru óbirjur, og þeir qviðir er ei hafa fædt, og þau brjóst hver eigi voru mylkt. Þá munu þeir taka til að segja fjøllunum: hrynjið yfir oss; og hálsunum: hyljið oss!

Varla verdur offsögum af því sagt, hversu völlt og svipul ad er veraldar mannanna vyrdíng og vinátta, allt eins og veikur og sundurbrotinn reir-vöndur, sem svíkur og særir þann, sem sig vill vid hann stydja, Es. 36. Pad meigum vid, sála mín, sjá af dæmi Jesú ástvina og lærisveina: þeir höfdu skömmu ádur fagnad hans tilkomu med fögrum gledi-saung og æstilegri hjartans kjæti, þegar hann á Pálmasunnudag innreid svo sem einn konúngur til borgarinnar Jerúsalem, Matth. 21. En fám dögum sídar, hlutu þeir ad rekja hans kross-feril med grátandi tárum og beiskri hjartans ángri, þegar þeirra meistari og Herra var svo sem argasti íllrædis madur, alsærdur og alblódugur, undir þeirri smánarlegu krossins byrdi, útleiddur af Jerúsalems borgar hlidi. Hafi nú veröldin med sinni blídu verid svo völlt og slárád vid sinn Gud og Herra, ætla þú þá ecki til þess, sála mín! ad hún vandi þér betri qvedjurnar, fáráðum þræli og vesölum syndara; þeim sem hún bídur hvad mesta gledinnar blídu, er, þegar minnst vonum varir, hætt vid hinni mestu mótlætis ástrídu. Varast því ad festa hjartad vid fánýtt heimsins glis og fallvalta vinháttu, gott er ad treysta uppá Drottinn, og forláta sig ecki á mennína, Psálm. 118. Haldt þér því fast vid Drottinn, því hann er örugg verndar-hlíf, og óyfirvinnanlegur hjálpar skjöldur allra þeirra sem á hann vona, Psálm. 115.

Grátid ecki yfir mér, sagdi gædskuríkur Jesús til qvennanna; ad vísu þecki eg mína stærstu skyldu, ad úthella beiskum harma-tárum vegna þinna bitru písla, Drottinn minn! en veit þó ad þvílíkur minn harmur kann hverki til þinnar dýrdar né minnar velferdar ad

þéna; því hvad skal eg gráta yfir þínum píslum, sem eru mitt og allra syndugra manna fegursta gledi efni, og eckért vitum vér oss annad til æskilegra sálar heilla og huggunar, 1 Cor. 2. Hvad skal mér ad harma þínar qvalir, sem mér til himneskrar huggunar eru nú uppsvelgdar í eilífann dýrdar sigur, þar þú, Drottinn minn! ert frá ángistinni burtnuminn, Es 53. og inngenginn í þína guddómlega dýrd. Hitt ætti og mætti vera mitt helsta ángurs efni, ad eg hefi aukid þér svo stránġt qvalanna erfidi med mínum syndum, og gjørt þér svo þúnga mædu med mínum misgjørdum, Es. 43. Eg hrædist og skélfist fyrir því, Drottinn minn! ad yfir mér muni vofa, og vera af þínu stránga réttlæti álykktud óbærileg hefnd og reidi, þar eg hef svo leingi ydkad óbætt glæpanna athæfi; en þad er aptur á mót mín eilíf huggun og harmabót, ad med þeirri grátlegu qvøl, sem þú, minn Jesú! þoldir, hefur þú útvegad mér brotlegum vesæling, gledilegann frid og fullkomna qvittun allra minna synda; minni sorgar-kløgun hefur þú snúid í gledi-dans; þú hefur minn hrigdar-seck í sundurslitid, og umgirdt mig med nád, huggun og hjálprædi. Drottinn Gud minn! ad eilífu vil eg þér þackir gjøra, Psálm. 30. O minn blídasti Lausnari! sem ert minna synda fullkomin bót og forlíkun, 1 Jóh. 2. Eg grátbæni þig, væg og miskuna mér vesølum syndara; lát eingann uppskéra skadsemdarinnar gjøld af illri rót minna glæpa; þín fødurleg nád og blessan fylgi mér og mínum alla vora lífdaga, og leidi oss ad sídustu í nád og fridi inn í himneska dýrd og sælu, Amen!

## 32. Píslar=Pánki.

Um græna og visnaða tréð.

Ef þeir gjöra þetta við blómgaða tréð, hvað mun þá ské við hið þurra?

Fagra lærdóma og líffræptugar huggunar greinir meigum við, sála mín! finna í þessum eptirtektaverðu Lausnarans orðum; látum ockur þeim ecki gleyma, heldur athugum og varðveitum þau með guðrækni í góðu og siðsömu hjarta, ockur til kristilegrar uppvakníngar og æskilegra blessunar nota. Það græna tréð er sjálfur Guðs eingétinn Sonur, og einasti heimsins Lausnari Jesús, hver eð í sinni dásamlegri holdgan upprann einn vöndur af kyni Jesse, og einn qvistur af hans rót, Es. 11. fagurblómgaður af blessan, náð og sannleika, Jóh. 1. Þessi himneska lífsins eik útbreiddi á sínum sýnilegrar hérvistar dögum sætt ilmandi líknar laufblöð sinna guddómlegu kraptaverka, öllum þeim, er þyggja vildu og kunnu til miskunarríkra meina-bóta; hann gécc um kríng, gjörði gott og græddi alla þá, sem af djöflinum voru undirþryktir, Post. Gb. 10. Hann gjörði allt vel, Mark. 7. en eckért illa; af hverjum qvisti þessarar himnesku lífseikar draup hunáng sáluhjálplegra kénnínga og ástúðlegrar umgeingni; engann harmþrúnginn vesælíng vildi hann líknarlausann frá sér reka, Jóh. 6. Alla sannyðrandi vesælínga og syndara gjörði hann í sitt náðarskjól og forsvar að taka, Lúk. 15. Þetta blessaða græna tréð blómgaðist að aldrei, vitsku og náð bæði fyrir Guði og mönnum, Lúk. 2. Himin og jörð glöddust yfir því í Jesú fæðíngu; sá himneski Faðirinn auglýsti sína hjartanlega velþóknan á því í

Jesú skírn, Matth. 3. Hér mátti hvervetna líta ylmandi og blómlega blessunar ávexti, ávexti réttlætis, helgunar og eilífrar endurlausnar, 1 Cor. 1. ávexti sonarlegrar hlýðni og hógværustu þolinmæði allt til krossins dauða, Phil. 2. ávexti fullkomins heilagleika, og heilags fullkomlegleika, sem var og er øllum Guðs vesælíngum orðsøk til eilífrar sáluhjálpar, Ebr. 5.

En það má maklega þykja hinum stærstu undrum sæta, að þetta edla tréð svo fagurt og blómlegt sem það var, mátti þó ecki vera ángurlaust á jørdunni; Guðs reidi-stormur geysaði yfir það; daudans og qvalanna ofboð hristi það, og Belíals lækir dundu þar yfir á allar síður; ef þú vilt adspyrja, mín sál! hvað því ollað hafi, að sá himneski Fadirinn lét sinn hjartans son saklausann líða svo herfilegar píslir? þá skaltu vita, að allt hold á jørdunni hafði fordjarfað sína vegu; það var orðið visnað tré og uppþornuð eik, sem eingann góðann ávøxt færði, heldur súr víniber synda og ránglætínga, Es. 5. Allur heimurinn var fallinn fyrir Guði, enginn var sá er gott gjørði, og ecki einn, Róm. 3. og átti því þetta rotna og ávaxtarlausa tré, eptir Guðs stránga réttlæti, að upphøggvast og í eilífann qvala eld að kastast, Matth. 3. Þetta aumkaði hin ómetanlega Drottins náð, og svo hin visnaða eik, sem var vesælt mannkyn, mætti enn þá standa óupprætt undir guðlegri gæðsku og þolinmæði, þá er Guðs Sonur Jesús í holdinu auglýstur, og á því sama qvalinn og krossfestur, úthellandi svo sínu allrahelgasta blóði, þeirri visnuðu eik, til blessaðrar blómgunar og eilífrar endurlausnar; hann lét sig saklausann pína svo það seka mannkyn mætti

frið og miskun hljóta; það græna tréð hraktist og hvistist í straungum stormi qvala og hørmúnga, svo hin visnaða eik mætti blómgast og frjófgast í himneskku hlývidri blíðrar Guðs náðar og huggunar.

Svo stórt krossins og eymdanna qvalræði hlaut Kristur Jesús að líða heiminum til miskunar áður hann inngeingi í sína dýrð. Gæt nú að høgum þínum, í Guðs nafni, mín sál! ef þeir gjøra þetta við blómgaða tréð, hvað mun þá ské við hið þurra? hafi stormur reiðinnar geisað yfir það græna tréð, æ! hversu heitt mun þá eldur qvalanna brenna yfir því visnaða? hafi Føðursins reiði orðið svo þúng hans hjartkjærum Syni, hversu óbærileg mun hún þá verða íllum þræli? ó! vakna þú, sál mín, af þínum synda og hirðuleysis svefni; vert ecki uggalaus, þó þínar íllgjørðir séu enn þá ecki straffaðar, svo þú þar fyrir framar meir viljir andvaralaust syndir drýgja, því Guð kann svo snarlega að verða reiður, sem hann er náðugur, og hans reiði yfir óguðlegum lætur aldrei af, Sýr. 5. Drag því ecki undann, að snúa þér til Drottins; hafi Guðs ópreitt þolinmæði og lánglundar géð híngað til sparað þig óhegnda vegna synda þinna, þá sjá vel til, að þú með auðmjúkri lofgjørð, ást og hlýðni, haldir bidlund Drottins fyrir þína sáluhjálp, 2 Pet. 2. og færir þér hana í nyt til æskilegra blessunar nota. Eg er að vísu visnuð og vøkvalaus eik, alþakin með sorg, synd og ránglæti; ó! þú græna lífsins tré, minn góði Jesú, geym þú mig undir føgrum lauf-blødum þinnar vægðar og miskunsemi! það er vonlegt, að eg argur þræll megi mørg reffíngar og mótlætis høgg líða, og ecki muni eg fá annars, enn í gégnum margar hrellíngar inn að gánga

í Guds dýrdar-ríki, Post. Gb. 14. Æ lofadu mér synda-þjádum sorgmæddum vesælíngi, Lausnarinn gódi! ad drepa mínum veika trúar-staf á fljótandi hunáng þinnar guddómlegu nádar og huggunar, sem mínum døpru sálar augum uppljúki, mína þreyttu sálar krapta hressi, lángtum betur enn Jónathæ jókst fordum líkamleg orka af því jardneska hunángi, 1 Sam. 14. Þegar velforþéntar þrautir og hørmúngar mæda mitt hjarta, dreyp þá á sálu mína, Drottinn minn! med himneskum sætleiks vøkva þinnar miskunar; lít í medaumkun á mína eymd, og forlát mér nádarsamlega allar mínar syndir í Jesú nafni, Amen!

## 33. Písilar - Þánki.

### Um Kristi krossfestíng.

Og þeir leiddu hann út í þann stad, sem kallast á Ebresku Golgatha, hvad ed þýdist høfudskeljastadur. Og þeir gáfu honum ad drecka í víni myrru og edik galli blandad, og hann tók þad eigi til sín, því þá hann smackadi þad, vildi hann ecki drecka. Og sem þeir komu í þann stad, sem kalladist Høfudskelja-stadur, þar krossfestu þeir hann, og med honum tvo adra ræníngja, einn til hægri handar, og annann til þeirrar vinstri, en Jesúm í midid; þá vard sú ritning uppfylld, sem segir: med íllvirkjum er hann reiknadur.

Undrúanleg hefur verid og er ást og elska þíns blessada Endurlausnara Jesú, mín sál, ad hann leid hinum ørgu þrælum, ad bera þann bitra og banvæna dryck ad sínum ørmædda og þyrsta munni í qvølinni, og þad til þess, ad þú mættir í øllum þínum áng-

ístar og mædu þorsta, sá ad uppausa ylmsætt svølunar vín af lifandi uppsprettu hans líknarfullu huggunar hér í nádinni, og drecka sídan med øllum útvøldum af himneskum vatns-straumum eilífrar sælu í dýrdinni, Opinb. b. 7. Packa þú og þigg, mín sál, þessa ómetánlegu Jesú mildi med audmjúku ástar þacklæti, og gjæt aptur á mót þinnar skyldu med alvarlegri gudrækni, ad þar sem þinn sáluhjálpari hefur smackad beiskann dryck þér til sætrar-svølunar, þá fyll aldrei framar þeirra flock, sem bjóda honum enn nú í dag beiska illskunnar ádryckju til stygdar og módgunar; en þad gjøra allir þeir, sem gabba sinn Gud og Drottinn med trúarlausri ydran, elskulausum þræls-ótta og eintómis hræsni; allir þeir, sem ávarpa sinn náúnga, sem er Jesú andlegur limur, med svikafullu undirferli, falsi og flárædi; svoddan beisku bølvunar víni vill blessadur Jesús í reidi frá sér hrinda, og þó þad þyki mørgum fagurt á ad líta, þá stíngur þad sem nadra og bítur sem høggormur alla þá, sem ydrunarlaust med þad høndla, Ordsqv. b. 23. Pad er mér skyldt til æru og þacka ad taka, Drottinn minn Jesú! þegar þér þócknast ad drecka mér til af þínum kross-bikar, þótt beiskur vera kunni; hjartans gjarnan skal eg þann heilsusamlega kaleik af þinni miskunar hendi þolinmódlega þyggja, og þitt nádar nafn þacklátlega vegsama, Ps. 116. Pú varst med rammri beiskju í þínum pínu-þorsta dryckjadur; æ! géf ad eg syndum-þjádur og þreittur vesælíngur í allri minni mædu fái ad njóta svølunar og sálar hressíngar, af þínum sætasta nádar brunni, sá ed fljóti mínu hjarta med ylmandi endurnæríngu allt til þess eilífa lífsins, Jóh.

4. Lát þann galli-blandaða bikar beiskrar heiptar og lastyrða vera lángt frá mér; vyrðstu alla mína synda- og sorga-remmu að bæta og lina með sætleik þinnar náðar og huggunar, svo eg í lífi og dauða megi sjá og smacka, hversu sætur og ljúfur þú Drottinn ert, Psálm. 34.

Það var hörmulegt ólucku tilfelli, þegar Adam, eptir það hann hafði brotið á móti boðorði Drottins, stóð alsnakinn við skilníngs-tréð í Eden aldingarði, með harmandi hjarta, niðurlútu andliti og nagandi samvitsku, 1 Mós. b. 3. og með því hann hafði illa gjørt, vogaði hann ecki í augsjón að koma, heldur faldi sig meðal trjánna; þess áttu allir hans niðjar að gjalda, til aumkunarlegs dauða-straffs og eilífrar fordæmíngar, Róm. 5. Það var aptur á mót hið æðsta gleði og náðar teikn og tilefni, þegar Sonur Guðs og sáluhjálpari allra manna Jesús Kristur héck alblóðugur, alsnakinn og alsærður á krossinum á Golgatha fjalli, bæði hið ytra og innra fullur af sárri qvøl, ángist og kránkleik, Es. 53. og með því hann hafði allt vel gjørt, og var þá á øllum hið besta og mesta miskunar-verk að gjøra, vildi hann blessaður fyrir eingum felast, heldur opinberlega pínast; þess meiga allir Adams niðjar njóta til æskilegustu synda-bóta og sáluhjálpar; líka svo sem allir dóu í Adams fordæmanlegu falli, svo verða allir lífgaðir fyrir Jesú blessaða pínu, 1 Cor. 15. O! minn elskulegasti Endurlausnari, eg vesæll syndari mæni mínum hjartans augum á þínar helgustu hendur, sem vegna minna misgjørða og mér til miskunar, voru á krossinn útþandar, og með hvøssum járn gøddum gégnum stúngnar; mínar hendur eru fullar

af blódi ránglætis og bølvunar, Es. 1. Af þinna handa sárum hafa blóddroparnir runnid mér til æskilegrar fridþægíngar og ævarandi farsældar; þú létst, Drottinn minn, þínar hendur svo fast á krossinn negla, ad einginn skyldi mína sorgmædda sál úr þínum miskunarhøndum slíta, Jóh. 10. Mínir saurugu fætur eru allt um of-fúsir og fljótir ad ana framm á vondum glæpa vegi, sem leidir til glötunar; þess vegna voru þínir heilögu fætur, minn Herra, svo sárlega á krossinum qvaldir mér til líknar og miskunar; lofadur sért þú þar fyrir, Lausnari minn, ad eilífu, og lát øll mín fót-spor, hvar sem eg er og fer, greidast og stjórnast framm á veg fridar og farsældar hér tímanlega og sídar eilíflega, Lúk. 1. Allt þitt helgasta hold var sárlega qvalid mér til sáluhjálplegrar lækníngar; þess bid eg og óska af audmjúku hjarta, ad mitt syndnga hold mætti í þínum krapti krossfestast frá vondum gyrndum og glæpum þér til dýrdar en mér til gudrækilegrar leidréttíngar, Gal. 2. svo þad eg lifi í holdinu, þad lifi eg í trú, elsku og hlýdni þinni. Þú háleitasti himnanna Drottinn, sem aldrei framdir nockra synd eda saurgan, 1 Pét. 2. varst reiknadur med illvirkjum, svo eg brotleg skepna mætti komast í tølu þinna blessadra barna, og verda med þínum helgandi blóds-krapti teiknadur; nú er eg ordinn ásamt þeim og þau med mér øll saman eitt í þér, minn elskulegasti Jesú, Gal. 3. Þad skal vera mitt ædsta yndi, æ svo lengi mínar eymdastundir vara, ad hafa þína bitru krossins pínu eitt opid minníngar-teikn æ jafnan fyrir mínum hugskots augum, og andvarpa med hjarta og munni í himininn til þín, segjandi: Drottins Jesú sára qvøl,

sem hann leid og þoldi minna vegna á krossinum, sætti og forlíki mig syndugan sképnu vid sjálfann eilífann og almáttugann Gud í himninum! hún sjái vægd og bót á mínum syndum! hún veiti linun og léttir mínum syndum! hún géfi mér æskilegs fridar og farsældar ad njóta hér í heimi, og unni mér ad sídustu eilífa dýrd og gledi ad hljóta í himnaríki! Í þeirri von vil eg gladur lifa og hvad gladastur deya í nafni og nádar krapti þéss þrí-eina lifanda og líknarfulla Guds Födurs, Sonar og Anda heilags, hverjum ad sé dýrd, heidur og æra frá eilífd til eilífdar, Amen.

## 34. Píslar-Þánki.

Fyrsta ord Kristí á krossinum.

En Jesús sagdi: Fadir! fyrirgéf þeim, þvíad þeir vita eigi hvad þeir gjøra.

Þetta fyrsta lífsins ord Frelsarans Jesú Kristi skulum vid, sála mín! gudrækilega athuga og yfirvega. 1) Ockur til alvarlegrar ydrunar áminníngar. Hvad kunni hinn réttláti Gud til hefndar og reidi yfir ógudlegum skálkum framar ad hræra, enn ad horfa á sinn eingétinn hjartans Son, í hverjum sá hinneski Fadirinn hafdi alla sína velþóknan, Matth. 3. svo herfilega útleikinn af þeirra voldum? þar hann blessadur héck svo sem ein bølvan midt á milli himins og jardar med sundurflakandi sárum, fossandi blóddropum og fljótandi tárum, breidandi svo sem blýdid barn sinn blessada fadm á móti Fødursins augliti. Æ! ecki er þad ad undra, þótt þeir leidi yfir sig snøggva fordæming, sem gánga í fótspor þeirra forherdtu Gyd-

ínga, í því ad afneita med yfirbótarlausu glæpanna athæfi Drottni þeim, sem þá hefur svo dýru verdi endurkeipt, 2 Pet. 1. sem svo bitrar qvalir hefur lidid vegna þeirra synda, og þeim til sáluhjálpar. Varastu því, í Guds nafni, sála mín! med forstockudu og forherdtu ydrunarleysi, ad leida yfir þig Drottins hefnd og reidi; lát nád Guds, og hans eingétins Sonar sáru qvalir ..ypta þig til ad afneita øllu ógudlegu athæfi, Tít. 2.

2) Skulum vid, sála mín, athuga þetta blessada Jesú ord ockur til gudrækilegs lærdóms og eptirbreytíngar. Brunnur miskunarinnar blessadur Jesús árnadi fridar og nádar sínum óvinum; hann beiddi um líkn og fyrirgéfníng handa þeim, sem hann qvøldu; um líkn og lífgjøf fyrir þá, sem hann í daudann seldu; hann vildi ad þeir, sem med hinu argasta grimdar ædi stódu á hans qvøl og krossfestíngu, skyldu og svó njóta hins æskilegasta nádar ávartar af hans fullnægjugjørd og forþénustu. O! mín sál, lær þad af þessu addáanlegasta hógværdar-dæmi þíns ástúdlegasta Endurlausnara, ad stilla gudrækilega þitt heiptar-géd, þegar þú verdur fyrir árásum og fjandskap illra manna; varastu þá med vondu blóti og heiptugum formælíngum íllt á móti illu ad gjalda, heldur géf med kristilegri hógværd og umburdarlyndi rúm reidi Guds, hans er hefndin, hann mun endurgjalda, Róm. 12. Hugleid, ad þótt þú kunnir saklaus ad vera vid þann, sem þér á móti gjørir, þá máttu þó med blygdun vita og játa þig sekann fyrir almáttugum Gudi, og á hann þá frjálst ad brúka, jafnvel vonda menn, fyrir vønd og hrís, ad hyrta þig med, en þú ert skyldugur til, med audmýkt og

þolinmædi, ad taka þeirri Drottins typtan; vit fyrir víst, ad þótt þú med illum óbænum svalir þínu heiptar gédi á fjandmanni þínum, þá ávinnur þú eckért med því nema íllt eitt; þú styggir Gud, fótttredur blessad bod og dæmi þíns Frelsara, eykur sjálfur þér óþolinmædi, og egnir enn þá mér ílli skap óvinar þíns svo beggja yckar sídara, verdur þá verra hinu fyrra, Lúk. 11. Ó! þú þolinmóda og hógværa Guds lamb, sem upplaukst þínum blessada munni á krossinum, ecki til formælíngar, héldur til fridþægíngar og miskunar yfir þeim, er þig saklausann qvøldu; stjórna þú huga og hjarta mínu, Drottinn minn, svo eg med sannri og þér þægilegri ást og hlýdni eptirfylgi þínum føgru kærleikans og þolinmædinnar fótsporum, 1 Pét. 2. Unn þeim, sem mér óforþéntann óvinskap sýna, med hjartanlegri ydran frá sinni íllsku ad snúa, svo þeir megi nád og qvittun fyrir þínu miskunar augliti finna. Fýsn hóldsins og hreckir djøfulsins villa svo opt sjónir fyrir mér vesælum syndara, ad eg veit ei né ádgjæti, þótt eg margt íllt og ógudlegt adhafist; því hver kann ad skilja hvad opt hann fellur. Fyrirgéf þú mér, Frelsari minn, alla mína illa breytni bædi vitanlega og óvitanlega; og þá eg sakir breyskleika míns og blindni, fell og hrasa, vyrdstu þá, ó! Jesú, best fyrir mér ad bidja, svo ad þín miskun og mín trú þrotni ecki. Eg má maklega játa og medkénna med blygdun míns andlitis, ad eg med íllgjørdum mínum hefi verid svo sem samtaka þrælum þeim, sem þjónudu ad þinni qvøl og krossfestíngu, æ! veit mér þá, Lausnari minn, ad eg verdi líka hluttakandi í þinni fyrirbón og fridþægíngu; bid þú þinn Fødur ad fyrirgéfa og misk=

una mér, og kasta øllum mínum illgjørdum í hafsins djúp, svo þeirra minníng komi ecki upp ad eilífu, Mich. 7.

3) Athugum vid, sála mín! þetta blessada Jesú ord ockur til lífkrøptugrar gledi og huggunar. Fyrst Frelsarinn Jesús bad fridar fyrir þá er gjørdu honum þina mestu smán, svo sem hans ørgustu óvinir, þá mun hann blessadur efalaust unna ockur sinnar guddómlegrar nádar og miskunar, sem erum Guds elskuleg børn og brædur Jesú Kristi í hans nafni réttlátir og vid Gud forlíkadir, Róm. 5. Hafi Jesús fridþægt fyrir þá sem útskúfudu honum frá sér í krossins qvøl og dauda, þá mun hann ecki fordæma ockur, sem til hjálprædis og huggunar viljum hjartans feigin fadma hann ad ockur, og aldrei sleppa honum, þar til hann blessar ockur med ómælanlegri þýngd eilífrar himnanna sælu. O! minn gædskuríki Gud og himneski hjartans Fadir! þegar eg vesæll syndari verd staddur midt á milli tímans og eilífdarinnar í daudanum, fyrirgéfdu mér þá, Drottinn minn! og forláttu, væg mér þá og miskuna í nafni þíns einka Sonar Jesú, sem med útbreiddum blódfadmi og grátandi augum forlíkadi fyrir mig á krossinum; lát hans bitru pínu skína þá fyrir þínum nádar augum mér til fødurlegrar miskunar! lát hana ljóma fyrir mínum sálar augum mér til lífkrøptugrar huggunar, Amen.

## 35. Píslar-Pánki.

### Um yfirskriftina á krossinum.

Pílatus skrifadi þá eina yfirskrift, og setti hana upp yfir krossinn, upp yfir hans høfdi festu

þeir hans dauda søk. En yfirskriftin og hvør søk honum var gefin, var ritud yfir honum med griskuni, latinskum og ebreskum bókstøfum: þessi er Jesús af Nadsareth konúngur Gydínga; þessa yfirskrift lásu margir af Gydíngum, því sá stadur var nærri borginni, þar Jesús var krossfestur; þá søgdu þeir ædstu Prestar Gydínga vid Pílatum: skrifa þú eigi konúngur Gydínga, heldur þad hann hafi sagt: eg em konúngur Gydínga; Pílatus svaradi: hvad eg skrifadi, þad hefi eg skrifad.

Næsta ypparlegann og þér, mín sál,, gledilegann æru-titil fékk þinn Drottinn og Lausnari, þegar hann hékk á krossinum, ein fórn og forlíkun fyrir þínar og allar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2. Med øllum rétti var yfir hans blessada høfdi teiknad þad guddómlega og gledilega nafnid Jesús, því hér audsýndi hinn trúi Guds þjón síg med verki og sannleika ad vera alls heimsins nádarfullann naudhjálpara, og einka endurlausnara frá synd, dauda, djøfli og helvíti, hver ed af einskjærri elsku og óvidjafnanlegri mildi lagdi líf og blód sitt blessad í sølurnar, til ad frelsa oss fordæmda fánga úr þeirri gryfjunni hvar ekkért vatn er inni, Zach. 9. en afreka oss aptur líf, réttlæti, endurlausn og eilífa sáluhjálp; svo þar er nú ekki í nockrum ødrum nád edur heilsugjøf ad finna, enn í hinum krossfesta og blessada Jesú, og ekkért er þar annad nafn undir himninum oss mønnunum géfid til hjálprædis og miskunar, utan alleina hans nafn, sem heitir Jesús, Post. G. 4.

Nazareus mátti hann med øllum rétti nefnast: þad útleggst, Gudi helgadur og frásskilinn; því þetta blessada lambid Guds, var af sínum himneskum Fød-

ur helgad og í heiminn sendt mannkyninu til endurlausnar, Jóh. 10. Hann var fráskilinn syndurunum, Ebr. 7. fyrir Gudi og mønnum aldeilis flecklaus og fullkomlega heilagur, látandi þad vera sinn mat og dryck med addáanlegri hlýdni og elskufullri hollustu ad gjøra síns himneska Føδurs nádar vilja, Jóh. 4. honum til dýrdar, en heiminum til miskunar.

Konúngur Gydínga var hann og er ad eilífu, hverjum Drottinn Gud gaf stól hans føδurs Davíds, sá er vera mun í guddómlegri hátign drottnandi kóngur yfir húsi Jacobs ad eilífu, og hans ríkis mun einginn endir verda, Lúk. 1. Hann er háleit dýrdar vegsemd Israels og himneskt lífsins ljós allra manna, Lúk. 2. af eilífri Guds nád í øndverdu heiminn, og í uppfyllíngu tímans útsendur, Gal. 4. til ad fridstilla Guds reidi og burttaka bølvanina, en afreka og útbíta øllum syndugum sálum tímanlegri, andlegri og eilífri blessan. Pessi er Jésús af Nazareth konúngur Gydínga, uppá hvers nádarríka frelsun og endurlausn eg vesæll syndari vil mig efunarlaust reida; hvers fegurstu heilagleikans og hlýdninnar sporum eg vil hjartans feginn bera mig ad fylgja; undir hvers konúnglegu nádar valdi eg girnist med hlýdugu hjarta ad lifa, og vona med glødu gédi ad deya.

Pennann veglega vyrdíngar titil hlutu peir hreckvísu Gydíngar, jafnvel naudugir, ad láta svo búinn standa, og feingu ecki, þó feignir vildu, ad breyta honum, Frelsaranum til vansa. Panninn setur Drottinn vissann skamt og takmark íllsku og hreckvísi vondra manna; pær stoltu bilgjurnar hljóta ad lecka sig, þegar Gud vill ecki leifa þeim leingra ad

geysa, Job. 38. Reidum ockur því, sála mín, uppá nádarríka Drottins hjálp og hjástód í øllum áliggjandi naudsynjum; vonum uppá hans makt og miskunsemi í sérhverju andstreymi, verum óhrædd um ockur undir hans hjálpar vængjum, hvada mein munu þá mennirnir megna ockur ad gjøra? Psálm. 56.

Þad er merkilegt, ad ecki í einu túngumáli, heldur í þremur, var þessi yfirskrift sett yfir Jesú høfud, hvar med alvís Guds rádstøfun hefur géfid ad merkja, ad sú hjartgróna elska, sem Jesús sýndi, sú himneska nád sem hann afrekadi med sinni krossins qvøl, skyldi øllum mønnum, fólki og túngumálum augljós verda, Tít. 2. til huggunar, hjálpræddis og miskunar; ad hvar helst sem syndin yfirgnæfdi, þar skyldi nádin, hjá øllum þeim sem réttilega þiggja vildu, miklu framar yfirgnæfa í Kristó Jesú, Róm. 5. Því skulu allar túngur, medal allra þjóda med audmjúkri ástar lofgjørd og elsku lotníngu vidurkénna, vegsama og vidfrægja, ad þú, Drottinn minn Jesú, ert hinn eingétni Guds Sonur, og alls heimsins Endurlausnari, sem hefur géfid sitt líf til endurlausnar fyrir alla. 1 Tím. 2. Æ! opna þú, Drottinn! mínar varir, svo mitt túngumál, ad samstemmandi audmjúkri hjartans alvøru, kunngjøri þitt lof, og útbreidi þitt blessada krossins ord þínu heilaga nafni til ædstu vegsemdar, en mér og ødrum Guds børnum til sálar yndis og æskilegra blessunar nota. Yfir mínu høfdi stód mótstædileg løgmálsins handskrift, Col. 2. sem vegna synda minna lýsir mig sekann eilífrar fyrirdæmíngar; yfir þínu høfdi, minn Jesú! var ritud gledileg yfirskrift, sem berlega vottar, ad þú hefur mína synda søk qvittad, mína sálar neyd læknad, mína bølvan burttekid,

en blessan, líf og réttlæti mér afrekað. Pitt náðar nafn, ó Jesú! þín guddómleg kóngs tign, ó Herra! víðfrægist, heiðrist og lofist á himni og jörðu, Amen!

## 36. Píslar-Pánki.

### Um skiptin á Kristí klæðum.

Sem stríðsmennirnir höfðu krossfest Kristum, tóku þeir hans klæðnað, og gjörðu á honum fjögra hluta skipti, sérhverjum stríðsmanni einn hlut, og vörpuðu þar um hlutkésti hvör hann skyldi hafa, og þar með kirtilinn; en kirtillinn var eigi saumaður, heldur frá ofanverðu allur prjónaður. Þá töluðu þeir sín á milli; skiptum vær honum ei í sundur, hlutumst heldur um, hvörs hann skal vera; svo að ritníngin uppfyldist, hvað sagt er fyrir Spámanninn, er seigir: þeir skiptu með sér klæðum mínum, og á minn kyrtil þá lögðu þeir hlutkésti; og þetta gjörðu stríðsmennirnir, og fólkið stóð og horfði á.

Aungvar jarðneskar jurtir eða plástrar megna svo kröptuglega að græða líkamans meinsemdir, svo sem það blessaða Jesú krossins orð dásamlega læknar, mýkir og græðir svíðandi synda undir og samvitsku kaun allra sannhyðrandi Guðs vesælínga; því þýngra sem var Jesú straff, þess fullkomnari er vor friðþægíng; því beiskari hans hrygð, þess sætari vor hugsvölun, því bólgnari hans benjar, þess líkkröptugri vor lækníng; hegníngin lá á honum svo að vér hefðum friðinn, og fyrir hans undir verðum vér heilbrygðir, Es. 53. Petta fær þú, mín sál, með gleði að sjá og sanna af þessari grein þíns Lausnara píslarsögu, hvar af við skulum athuga.

1) Að allsnakinn hékk vor Frelsari á krossinum, hans svídandi sár blæstu fyrir allra sjónum, svo bædi víð og allir ydrandi syndarar mættum þar inni finna ðruggt nádar athvarf og líknarfulla lækníng allra meina; hans fossandi blód-straumar sáust fyrir allra sjónum, til merkis þar um, að øllum nádþyrstum og þurfandi vesælíngum væri þar af uppsprottin hin sætasta svala lind, og frí-opinn nádarbrunnur móti øllum þeirra syndum og saurugleika, Sach. 13. Jesús bar opinbera smán øllum til ædstu vegsemdar; hann leid opinberar qvalir øllum til eilífrar miskunar; hans blessada nafn sé lofad um aldir og að eilífu.

2) Merk þú hér, mín sál, að fyrir klædin Kristi, sem stríðsmennirnir med sér skiptu, má maklega merkjast kristileg kyrkja Guðs hér í heimi, sem ecki er bundin vid nockurn vissann stað, heldur hefur hún skipt sér og útdreift um allar fjórar áttir veraldar, hverja hann sjálfur, sem er hennar høfuð og Herra, Es. 5. virdist í hreinni trú og heilsusamlegum lærdómi að vardveita og í blessan blómgast láta allt til heimsins enda. Líkkyrtli Lausnarans líki eg vid hans heilagt og blessað lífsins orð, hverju enginn holdlegur skilníngur á edur má í sundur skipta, því hann skinjar ecki það sem Guðs anda er, heldur er það honum ein heimska, og hann fær það ecki þeckt, 1 Cor. 2. Brúka þú þennann blessaða Jesú líkkyrtil, sála mín! og vef honum sem optast um þig í ótta Drottins og med adstod hans heilaga Anda; vertu bædi adgætinn ordsins heyrari og líka gudrækinn gjørníngsins gjørari, Jak. 1. Íklædst Drottni Jesú Kristó, og lát ecki eptir holdinu sínar gyrndir að rækja, Róm. 13.

3) Er vel merkjandi, mín sál! ad fátækur fæddist Lausnarinn í heiminn, vafinn í lítilmótlegum reifum, og lagdur nidur í audvirdilega jøtu, Lúk. 2. Fátækur umgéckst hann einninn í heiminum, hafandi ecki þad, hvar ad hann kynni høfdi sínu adhalla, Matth. 8. Fátækur andadist hann ad sídustu úr heiminum, og lét enga jardneska muni eptir, nema alleinasta sín klædi, sem hans blessada módir fécк þó ecki ad halda, heldur hrifsudu illir skálkar þau undir sitt vald. Lær hér af, kristinn madur, ad þótt þér vilji ríkdómur til, þá fest ecki hjarta þitt þar vid, Psálm. 62. Hugleid ad medan þú lifir, hefur þú eckért þar af, nema þína daglega naudþurft, og þegar menn deya í burtu frá þessu øllu saman, verdur opt margur ósskapa-arfinn ad eptirlátnu gódsi og lendir kannské þar sem þeir síst vildu; vertu því gudhræddur, og lát þér þinn deildann verd nægja, 1 Tím. 6. því þad er sá besti gródi, og þad blessunarlegasta erfda-góts.

4) Sjer þú hér, sála mín, hrædilega heipt og hardýdgi strídsmannanna, þeir létu sér ecki nægja, ad pína Drottins helgasta hold hid hormulegasta, heldur hripsudu þeir þar á ofan til sín hans klædi; engu betri eru þeir, sem enn nú í dag féfletta og áfælast volada Jesú limi í sinni høndlan; þad sem þeim er gjørt vill Jesús á sídasta degi reikna, ad vid sig gjort verid hafi, Matth. 25. Varast því aumíngjann ad áfælast, og vit fyrir víst, ad Drottinn er sá, sem þess mun hefna, 1 Theß. 4.

5) Horfi eg ad sídustu minum hjartans augum upp á þig, minn háblessadi Lausnari Jesú! svo sem þú héckst allsnakinn á krossinum, einn Gud og einn medalgángari milli Guds og manna, 1 Tím. 2. þú sem

mig glatadann vesælíng hefur svo heitt elskad, og þig sjálfann útgéfid Gudi til sætleiks ylms og fullkomins fridþægíngar-offurs, en minni sálu til frelsis, fagnadar, og eilífrar endurlausnar. Med þínum heilaga nakleika hefur þú bætt og burttekid blygdan míns fatleysis, en géfid mér hvítt brúdkaups klædi þíns dýrmæta réttlætis. Lofadur sért þú, Lausnari minn! sem létst mér hlut falla yfir hid lystilega, Psálm. 16. og lofadir mér ad fá og finna þann himneska kyrtil þinna hábleßudu lífsins orda; á þeßum þínum klædafaldi vil eg naudlídandi vesælíngur sem optast gládur þreifa med minni veiku trúar hendi, vongódur þar um, ad þú munir blódlát minna íllgjørda og eymda miskunsamlega mýkja og græda, Mark. 9. Skipti heimurinn hlæandi sínum audi, og sitji gladur ad sínum munadi, svo sem hann vill; þad er fallvalt láns-glis, og hans dýrd mun þó ecki í daudanum med honum fara, Psálm. 49. Sú er mín audmjúk hjartans bón, og þad skal vera mitt ædsta yndi, ad eg meigi eiga hlutskipti sem nærst þínum heilaga krossi, svo ad mín sál og hjarta, mér til tímanlegra og eilífra bleßunar nota, meigi ádreifast þínu blódi, Amen!

## 37. Píslar-Pánki.

### Annad ord Kristí á krossinum.

En þar stódu vid krossinn Jesú, módur hans og módursystir hans María húsfrú Cleophæ, og María Magdalena. Þá Jesús sá nú sína módur og þann Lærisvein þar nær standandi, sem hann elskadi, segir hann til sinnar módur: Kona, sjá þú þad er þinn Sonur! eptir þad seigir hann til Læri-

sveinsins: sjá, það er þín Móðir! og uppfrá þeirri stundu tók Lærisveininn hana að sér.

Með þessu blessaða orði og eptirdæmi hefur hinn eingétni Guðs Sonur og Endurlausnari vor Jesús eptirlátið 1) Börnunum þá ypparlegu áminníngu að þau auðsýni Foreldrunum alla tilbærilega elsku og aðstoð, æru og hlýðni með orði, verki og þolinmæði, Sýr. 3. gjætandi þess, að sá Guð, sem með hinum stærsta rétti býður foreldrana í heiðri að hafa, lofar undir eins í miskun og mildi hlýðin börn með lángvarandi lukku og blessan að bígáfa. Jesús bar elskufulla umsorgun fyrir sinni munaðarlausu móður, og fól hana Jóhanni á hendur til forsvars og aðstoðar. Breit eptir þessu hans dæmi, barn mitt! viljir þú uppskéra lukku, lán og lánggjæða blessan af Guðs miskunar hendi, sjá þá vel til, að þú niðursáir við foreldra þína hlýðugri þjónustu, dygðaríkri aðstoð og vyrðíngarfullri ástsemi; lát þér til hugar koma, hversu mörgum úngdómsins þvermóðska og elskulaust ræktarleysi við foreldrana, hefur komið til falls og fordjörfunar; varast því í Guðs ótta víti þau, er Sýrach umtalar segjandi: hver sinn Föður fyrirlætur, sá verður smáður, og hver sína móður styggir, sá er bölvaður af Drottni, Sýr. 3.

2) Hefur Lausnarinn hér eptirlátið eckjum og öllum munaðarleysingjum þá lífkröptugu huggun og harmabót: að þeim sömu miskunar augum, sem mildur Jesús áleit hér sína sárt harmandi móður, er stóð undir hans blóðugum krossi, með þeim sömu miskunar augum sjer hann enn þá aumur á þeim, sem sorgandi og munaðarlausir þreya í þessum vesæla heimi; Dróttinn er Faðir föðurlausra, sem þeim forsvar og

umsorgun veitir; hann er dómari ekknanna, Psálm. 68. sem þeim hjálp og hugsvølun sendir, þegar þær í kærleika Guds og þolinmædi Jesú Kristi, setja sína von uppá hann, og med hjartans bæn og heitum tárum leita jafnan hjálpar hjá honum.

Mér virdist ad sú blessada mey og módir María, sem harmþrúngin stód undir síns Sonar krossi, sé lifandi ímynd bædi þeirrar stríðandi Guds H. Kristni hér í heimi almennilega, og líka hvørs eins Guds barns sérdeilislega; hún er laungum til þess gjørd ad líða mótlætid, en líknarfullur Jesús lítur í náð til hennar, og lætur hana finna huggun og hjálpræði; hann gésur henni gudhrædda Konúnga fyrir fósturfedur, Es. 49. og góda forstjórnar-menn, já sjálfur er hann hennar hjálpari og Lausnari sem aldrei yfirgésur hana ad eilífu. Øll Guds børn og kristninnar andlegir limir meiga einninn vid mædunnar og mótlætis hlutskipti búast; þad er þeirra venjulegt vøggumein ad syrgja og gráta, þegar heimurinn er ad hlæja og dansa, Jóh. 16. en sú er þeirra ædsta unun, ad gánga med þolinmædi útí sína eymda orustu, og mæna uppá alblódugann og alsærdann Jesú sínum trúar- og bænar-augum, Ebr. 12. Sú er og svo þeirra æskilegasta huggun, ad mildur Jesús lítur til þeirra sínum medaumkunar augum, hann léttir undir þeirra mædu-byrdi med sínu miskunar hjálpræði; hann linar þeirra harma-bønd, já, leysir þau løksins aldeilis af þeim, og umgyrdir þau med eilífum dýrdar fridi og føgnudi, Psálm. 116.

O minn líknarfullasti Lausnari Jesú! Pad er mín æskilegasta hjartans gledi í øllum mínum eymdum, med mænandi trúar augum og útbreiddri bænar hendi,

ad halda mér nálægt að þér, Psálm. 73. og setja allt mitt traust til þín; því rammari ángistar beiskleika, sem eg finn í mínum krossi, þess líkkröptugri huggunar sætleika fæ eg að smacka af þínum blóðugum qvala krossi. Sérhvert það svídandi sár, sem þú barst á þínu helgasta holdi, er einn mjúkur miskunar plástur við blædandi ángurs-mein á minni harmþrúnginni samvitsku, því eg veit og vona, að þess meir sem eg hef af þinni pínu, því ríkuglegar verð eg fyrir þig huggaður, 2 Cor. 1. Midt í minni bæna ydju horfi eg glaður á þína helgustu pínu, því í gégnum þau blóðugu sárin, sem þú barst í qvölinni, treysti eg, að til minnar náð-þyrstrar sálar muni frammsljóta líssins straumar æskilegrar náðar og blessunar, að hvers eg bið Föðurinn í þínu nafni, það muni mér aumum vesæling náðarsamlega veitast, Jóh. 16. Á mínum medlætis- og gledi-tíma, sem mildur Guð lætur mér voludum þræl af miskun sinni optlega upprenna, hefi eg hjartans inndæli af því að horfa á þig, minn hábletsaði Jesú, frá hvers blessaðri örlætis hendi öll góð og fullkomin gjøf er að ofan til mín niðurstígandi, Jac. 1. Eg grátbæni þig, lát aldrei hjartað mitt hneygjast svo mjøg til fánýtrar fjár-ágyrndar, að eg þess vegna villist af þínum h. kross-vegi, eða brjóti af mér þína sáluhjálplegu krossins blessan. Vel undi Jónas sér forðum, undir þeim græna gras-lundi, sem bægdi frá honum bruna sólarinnar, og fríadi hann frá því, sem honum var mein að, Jón. 4. en øllu betur þykist eg aum sképna komin, undir þíns blessaða kross líknar-skjóli, minn ljúfasti Herra, því þar mun Guðs reidi-eldur mér aldrei granda, þar sit eg ó-

qvöldinn í öllum mínum eymdum, því að þú, Drottinn! ert mitt öruggt athvarf, Psálm. 91. Feiginn vil eg í vöku og svefni, í sess og sæti, sorg og gledi halda mér sem næst að þínum h. krossi, og horfa með gledi og guðrækni á þinn útbreidda blóð=faðm, svo leingi sem eg lifi; æ! lofaðu mér, Lausnarinn góði! í mínu andláti að sofna út af við þínar miskunar fætur, svo eg, þrællinn þinn, fái þá héðann í friði að fara, Amen.

## 38. Píslar=Pánki.

Um brýrlin sem Kristur leið á krossinum.

Enn þeir, sem þar géngu hjá, hæddu hann og sögðu: Þú sem niðurbrýtur Guðs musteri og uppbyggir það aptur á þremur dögum, hjálpa þú sjálfum þér, ef þú ert Guðs Sonur, þá stíg ofann híngað af krossinum. Líka svo spottuðu hann þeir æðstu Prestar og Öldúngar, og sögðu: öðrum hefur hann hjálpað, sjálfum sér getur hann ecki hjálpað. Ef hann er Kristur og Konúngur Israelis, stígi hann nú niður af krossinum, þá viljum vér trúa honum. Hann treysti Guði, hann frelsi hann nú, ef hann hefur lyst til hans, því að hann sagði: eg em Guðs Son.

Guð náði það og betri, eptir mikilli miskun sinni, að ecki er sú Satans samkunda enn nú aldeilis undir lok liðin, sem jafnvel á vorum dögum, með hæðni og spéskap géngur framm hjá Kristí krossi; og það gjöra allir þeir, sem nálægjast hinn krossfesta og blessaða Jesúm, einasta með munninum, og heidra hans pínu ecki nema með vörunum, en hjartað þeirra er þó örsnaudt af hans elsku, og afundið hans bless=

aða náðar vilja; þeir eð þykjast sjálfir réttlátir vera, en forsmá aðra; Lúk. 18. þeir eð vísvitandi ana framm á glæpanna gøtu, sem að lyktum leiðir þá annaðhvert til efasemi og ørvæntíngar um eilífa Guðs náð, eða annars vegar til þrjótsku og þverúðar í svikræði syndarinnar, Ebr. 3. Svoddann eru réttir spottarar og óvinir krossins Kristí, hverra æfilok verða, án efa, fordæmíngin, Phil. 3. nema Guð vilji meiri miskun á gjøra; en hann gjørir hana því að eins, að sá hinn óguðlegi láti af sínum vegi og illvirkinn af sinni hugsan, og snúi sér til Drottins, Es. 55. Eg fáráður synda þræll skríð svo sem framandi og útlendíngur, með mínum hjartans þaunkum að þínum blessaða krossi, ó minn ljúfasti Lausnari Jesú! Lofaðu mér að gánga nockuð nær, og upplýs mín hugskots augu með þíns heilaga Anda náðar ljósi, svo eg fái réttilega skilið, þér til lofs, en mér til huggunar, hvers vegna, þú hábleſsaði dýrðarinnar Konúngur! hefur svo háðugligt spott og spé liðið. Æ! eg meðkénni, Lausnari minn, að það háð sem þú saklaus leiðst, átti eg með øllum rétti skilið. Eg hefi niðurbrotið og fordjarfað Guðs musteri, sem átti að vera hjartað mitt, helgað og vígt í skírninni honum til íbúðar, 2 Cór. 6. En æ hvað hørmulega er þetta Guðs hús, fyrir mína vönda vanrækt, orðið svo sem að ræníngja bæli, hvar inni mín fordjørfuð holds náttúra er daglega sínar syndsamlegar gyrndir að rækja, Róm. 13. Þetta hef eg lofáð á þremur døgum, eður með þrennu móti nefnilega: með ydran, trú og yfirbót, að lagfæra; en Guð minn góður vægi veikleika mínum, og náði blessaður best mína forsómun, hversu lítil raun og frammqvæmd hefur í þessu viljað

fyrir mér verda; viljann hefi eg ad sönnu, en ad fullkomna þad góda finn eg ecki, Róm 7. Ydranin er köld, trúin þykist fullörugg í medlætinu, en veiklast og bilast vonum brádara í mótlætinu, og yfirbótin mín vill laungum verda ávaxtarlítil, vidlíka og visid tré, á hverju eckért er nema fánít hræsninnar blöd ad finna. Þetta mitt brysli hefur blessadur Jesús borid mér til nádarfullrar afsökunar; þessa mína synda-sök hefur hann qvittad mér til gledilegrar forlíkunar. Ödrum lætst eg opt med hollum rádum hjálpa, og er næsta skarpskign ad sjá, jafnvel einn ávyrdíngar vagl í þeirra auga; en sjálfum mér hyrdi eg næsta lítt um ad hjálpa; mín líti er eg blindur ad þeckja, og næsta seinlátur glæpanna bjálka úr mínu auga ad draga, Lúk. 6. Þetta átti og mátti vera mér orsök til eilífrar hádúngar; en blessadur Jesús vildi mín vegna brysllyrdin lída, svo mitt böl mætti grædast, mín hádúng burttakast, og mér skyldi í hans nafni heidur og vegsemd veitast fyrir míns Guds nádar augliti. Þú varst, Lausnari minn, med sárlegum hádúngar ordum áreittur í þínu andliti, svo mín sál skyldi huggud verda med þínu nádar og fridar ávarpi á minni dauda stundu; þú varst einn af öllum hæddur og spjadur, ó! allir skyldu fyrir þig einann frelsast frá allri hádúng, og enginn, sem á þitt blessada nafn trúir, skuli med skömm fortapast, heldur hreppa eilíft líf, Jóh. 3. og eilífann heidur í himneskri dýrd og sælu.

Hvenær sem hinn hreckvísi heimur eikur mér hugmód og hjartans ángur med sínu hádi og spotti, þá vil eg feginn flýa ad þínum krossi, og ecki med nockri ópolinmædi framm hjá gánga, heldur umbera med hlýdugu hjarta veraldarinnar adkast og óblídu, lítandi

til þín, minn líknarfulli Herra, svo eg þreytist ecki né uppgéfist í minni armœdu, Ebr. 12. Ráð þú því best, sem ríkur ert af miskun, hvað mikið eg skal líða í heiminum, það er mér nóg, að eg veit að mitt verdkaup, út af einskærri náð, en eingri minni verdskuldan, er og mun verða nóglegt í himninum, Matth. 5. Þú varst, Drottinu minn, með beigðum knjám af guðlausum þrælum spottaður, þá þú varst øllum til miskunar staddur í qvølinni; verdugur ert þú því, þú blessaða lambið Guðs, af øllum Englum og mønnum bæði á himni og jørdu, að meðtaka háleita æru, eilífann príss og auðmjúkustu ástar lofgjørð, þar sem þú lifir nú og ljómar í dýrðinni; eg þinn aumasti og óverdugasti þjón sem enn nú þreyi í mínu volædi, og þrái eptir ockar gledi fundum í þinni sælu, vil feginn, með lítillátustu lotníngu andar og líkama, lofa þig svo leingi sem eg lifi og þér minn Guð lofsýngja meðann það eg em hér, Amen.

## 39. Písslar-Þánki.
### Um Ræníngjans ydran.

En einn af þeim spillvirkjum, sem heingdir voru, lastaði hann og sagdi; ef þú ert Kristur frelsa sjálfann þig og ockur. Þá svaraði hinn annar, straffaði hann og sagdi: og þú hrædist ei heldur Guð, sem ert þó í eins fordæmíngu! að sønnu skér ockur þetta réttilega, því við meðtøkum hvað ockar gjørdir voru verdar, en þessi hefur eckért ósǩickanlegt gjørt. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn! minnstú mín, þá þú kémur í ríki þitt.

Af dæmi þess eina Ræníngjans, sem ecki skipadist

betur enn svo, við velforþéntá refsíng sinná glæpa, að hann lastaði og hæddi hinn saklausa og sannheilaga Jesúm á krossinum, mátt þú, sála mín, sjá og skoða, hversu aumkúnarlega mannskêpnan forherðist af sviksæði syndarinnar; þegar hún auðmýkir ecki sitt hjarta né lætur að sínu vondu athæfi, þótt Guðs hønd hirti hana og slái vegna hennar mikillra misgjørða, og fyrir hennar sterkra synda sakir, Jer. 30. Varðveit mig, Drottinn minn, frá svoddan vondri blindni og voðelflegum sálar háska! Þegar þér þóknast að aga mitt óstýriláta hold með vendi þinnar føðurlegu hirtíngar, styrk mig þá og stjórna mér, að eg með heitum ydrunar tárum og auðmjúkum trúar andvørpunum, flýi til þess fagra há = tróns þinnar miskunar, Ebr. 5. svo eg finni hjá þér náð og vægð, hjálp og huggun í øllu mínu synda = og sorga = bøli.

Af dæmi hins annars Ræníngjans skulum við, sála mín, guðrækilega læra og athuga, að þótt hann að undanførnu lifði illa og óguðlega, þá var það blessuð bót í hans máli, að hann, meðan náðar tíminn var, yðraðist vel og guðrækilega. Hann játaði ysirdrepskaparlaust illgjørðir sínar, auglýsti, að hann hefði andstygð á þeim, og veitti merkilegar ávítur sínum guðlausa stall = bróður, með þeim ágjætu auðmýktar orðum, að þeir meðtæki forþént laun sinna vondu verka; hann flýði með forundrunar verðu trúnaðar=trausti á Frelsaráns Jesú náðir, er hann án efa vonað hefur, að bæði hefði mikið vald og líka miskunarríkann vilja til að líkna sinni sálu og leiða hana úr qvølunum inn í eilífa himnanna gleði; hann bað þess einasta með blygðun og trega, að Drottinn vildi

minnast sín, og trúdi ad þad mundi sinni aumu sálu ad gódu nádar athvarfi verdá; og var þad ecki ad undra, þótt afgrunn miskunarinnar opnadi sig til ad svala svo nádþyrstri sálu. O! sjá hér med gledi, sála mín, hversu ómetanleg er gjædska Drottins, ad hann lætur sig nádugann finna af øllum þeim sem af hjarta snúa sér til hans, Sýr. 17.

Leingi ádur høfdu bædi Gydíngar og heidíngar med hrópi og háreisti hædt, lastad og áklagad Lausnarann á krossinum, og þó upplauk ecki hid ljúfasta Guds lamb sínum munni hverki þeim til ámælis né sér til afsøkunar, en strax sem þessi ydrandi syndari hafdi talad eitt ord, opnadi hann sínar ástúdlegu varir honum til æskilegrar gledi og eilífrar sáluhjálpar. O! hvad skjært skín hér fyrir augum mínum þín heitasta hjarta gædska, minn himneski Lausnari Jesú! þú qvartadir eckert yfir þinni sáru-pínu, en létst þitt miskunar hjarta bresta í sundur yfir sálar neyd þessa stórglæpa manns. Þú sýndir honum mestu miskun, þótt þú finndir sjálfur enga medaumkun; eins veit eg og vona, ad þú eilífa gædskan ert enn þá sinnud bædi vid mig og adrar syndugar sképnur, því ecki má uppspretta þinnar eilífu nádar þorna, og aldrei munt þú forgleima miskunsamur ad vera, né þína nád fyrir reidi ad innilykja fyrir nockrum ydrandi syndara, Psálm. 77. Þessi illvirki hafdi allann sinn aldur alid ad undanførnu í hinum verstu glæpum, og allt fram í daudann geingid á gløtunarinnar veigi; en allt fyrir þad vildir þú, Drottinn minn, þó ecki spirna hans ydrandi sálu af fótskør þinnar miskunar; þú mintist ecki á hans yfirtrodslur honum til ógnarlegrar for-

dæmíngar, heldur mintist þú þinnar miklu miskunar, honum til synda bótar og eilífrar huggunar. Hann hafdi forþénad óbærilegar qvalir í helvíti; þú hétst honum ómælanlegri dýrd og sælu í himnaríki.

O! gjæt þessa dírmæta dæmis, sála mín, og gleymdu því aldrei, gjæt þess seigi eg med sannri gudrækni, fyrst þér til eilífrar gledi og ekunarlausrar trúarstyrkíngar. Pad sama Jesú miskunar hjarta, sem upplaukst fyrir þessum glæpa manni á hans dauda stundu, þad sama stendur enn þá opid fyrir øllum ydrandi syndurum, hversu svívirdilegir sem þeir vera kunna, og þad jafnvel midt í þeirra andláti. Aldrei er nockur hrein ydran of-sein fyrir Jesú nádar augliti. Hans gædska er ecki bundin vid nockurn stad edur tíma, hann stendur allann daginn vors lífs allt fram í þau sídustu andarslitur, med útbreiddar miskunar hendur, Es. 65. til ad meddeila nád og fyrirgéfníng øllum þeim sem réttilega þiggja vilja. Athuga þar nærst, sála mín, þetta dæmi, þér til alvarlegrar áminníngar; varastu ad undandraga þína ydran, sem þér er ætíd ómissandi, til þíns dauda dags, sem þér er ætíd óviss; freistadu aldrei Guds med andvaralausri glæpa ydju, eins og þér sé alltíd nógur tími til yfirbótar því þú veitst þó aldrei nær enn hann endast eilíflega fyrir øllum þeim, sem andvaralausir í syndunum sofa; þar fyrir, í dag medan þú heyrir raustina Drottins, þá forherd ecki þitt hjarta, Psálm. 95. O! minn elskulegasti Jesú! margar og stórar syndir hefi eg þér til stygdar, en mér til hegníngar framid; æ! vægdu mér, Drottinn minn, og géf mér krapt og nád, vilja og ástundan til sannrar ydrunar, sáluhjálplegrar trúar og gudrækilegrar lífern-

ísins betrunar. Þegar mínar syndir vilja ógna mér á mínum dauðadegi, æ! minstu mín þá, Drottinn minn, í þinni miskunsemi, og gef að eg frá allri qvøl og fordæmingu eilíflega leistur meigi á þínum miskunar ørmum sætlega héðan út af sofna, Amen.

## 40. Píslar-Þánki.

Priðja orðið Kristi á krossinum.

Og Jesús sagði til hans: Sannlega seigi eg þér, í dag skalt þú vera með mér í Paradís.

Allar túngur Eíngla og manna eru allt of málstyrðar og óorðríkar til að víðfrægja það og vegsama, svo sem verðugt er og vera byrjar, hvérsu líknarfullur og miskunsamur, þolinmóður og harla góðgjarn að Guð er; það fékk að reyna sá yðrandi ræníngi, sem með sínu vonda framferði allt fram í dauðann hafði forþénað eilífa helvítis pínu, en fékk samt að heyra af Frelsarans Jesú munni gledilegt fyrirheit um ófallvalta heim-von í eilífa himnaríkis dýrð og sælu: sannlega seigi eg þér, í dag skaltú vera með mér í Paradís. Merk hér af, sála mín, með gudrækilegri eptirtekt þá yfirvættis miklu Drottins náð, að hinn réttláti Guð, sem stiggður og móðgaður er með syndinni, lætur sig blíðka og friðstilla með yðraninni; þótt hann, eptir sínu stránga réttlæti, vilji straffa og hefna, þá fær yðrandi syndarans sála frið og fyrirgéfníng fyrir hans náðar augliti að finna. Það banvæna orma bit, með hvørju sú bølvaða synd plagar samvitskuna að særa og græta, megnar sú blessaða yðran krøptuglega að græða og bæta, hún verkar gledi

og hjálpræði sorgfullri syndarans sálu, 2. Cor. 7. hún er sætt sælgætis og gleði vín heilögum Drottins englum, Lúc. 15. Ein audmjúk bæn, sem ydrandi sál framflytur fyrir gædskuríkann Gud í himninum, hún er dýrmæt, þægileg og mikils metin fyrir hans miskunar augliti; hún er gódur erindisreki, sem aldrei fer sínjandi frá ná-tróni miskunarinnar, Ebr. 5. Þunnt er módur eyrad hins mildiríka Jesú, ad heyra hennar qvein-stafi, og þad jafnvel ádur enn hún fer, og midt í því hún er til hans ad hrópa, Es. 65. Líka sem Móses fyrir Guds almættis krapt, fékk med sínum staf útleidt sætt svala-vatn af hellusteininum í Hóreb, 2. Mós. b. 17. svo fær ein nádþyrst sál med audmjúku ydrunar andvarpi nád guddómlegum lífs og líknar-straumum af Jesú miskunar hjarta, sem er hennar himnesk hjálpræðis hella, 1. Cor. 10. hvar af hún í øllum ángistar þorsta uppeys med føgnudi nádar og blessunar vatn, sér til tímanlegrar og eilífrar svølunar.

O! minn sætasti Lausnari, eg játa og medkénni fyrir þér mínar mørgu og stóru syndir, og ad mér er þeirra vegna eingu betur varid fyrir augliti þínu, en þessum stór-brota manni, ef þú vilt gánga í réttlætis dóm vid mig; þess vegna skríd eg glæpafull ad þínum heilaga kross med heitum bænar tárum og hjartans andvarpi; lofadu mér synda þjádum og sorg-mæddum vesælíngi ad njóta hvíldar og hjúkrunar í þínum útbreidda líknar fadmi; þú ert mér fyrir hugskots augum afmáladur als-nakinn, alblódugur og alsærdur á krossinum hángandi; þad er sálu minni eilíf huggun og harma-bót, því mér til miskunar hefur þú svo beiskar qvalir lidid, mér til

lækníngar svo svídandi sár feingid, mér til hreinsunar og himneskrar blessunar þínu dírmæta blódi úthellt; æ, géf ad øll þín beiska pína hríni á mér til æskilegasta fagnadar! þú ert nú, Drottinn minn, frá øllum qvølum eilíflega burt numinn, og inngeinginn med guddómlegri vegsemd í þitt dýrdar ríki í himninum. Virdstu á hvørjum morgni í mildi og miskun ad segja til mín: Í dag er þitt hold í heiminum, en hjartad skal vera hjá mér í himninum, svo ad eg gési þér mitt hjarta til vægdar og líknar, Jer. 31. en þú géfir mér þitt hjarta til hlýdni og þócknunar, Ordsk. b. 23. Eg vil feginn á sérhvørjum morgni andvarpa aptur á mót til þín, Drottinn minn, og bera mig ad í þínum krapti, ad haga svo framferdi mínu, ad eingin hlutur fái mig frá þínum kærleika skilid, og eg megi jafnan med þolinmædi og gódum verkum standa eptir þínu eilífa dýrdar ríki, Róm. 2. Sérdeilis virdstu, ó Jesú, ad láta þinn himneskann nádar anda, á minni andláts stundu, prédika þessi huggunarfullu ord í mínu hjarta: Í dag skallt þú vera med mér í Paradís: þar sem eg er, þar skalt þú minn þénari, innan skamms frá øllum eymdum leistur, í æfarandi dýrd og gledi eilíflega vera, Jóh. 12. Þú áttir, Drottinn minn, midt í þinni djúpustu nidurlægíngu, hin ædstu rád á, ad géfa þessum glæpa manni himnaríki. Ó! hvad gladur má eg þá taka í móti mínum dauda, í þeirri vissri von, ad þig muni nú í þinni dýrdarfullu upphafníngu hvørki vanta viljann né máttinn til ad frelsa mig, þinn auma vesælíng, frá øllu illu og hjálpa mér til þíns himneska dýrdar ríkis, 2 Tím. 4. Þar uppá vil eg óhræddur lifa og líka gladur deya. Drott-

inn minn, lát þau blessudu lífsins ord, sem þú taladir á þinni dauda stundu, vera mína huggun og hjartans gledi á mínum andláts deigi. Þegar mín mædda og mótlætta sál skilur vid minn vesælann líkama í daudanum, þá medtak hana, ó Herra, til þín í eilífann Pardísar fögnud, Amen.

## 41. Píslar = Þánki.

Fjórda ord Kristi á krossinum.

Og þad var nær um hina sjøttu stund, ad myrkur gjørdist yfir allt landid, allt til níundu stundar, og sólin misti sitt skin. Og um níundu stundu kalladi Jesús hárri røddu og sagdi: Elí, Elí, Lama Sabachtani. Hvad ed útleggst: Gud minn? Gud minn! hvar fyrir forlétst þú mig!

Heyrid þér himnar, og þú jørd hlusta med eyrunum, því Drottinn hann talar, seigir Spámadurinn heilagur Esajas, Kap. 1. þegar hann, undir persónu lifanda Guds, upphefur sína kløgunar raust yfir íllsku syndugra manna; lát þessi sømu Drottins anda ord uppvekja þig, mín sál! af vondum andvaraleysis svefni, svo þú med hjartanlegri andakt heyrir, og med gudrækilegri lotníng hlustir til, hvad Lausnari þinn Jesús hángandi á krossinum undir þinni og allrar veraldarinnar synda byrdi, kallar og hrópar med grátlegri qveinunar røddu seigjandi: Gud minn! Gud minn! hvar fyrir hefur þú yfirgéfid mig! enginn skyldi leida sér í hug, ad Lausnarinn hafi látid sér þessi ord um munn fara, annadhvert af efa nockrum, svo sem hefdi honum blessudum svo hriggilegar qvalir óvørum komid; því hans guddómlegri speki var alkunnugt allt

hvad yfir hann átti ad koma, Jób 18. Ecki heldur af nockrum heiptar hug vegna sinna herfilegu písla, því ecki kunnu þeirra brúsandi bilgjur ad sløckva þann blessada elskunnar eld, sem midt í hans bitrustu písl logadi hvad heitast í hans líknarfulla hjarta; og allra síst hefur Frelsarinn qvartad yfir qvølum sínum af nockri óþolinmædi; því svo dásamlega sem hann blessadur hafdi byrjad þad, svo fagurlega vildi hann nú einninn innan skamms fullkomna þad, ad gjørast sínum himneskum Fødur hlýdinn allt til daudans, já allt til krossins dauda, Phil. 2. Miklu framar hefur Drottinn med þessari sinni hrópandi kløgunar raust viljad hræra hjarta vort syndugra manna, til ad hugleida med alvarlegum ángurs trega, hversu óbærileg ad væri reidi Guds yfir syndum vorum, og hversu ógnarleg þeirra verdlaun, ad þar sem sá elskulegi Guds Sonur var svo hart plágadur søkum annarlegra synda, Es. 53. Þá skyldi hinn vondi þræll hugleida, hvad þúngum qvala høggum hann mundi hljóta ad sæta vegna sinna eigin glæpa, uppá þad ad sá hinn ógudlegi skyldi verda þess fúsari og fljótari til ad láta af sínum vonda vegi, og snúa sér til Drottins! Es. 55.

Í annann máta merk þú, mín sál! þá yfirnáttúrlegu sólarinnar formyrkvan, sem hér skédi í Jesú pínu; allt eins og þad blessada heimsins ljós blygdadist vid ad skína yfir þá óhæfu, ad hennar Skapari var svo herfilega qvalinn, og var hún þó eingin skuld í því, svo sem øllum er vitanlegt; ó! hversu mjøg ætti þá og mætti sú vesæla manneskja skammast sín, nær hún hugleidir og heyrir um þad talad, hvad þúnga qvalanna erfidismuni hún hefur gjørt sínum Drottni og

Lausnara með sínum syndum, og hvað ógnarlega mæðu aukið honum með sínum misgjørðum, Es. 43. Æví! minn ástúðlegasti Lausnari Jesú! maklega má eg veseell jarðar ormur láta bæði mín augu fljóta í heitum ángurs tárum vegna glæpa minna, fyrir hverra sakir þú varst svo hørmulega qvalinn; það játa eg liggjandi á þinni fótskør ydrandi og auðmjúkur: vertu, ó Guð! mér vesælum syndara líknsamur. Eg hefi allt til þess unnið með minni óbættri glæpa breytni, að útkastast í óp og tanna gnístran þeirra ytstu qvalanna myrkra, en yfir þig, Drottinn minn! hlutu þau dymmu píslanna myrkur að gánga, svo gledilegt ljós guðlegrar náðar og huggunar skyldi yfir mér upprenna. Með þeirri sorgar raust sem þú létst í svørtu myrkri af þér heyra, hefur þú hrópað mig inn í himnesk ann sælu og dýrðar ljóma, inn í þá nýu Jerúsalem, hvørja þín dýrð uppljómar, og þú lambið Guðs ert hennar ljós, Opinb. b. 22. hvar eg ásamt øllum þínum útvøldum mun skína svo sem ljós í þíns Føðurs eilífa dýrðar ríki, Matth. 13. og hrópa þar fagurt lofgjørðar Sanctus, og fagnaðar Hósíanna fyrir utan enda. Ó! hvað gott er til þeirrar gleði að hugsa, jafnvel þótt mér þyki laungum óskémtilegt að þreya í þessum dymma dal og dauðans skugga, hvar mirkur minna synda og sorga sortna svo mjøg fyrir augum sálar minnar, að hún sjer næsta daufa deilíng til þinna huggunar geisla, þú háblessaða réttlætis sólin, Mal. 4. Yfir þessu mínu bøli qveina eg og veina fyrir þínu náðar augliti; æ! heyr þú Drottinn! mína bæn, og hygg miskunsamlega að mínu hjartans hrópi, Psálm. 143. Feiginn vil og skal eg í þínu blessaða náðar nafni, og eptir þínu fegursta

dæmi, láta það vera mín fyrstu og fljótustu úrrædi í øllu mínu harma bøli, að upplipta mínu hjarta til þín, Guð minn! Guð minn! þú sem ert Faðir miskunsembanna og Guð allrar huggunar, 2 Cor. 1. Virðst þú náðarsamlega að huggá mig í allri minni hrigð, þegar myrkur syndanna byrgja fyrir mér sól gleðinnar, æ! snú þér þá til mín, Guð minn! Guð minn! og vertu miskunsamur þræli þínum, Psálm. 90.

Í þriðja máta merk þú, sála mín, þér til eilífrar huggunar, að Sonur Guðs var af sínum himneskum Føður yfirgéfinn miðt í sínu mesta ángistar qvalræði, svo þú skyldir aldrei verða yfirgéfin af guðlegri hjálp og miskun í nockru hrigðar eður harma bøli; gleym aldrei þinn Guð í Jesú nafni að óttast, elska og ákalla, þá mun hann, fyrir Jesú Kristi skuld, aldrei láta sína miskunsemi í burt frá þér víkja, og sáttmáli hans friðar yfir þér skal aldrei að eilífu forgleymður verða-né niðurfalla, Es. 54. Æ! minn gjæðskuríki Guð og Drottinn! virðstu fyrir þíns eingétins Sonar sáru qvøl að vægja mér og miskuna í lífi, dauða og dómi. Þegar ljósið minna augna formyrkvast og mér minkar málfærið í mínu andláti, minnstu þá, Drottinn minn! þessara þíns Sonar sáru qvala, og lýs minni sálu með føgru ljósi þinnar huggunar; hneig þá þitt miskunar eyra til minnar hjartans andvarpanar, og meðtak mína aumu sál í þínar náðar hendur til eilífrar dýrðar og gleði, Amen!

## 42. Píslar-Pánki.

Fimta orð Kristi á krossinum.

Þá Jesús vissi nú að allt var fullkomnað, og að skriftin yrði uppfylld, þá segir hann: mig þyrst-

ir: Þar stóð eitt kér fullt af ediki, jafnsnart hljóp einn af þeim til, og tók njarðar-vøtt og fyllti af ediki, og setti ofann á einn reir-legg, og gaf honum að drecka.

Líka sem vatn það, er Spámadurinn Ezichíel sá í anda fordum, reyndist honum því djúpara, sem hann var leiddur út í það lengra, þar til hann grinnti ecki lengur Ezich. 47. svo vyrdist mér líka, að ein gudhrædd sál megi falla í þess stærri forundran, sem hún hugleidir optar og heyrir lengur frá því sagt, hversu djúpt að Drottinn himnanna hefur lítilæckað sig hennar vegna; hversu sárar qvalir Konúngur dýrdarinnar Jesús hefur lidið henni til hjálpar og miskunar. Eda er það ecki ómælanlegt afgrunn Jesú ástar og náðar, mín sál? Er það ecki grunnlaus dypt audæfanna bædi vísdóms og gjædsku míns einka Endurlausnara? að hann, sem alls ráð á bædi á himni og jørdu, Matth. 28. hann sem sjálfur er eilíf og óþrjótandi lífs og líknar uppspretta, og gésur øllum náðþyrstum sálum það sætasta svala vatn, sem flýtur til eilífs lífs, Jóh. 4. Hann sem med sínum gjædskuríkum guddóms krapti snéri fordum daufu vatni í sættsmackandi vín, Jóh. 2. hann qvartar nú yfir því í sinni sáru qvøl, að sig þyrsti, en fécк þó ei annað enn súrt edik, að svala med sínu erþjáða hjarta. O! hvað heitt hefur Jesús elskað oss aumar manneskjur? Hversu ørbyrgur gjørdist hann af øllum jardneskum munum, svo hann audgadi oss med andlegum og eilífum blessunar gjædum, 2 Cor. 8. Ecki var Lausnarans guddómlegu almætti um megn, að snúa þessu súra ediki í sætt vín, til að lina sína qvøl og svala sínum sárþyrsta munni, hefdi honum bless-

udum svo þóknast; en því olli hans blessaða elska til vor aumra manna og hans blída hlýðni vid sinn himneska Födur, ad hann vildi eingann dropa eptirskilja í þeim fleytifulla qvalanna kaleik, sem fyrir hann var ásteinktur. Ádur hafdi Lausnarinn sannad þad med sínum blessudu almættis verkum, ad hann væri sannur Guds Sonur; nú vildi hann med sínum bitru píslum sýna, ad hann væri alls heimsins Endurlausnari, og þad sanna Guds lamb, sem bæri syndir veraldarinnar, Jóh. 1.

En hvílíkur mun nú þessi Lausnarans þorsti verid hafa, mín sál? Hann var fyrst líkamlegur og náttúrlegur, sem eptir öllum líkindum orsakadist af því stránga qvalanna erfidi, af hverju hinn trúlyndi Guds þjón var svo örþjádur, þreyttur og vanmegna ordinn, ad hans blessudu manndóms kraptar uppþornudu, svo sem vannur skurm, og hans túnga loddi af sárheitum þorsta vid hans góm, Psálm. 22. en fékk þó eckért sér til svölunar, nema súrt edik, honum til enn þá stærri qvalar. Þessi beiski dryckur var borinn ad Lausnarans daudþyrsta munni í qvölinni, svo brunnur hjálpræðisins med himneskum svölunar- og nádar-sætleika skyldi þess ríkuglegar útfljóta til minnar þyrstrar og þjádrar sálu af hans miskunar hjarta, þar sem hann lifir nú og ríkir í dýrdinni; hans óvina grimd vildi ecki unna honum hinnar minnstu svölunar; þess vegna veit eg og vona ad hans heita hjarta gjædiska muni ecki útskúfa mér nád-þyrstum vesælíng frá ferskum vötnum tímanlegrar og eilífrar gledi og blessunar. Hans háleita nafn sé lofad ad eilífu!

2) Var Lausnarans Jesú þorsti á krossinum andlegur og elsku heitur; hann þyrsti og lysti eptir

synda=qvittun og sáluhjálp allra manna, fyrir hverra sakir hann hafdi svo stórar qvalir lidid, og var nú reidubúinn ad leggja lífid þar ofan á. Svo sem hann hafdi hjartanlega lángad eptir því, ad lída qvalirnar, Lúk. 22, svo lángadi hann nú hvad hjartanlegast eptir því, ad allir mættu hafa eilíf nádar og blessunar not af hans qvølum; hann lángadi eptir því, ad allir þeir, hverra syndir hann bar, hverra straff hann leid, hverra sekt hann borgadi, mættu í saunri ydran sáluhjálplega á hann trúa, svo þeir fortøpudust ecki, heldur ad þeir hefdi eilíft líf, Jóh. 3. O! hvílíkt blygdunar= og ángurs=efni má þad vera fyrir ockur, sála mín, ad hugleida þetta; sjálfur Gud lætur sig lánga til ad sýna ockur nád og hjálprædi; en vid erum óþyrst eptir því, ad umfadma hans ást og mildi; hann þyrstir eptir því, ad fridþægja ockur og miskuna, en ockur lángar laungum til, ad drýgja þá glæpina, hvar med vid erum daglega, blessadann nádar ávøxt hans bitru qvala, af ockur ad brjóta. O! heyr þú í Guds nafni, sála mín, og hlusta til, hvad Lausnarinn Jesús enn nú í dag til þín talar segjandi: mig hefur þyrst í minni bitru qvøl, til ad endurleysa þig frá allri bølvan og eilífri fordæmíngu; mig þyrstir enn nú og lángar eptir þinni ydran og umvøndun, eptir þinni synda qvittun og eilífri sáluhjálp; hvar fyrir villt þú deya í þínum syndum? Eg hefi ecki þóknan á dauda hins ógudlega, segir Drottinn, þar fyrir snú þér og skalt þú lifa, Ezich. 18. Æ! eg áminni þig, sála mín, fyrir miskun Guds; kostadu alls kapps um, ad svala Jesú þorsta; bjód honum aldrei beyskann dryck elskulausrar hræsni og yfirdrepskapar; bjód honum daglega í hans eiginn

nádar nafni hreinann bikar heitra ydrunar tára og hjartans andvarpana; þad mun hans mildi ecki forsmá, heldur miskunsamlega medtaka. O minn líknarfullasti Lausnari! Í djúpustu audmýkt og undirgéfni vil eg þínu blessudu nádar ordi og ávarpi svara, segjandi: líka svo sem hjørtinn lángar eptir ferskū vatni, svo lángar sálu mína, þú lifandi Gud, eptir þinni nád og hugsvølun, Psálm. 42. Eckért er þad í eigu minni, Drottinn minn! sem eg megi voga ad bjóda þér til þócknúnar, nema fá tár, og þó allt ofkøld; einlægt trúar-traust, en þó allt ofveikt og vesælt; medtak þad, ó Herra! í miskun þinni og lát mig, þinn aumasta vesæling, finna nád fyrir þínu augliti. Eg prísa hjartanlega þína grunnlausu elsku, sem hefur svo miklu kostad uppá mína endurlausn; eg gledst fagurlega af þínu nádar hjálprædi, ad þú hefur med þínum sárheita pínu-þorsta, leyst og frelsad sálu mína frá eilífum qvala-þorsta. Séf, ó Jesú! ad svo vel þetta, sem allt annad, er þú hefur mér til miskunar lidid, sé og verdi sálu minni frí-opin uppsprettа tímanlegrar og eilífrar blessunar og gledi, Amen.

## 43. Píslar-Pánki.

Sjøtta ord Krísti á krossinum.

Enn er Jesús hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann: Þad er fullkomnad.

Svo sem þetta blessada ord, er Lausnarinn Jesús taladi í sjøtta sinni á krossinum, má med øllum rétti reiknast þad allra gledilegasta ord, sem heyrist af Frelsarans munni í hans pínu; þad allra vigtugasta ord, sem finnst í þeirri H. Biblíu; þad allra dýrmæt-

ásta og lífkrøptugasta orð, sem nockurn tíma hefur talað verið, já, svoddan orð, um hvert það má með øllum rétti segjast sérdeilislega, sem Drottinn Jesús vitnar um øll sín blessuðu orð almennilega, að þau eru andi, og þau eru líf, Jóh. 6. þau eru kraptur Guðs til eilífrar sáluhjálpar øllum þeim, sem þar á trúa, Róm. 1. Svo skulum við nú, sála mín! með hjartanlegri andakt og guðrækilegri eptirtekt yfirvega þetta blessaða Jesú orð, og hvað Sonur Guðs meint hefur, er hann sagði: Það er fullkomnað.

Það er vitanlegt, mín sál, að almáttugur Guð útgaf forðum á fjallinu Sínaí sitt háleita og heilaga Løgmál, 2 Mós. 20. hvert hans býrðarfulla hátign með hinu strángasta réttlæti alvarlega skipar og býður øllum mønnum fullkomlegá að halda, og fyrir utan nockurn brest að uppfylla; það útheimtir algjørt réttlæti bæði hið innra í sálunni og útvortis á líkamanum; það krefur fullkomins heilagleika og heilags fullkomlegleika bæði í hugrenningum, orðum og áthøfnum; það býður að maður skuli, fyrir utann nockurn brest, yfirdrepskap edur ófullkomlegleika, elska Guð af øllu hjarta, allri sál og øllum mætti, og náúngann svo sem sjálfann sig, 5 Mós. b. 6. Hver sá sem þetta gæti að fullu og øllu leiti haldið, átti þar af að lifa, 3 Mós. 18. en øllum þeim, sem í hinu minnsta þar út af bryti, var hótað tímanlegri, andlegri og eilífri bølvan, 5 Mós. b. 27. Nú var það og er eldúngis ómøgulegt øllu syndugu holdi, síðan Adam braut, þessum heilaga Guðs réttlætis vilja í hinu allra minnsta lað fullnægja, hvers vegna synda-sekt allra manna varð hin óbærilegasta; því eptir Guðs óumbreytanlegum réttlætis vilja átti Løg-

málid algjørlega ad uppfyllast, eda, ad ødrum kosti, allt mannkynid eilíflega ad fortapast. Yfir þessa vora aumkunarleguslu eymd og neyd, leit hinn eilífi Guds Sonur Jesús sínum blessudu miskunar augum, og því lét hann sig fæda í þennann heim, og gjørdist Løgmálinu undirorpinn, svo hann frelsadi alla oss, sem undir Løgmálinu vorum, Gal. 4. Þessi Jesús hefur í vorn stad og vor vegna fullnægt Guds réttlæti, og goldid alla þá løgmálsins skyldu, sem vér áttum ad gjalda, med sínu flecklausa framferdi. Þessi Jesús hefur fridstillt Guds reidi, og borid alla þá løgmálsins bølvan, sem vér bera áttum, í sinni sáru pínu. Nú hafdi þad fyrirheitna qvinnunnar sædi sundurbrotid þess helvitska høggorms, djøfulsins, høfud, 1 Mós. b. 3. og undir eins gjørst forn og forlíkun fyrir allrar veraldarinnar syndir, 1 Jóh. 2. Nú hafdi Jesús leyst oss frá bølvan løgmálsins, þar hann vard bølvan fyrir oss, svo vér í honum blessadir yrdum, Gal. 3. Nú hafdi Gud gjørt sinn Son ad synd fyrir oss, þar hann vissi þó ecki af synd, svo vér yrdum í honum þad réttlæti, sem fyrir Gudi gyldir, 2 Cor. 5. Þetta auglýsir nú hinn mikli mannanna elskari mildiríkur Jesús fullkomlega framqvæmt og farsællega fullkomnad vera. Gled þig því, sála mín, hjartanlega í hábleßudum Jesú heilsugjafara þínum, sem svo huggunarsamlega hefur á krossinum til þín talad, segjandi: Þad er fullkomnad. Fyrir þig er løgmálsins hlýdni fullkomlega goldin; frá þér er løgmálsins bølván fullkomlega burttekin, þér til handa er fullkomin nád, synda qvittun og sáluhjálp afrekud og feingin. Allir Gamla Testamentisins spádómar, sem hljóda uppá þína ei-

lífa endurlausn, eru nú fullkomlega framkomnir. Öll Guðs náðar fyrirheit skulu þér nú til ævarandi og æskileguſtu blessunar verða fullkomið já og óbrygðanlegt Amen, 2 Cor. 1. Öllu þessu vildi Lausnari þinn Jesús, mín sál! opinberlega yfirlýsa í sinni bitru qvöl á krossinum hángandi, og hartnær kominn að dauða, til að ávísa þar með, að öll sín blessuð forþénusta og fullnægjugjörð skyldi vera mér lífkröptug huggun í öllum mínum eymdum, og það fegursta gleði-ljós í mínu andláti. Eilíflega lofaður sért þú, Lausnari minn! fyrir svo æskilega blessan, sem þú hefur mér afrekað; lát guðdómlegann krapt þíns fegursta fullkomlegleika vera blíða náðar-bót og fullkomna friðþæging fyrir alla mína bresti og margfaldann ófullkomlegleika. Þú hefur allt fullkomnað mér til endurlausnar og eilífrar sáluhjálpar; styrk mig og stjórna mér, Drottinn minn! að eg í þínum ótta fullkomni mitt hlaup með fagnaði, þínu blessaða nafni til lofs og þócknunar og megi svo behalda trúnni og góðri samvitsku allt til æfiloka, 2 Tím. 4. Lát þetta þitt fagnaðarríkasta lífsins orð á þinni dauða stundu, styrkja mína veiku trú, hughreysta mitt hrædda hjarta, og gleðja mína sorgmæddu sálu á mínum andláts degi; drópi þá þitt fullkomna forþénustu réttlæti náð, qvittun og friðþæging á móti mínu fordæmanlegu synda ránglæti, svo eg fullkominn og eilífann dýrðar fögnuð megi hjá þér hljóta, Amen.

## 44. Píslar-Þánki.

Sjöunda orð Kristí á krossinum.

Og Jesús kallaði upp hárri röddu í annað sinn og sagði: Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda.

Sá sem vill fá farsællega að deya, hann skal kosta alls kapps um guðrækilega að lifa; hver sem lifir í krapti Jesú forþénustu réttlátur fyrir Drottni, hann deyr einninn í Jesú nafni eilíflega sæll og blessaður í sínum Guði, Opinb. b. 14. Þetta ætti að uppørfa sérhvern kristinn mann til að hafa sem optast í huga og minni blóðugann Jesú krossins dauða, og sérdeilis þau blessuðu orð, er hann talaði undir sitt signaða andlát, því þar inni finnum vér bæði lagðann hinn beinasta veg til að lifa heiløgu Guðs barna lífi, og líka gefið það besta meðal til að deya réttlátra manna dauða: Faðir! í þínar hendur fel eg minn Anda.

Af þessa sjøunda og síðarsta Lausnarans Jesú lífsins orði á hans dauða-stundu, skallt þú, kristinn maður, með sannri guðdrækni sjá, læra og yfirvega. 1) Að Frelsarinn bæði byrjaði sína bitru qvøl í grasgarðinum, og endaði líka sitt blessaða líf á krossinum með því að ávarpa Guð með því elskufulla og gleðilega Føður nafni, viljandi þar með kenna þér, kristinn maður, að þú í allskonar uppáfallandi mannraunum, og einkum í hinni síðustu dauðans neyð, látir það vera þín hellstu og gleðileguſtu úrræði, að upphefja þín trúar og bænar augu í himininn til þess mikla mykunsemdanna Føðurs og mildasta Guðs allrar huggunar, sem bæði hefur viljann og líka máttinn, til að hugga þig í allri þinni hrygð, að bjarga þér í øllum þínum bágindum, á hvers líknar náðir þú mátt flýa með øruggu trúar trausti, og nefna hann þinn gjæðskuríkann Føður, því Jesús hefur gefið þér makt Guðs barn að vera, Jóh. 1. Jesús blygðast ekki við að

kalla sig þinn bródur, Ebr. 2. og nefna sinn himn-eskann Fødur líka einninn þinn Fødur, Jóh. 20. Þóckníst nú þessum þínum háblessada hjartans Fød-ur ad leggja þér krossinn á herdar, þá lát þad vera þér eilífa huggun, ad ef þú ber hann med ydrandi audmjúku og þolinmódu hjarta, þá frambýdur Gud sig þér svo sem barni, Ebr. 12. þá máttu vera viss-astur um gjædskurikt Guds faderni og þinn gledileg-ann barnarétt, já, líka sem Fadirinn er børnunum líknsamur, eins þá vill Drottinn føðurlega misskun og medaumkan sýna, føðurlega hjálp og hugsvølun senda bædi þér og øllum sínum naudlídandi barna-sképnum, Psálm. 103.

2) Sýnir þér þessi blessada Lausnarans andláts bæn, ad sálin er ódaudlegur andi, sem enginn kann lífi ad svipta, þó líkaminn hljóti andvana og ad køldum ná ad verda, Matth. 10. Eckért rád gjørdi Lausn-arinn fyrir greftran síns h. líkama, en sinni bless-udu sálu sá hann besta farborda. Lær þad af Drottni þínum, ó madur! ad þú fyrir eingann jardneskann mun gleymir eda vanrækir ad búa svo med þolin-mædi og gódum verkum í veg fyrir sálu þína, ad henni sé í fridi og vingan Drottins tímanlega og ei-lífflega vel borgid; gjæt þess, ad allir jardneskir mun-ir eru svo sem fánýtt hey og fallvaltur hégómi, Es. 40. sem ad eingu verdur í daudanum, en þín ódaud-lega sál skal búa ad því eilíflega, hverninn þú hefur sjed fyrir hennar rádi hér tímanlega; lát því bless-ada andláts bæn Lausnara þíns kénna þér, kristinn madur, .

3) Hvar þú bædi átt og kannt ad sjá sálunni fyr-ir óhættum samastad og øruggu athvarfi, nefnilega:

í náðar og verndar höndum þíns himneska Guðs og Föðurs: Faðir! í þínar hendur fel eg minn Anda. En þess ber þér vandlega að gæta, að ef þú villt að sálin þín eigi víðann æskilegann hvíldar og sælu samastað í Guðs hendi, þegar hún skilur við líkamann í dauðanum, þá sjá vel til, að hún með auðmjúkri hlýðni og heilagri þolinmæði liggi undir Guðs hendi, æ svo leingi sem hans líknarfullt lánglundar géð líður hana við líkamann samteyngda hér í heimi; lát þér, svo sem Guðs-börnum sómir, stjórna af Guðs náðar Anda, Róm. 8. Lát þig leiða af Guðs náðar hendi; lát þér undirvísa af Guðs náðar orði, og bevara það æ jafnan í þínu hjarta, svo þú syndgir ecki vísvitandi á móti Guði þínum, Psálm. 119. Þóknist Guðs hönd að hirta þig, þá hrind henni aldrei frá þér með nockri óþolinmæði, kyss heldur feiginn á hana með guðrækilegu umburðarlyndi, og lát þér gott þykja að falla í Guðs hendur, því hans miskunsemi er stór, 2 Sam. 24. Þegar mannleg hjálp bilar og brestur í heiminum, gleym þá ecki að mæna þínum trúar augum uppá máttuga og miskunarríka Guðs hönd í himninum, þótt hún leggi þér þúnga á herðar, þá vert viss um að hún styrkir þig best til að bera hann, Psálm. 68. Guðs miskunar hönd er engu síður töm á að græða enn særa, engu síður fljót til að létta af hörmúngunum, heldur enn að láta þær á detta eptir sínum náðar vilja, 1 Sam. 2. Minnst þess, bæði að byrja sérhvern dag æfi þinnar fyrst á morgnana, og líka að enda hann seinast á qvöldin, og það af hjarta og alvöru, með þessari dýrmætu Jesú andláts bæn; Faðir! í þínar hend-

ur fel eg minn Anda. Og nær þú þannig gudrækilega breytir, medan þér er unnt ad lifa, þá mátt þú vera þess fullviss, ad sálin þín mætir miskunarríkri adhjúkrun í þíns himneska Födurs nádar hendi, þegar þú átt ad deya, þar mun hún af allri mædu hægt hvílast, ad burtvikinni allri sorg fagurlega gledjast, og í eilífum dýrdar fögnudi fá ad sjá Gud augliti til auglitis, fyrir utan enda, 1 Cor. 13.

4) Er vel merkjandi, ad Sonur Guds Jesús útvaldi sína sídurstu andláts bæn af h. Ritníngu, og tók hana ordrétt af þess dýra Guds munns Davíds munni, Psálm. 31. Lær þad af þessu Lausnarans dæmi, kristinn madur, ad þú byggir aldrei bæn þína á því holdlega og forblindada hyggju-viti, bid ætíd í trúnni eptir blessadri Guds orda reglu, Jak. 5. bid í Jesú nafni og eptir hans blída nádar vilja, 1 Jóh. 5. Vér erum svo mjög af holdsins bernsku blindadir, ad vér vitum ecki hvers vér bidjum, Matth. 20. Leitum því í lífsins ordi Drottins ad þeim sanna vísdómi til ad bidja, svo Gudi meigi vel líka, Jak. 1. og vér fáum í Jesú nafni nádarsamlega bænheyrslu.

O! minn hjartans gjædskuríki Gud og Fadir, eg grátbæni þig í þíns eingetins Sonar, míns blessada bródurs Jesú, nádar nafni, vert þú mér nádugur, líknarfullur og miskunsamur Gud og Fadir, í lífi, dauda og dómi; mildirík hönd þinnar födurlegu forsjónar vardveiti mig frá þeim breida glæpa og glötunar vegi; almáttug hönd þinnar voldugu verndar og varatektar stydji mig og styrki á þeim þraungva lífsins og sáluhjálparinnar vegi, mjúk hönd þinnar guddómlegu hjálpar vægi og bjargi mér þá best, nær eg misst hef alla mannlega adstod. Á þína hyrtandi hönd

vil eg feginn kyssa med sonarlegri undirgéfni, virdst þú blessadur best ad álíta mína eymd í fedurlegri vægd og miskunsemi, Psálm. 25. Þín hjálpar hønd sé minn hlífdar skjøldur og mitt sigurvinningar sverd, í mínu sídarsta dauda strídi, þín Fødur hønd taki þá tíd minni aumu sálu, og innleidi hana til eilífs lífs, svo eg megi þá gladur hédan í fridi fara. Feginn vil eg med gudrækni geyma í minu hjarta þitt signada andláts ord, minn sætasti Jesú, sem þú taladir á krossinum; æ! lát þinn h. Anda minna mig á þá blessudu bæn, allra sídast þá eg skal deya í burt úr heiminum.

## 45. Píslar-Pánki.

Um andlát Kristí á krossinum.

Og sem hann hafdi þetta sagt, ad hneigdu høfdi, uppgaf hann sinn Anda.

Eckért ædra elsku-merki mátti hin eilífa gjædskan sýna oss syndugum mønnum; eingin addáanlegri edur ógrípanlegri dásemd kunni á himni edur jørdu til ad bera, heldur enn þessi, ad hann, sem er bædi Gud og madur í einni persónu, madurinn Jesús Kristur, 1. Tím. 2. hvør ed sjálfur er sannur Gud og þad eilífa lífid, Jóh. 5. Af Guds nád vid mannlegt kyn smackadi hann daudann øllu daudlegu mannkyni til líknar og lífgjafar, Ebr. 2. Gudleg sannindi eru þad ad vísu, sem S. Páll segir, Róm. 6. ad verdlaun syndarinnar sé daudinn; og med því syndin, sem er daudans broddur, 1 Cor. 15. hafdi sært og helstúngid bædi Adam og alla hans holdlega nidja, þá var sá daudadómur af Drottins stránga réttlæti eptir øllum maklegleikum yfir þeim uppsagdur, ad sérhvør, sem

syndgar, skuli visðulega deya, Ezech. 18. En svodd-an sakfellis dómur átti eingaunveiginn heima hjá þeim saklausa og sánnheilaga Jesú, hver ed án allrar saurg-unar var gétinn og fæddur, án allrar saurgunar lifdi og dó hinn fegursti ljómi Guds dýrdar, og rétt ímind hans guddómlegu veru, Ebr. 1. sá er aldeilis enga synd gjørdi, og ecki voru nockur svik fundin í hans munni, 1 Pet. 2. Hvar fyrir hefur þá hinn heilagi og trúi Guds þjón svo harda qvala og dauda refsíng lidid, hann sem þó aldrei til nockrar refsíngar unn-id hafdi? Drottins Andi leysir hvad ljósast úr þeirri spurníng, fyrir munn spámannsins Esajæ, C. 53. segjandi: ad fyrir vorra misgjørda sakir sé hann særd-ur, og fyrir vorra synda sakir lemstradur, því Drott-inn hafi kastad øllum vorum syndum uppá hann. O! sjá hér, mín sál, med hjartans gledi og gudræki-legri forundran, hvílíkann kjærleika Gud hefur haft til þín, 1 Jóh. 3. Jesús hefur saklaus í þinn stad straffid lidid, hann hefur sjálfviljugur þín vegna daud-ann smackad, svo þú sem hafdir til straffs og dauda unnid, skyldir í honum hafa lífid og fullkomna nádar nægd, Jóh. 3. O Herra Gud! hvad var madurinn þess, ad þú svo minntist hans, og mannsins barn, ad þú svo vitjadir þess? Psálm. 8. Eg var, vegna minnar yfirtrodslu og bodorda brots, sakfallinn fyrir álmáttugum Gudi, og hafdi forskuldad fyrir ógn daudans í eilífri ángistar og qvala þrælkan haldin ad vera, Ebr. 2. Løgmálid auglýsir minna synda verd-laun, Róm. 3. Verdlaun syndarinnar er daudinn Róm. 6. Eptir daudann kémur dómurinn, Ebr. 9. Dómurinn úrskurdar straffid, straffid varir um alla

eilífd, eilífdin, sem aldrei endast gjørir qvalirnar hvad ógnarlegastar og óbærilegastar.

Ef þad mætti segjast, ad løgmálid hefdi nockurn tíma mis-gád sín, þá hefur þad skéd hér alleinasta einusinni, þar ed þad felldi dóm yfir sinn eigin Drottinn og Herra svolátandi, ad sá skyldi vera bølvadur, sem á tré hángir, 5. Mós. b. 21. og í krapti þessa dóms dyrfdist daudinn ad vega ad sjálfu lífinu; en lofadur sé lífsins høfdínginn Jesús, sem svipti daudann sinni makt, en leiddi-í ljós lífid og ódaudlegleikann, 2 Tím. 1. Jesús hefur borgad þá sekt, sem løgmálid af mér heimti; Jesús hefur sundurbrotid þann brodd qvalanna, sem daudinn ad mér otadi, Jesús hefur deydt þann eilífa dauda, sem minni samvitsku ógnadi. Í krapti Jesú dauda er minn daudi fyrir Drottni dýrmætur, Psálm. 116. en mér kjærkominn og gledilegur; daudi, hvar er þinn broddur? helvíti hvar er þinn sigur? Gudi séu þackir, sem oss hefur sigurinn géfid fyrir Jesúm Kristum, 1 Cor. 15. Nú er daudinn ordinn øllum Guds børnum gledilegur inngángur til þess eilífa lífsins og æskilegur blessunar ábati, Phil. 1. Eckí nær nú daudans makt lengra yfir øllum Guds elskendum, heldur enn til ad skilja sál og líkama hvert frá ødru; líkaminn leggst med fridi í svefn-herbergi grafarinnar, Es. 56. en sálin verdur flutt med føgnudi í fagrann Abrahams fadm eilífrar sælu, Lúk. 16. O! minn líknarfulli Lausnari Jesú! lát guddómlegann nádar krapt þíns dýrmæta dauda drjúpa inn í mitt hjarta, mér til gudrækilegrar betrunar medan eg lifi; mér til eilífrar huggunar, þegar eg á ad deya! géf ad eg deyddur frá syndinni, ástundi ad lifa Gudi, Róm. 6. svo eg vid Gud frid-

þægdur, sé og verdi hans bædi lífs og lídinn! Þú hneigdir þitt blessada höfud á krossinum í þínu andláti, hneig þitt hjarta til ad miskuna mér á minni dauda stundu; géf ad eg sem optast gudrækilega hugleidi og kunngjöri þinn dauda medan eg lifi, svo eg med gledi megi upplifta mínum augum í himininn til þín, og fá ad sjá himneskann ljóma þinnar dýrdar, þegar eg á ad deya; æ! virdst þú, Drottinn minn! fyrir þinn dýrann dauda, ad géfa mér gódann, gledilegann og farsælann dauda; lát mitt hold med fridi hvíla sætlega í gröfinni; leid mína sál úr öllum eymdum, og lofadu henni ad njóta eilífs fridar og fagnadar í þínu himneska dýrdar ríki, Amen!

## 46. Píslar-Þánki.

Um teiknin, sem skédu í Kristí andláti.

Og sjá, ad tjaldid Musterisins rifnadi sundur í tvo parta frá ofanverdu allt nidur í gégnum, og jördin skalf, og björgin klofnudu, og grafirnar lukust upp, og margir líkamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu og geingu eptir hans upprisu í þá h. borg og auglýstust þar mörgum. En höfuds madurinn, og þeir, sem med honum voru ad vardveita Jesúm, þá þeir sáu jardskjálftann og þad, hvad þar gjördist, urdu þeir mjög óttaslegnir og sögdu: sannlega var þessi Guds Sonur.

Þad er ecki skéd af nockri óvissri hendíngu, heldur almættisríkri Drottins rádstöfun, ad svo dásemdar og forundrunarfull jardteikn skédu í Jesú dauda; látum ockur, mín sál! hyggja nockud framar þar ad med andakt og alvarlegri gudrækni, því þad er engu sídur

enn önnur Guðs verk uppteiknað, ockur til lærdóms og viðvörnnar, 1 Cor. 10.

1) Merkjum við, að jörðin hafi skolfið, og björgin klofnað í Jesú andláti, líka sem að vildu þau bera harm og meðaumkan yfir svo herfilegum qvölum og dauða síns Drottins og Skapara. O! Herra Guð! víst má þess syndugs manns hjarta vera harðara enn nockur steinn, sem heyrir rædt um Jesú bitru qvöl og krossins dauða, en viknar þó ekkert þar við, heldur skémtir sér aungu að síður við syndarinnar glaum og gjálífi veraldarinnar. Eða má það ecki þikja hinum stærstu undrum sæta, að sú þúnga jörð skalf og hristist, þau hörðu björg brustu og klofnuðu í Jesú dauða, hverjum þau voru þó í aungann máta ollandi; en sú vesæla manneskja, sem þó er mold og aska, hefur aunga ángurs tilfinníng vegna illgjörða sinna, fyrir hverra skuld Drottinn dýrðarinnar var svo herfilega krossfestur, og höfdíngi lífsins svo aumkunarlega deyddur, Post. G. B. 3. Hvörnin má svoddan hjarta, sem er harðara hverjum steini, og vill sér ecki umvenda, Jer. 5. hvernin má það hafa nockur náðar not af himneskum daggar-dropum Herrans Jesú pínu og dauða? minn Guð miskuni mér, og taki náðarsamlega burt frá mér stein-hjarta ógudlegs andvaraleysis og forherdíngar, en gefi mér kjötlegt hjarta sannrar auðmýktar, og guðrækilegrar yfirbótar! Ezech. 36.

2) Er það merkilegt, mín sál, að hið innra fortjald musterisins, sem var í milli þess heilaga, og allra helgasta, 2. Mós. B. 26 rifnaði sundur þegar Drottinn dó á krossinum, til að sýna þar með, 1) að nú skyldi til fulls endast og af takast lögmálsins fyrirmyndanir, hinn Levitiski kénnimannsskapur og kon-

úngleg stjórn Gydínga, sem allt voru skuggi og skíla þeirra himnesku nádar og blessunar gjæda, hver nú voru fyrir Lausnarans Jesú qvøl og dauda øllum mønnum auglýst, afrekud og frambodin til eilífrar misskunar og sáluhjálpar. Inn fyrir þetta for-tjald musterisins mátti einginn gánga inn í þad allra helgasta, nema sá ypparsti prestur einu sinni á ári, 3. Mós, b. 16. Þessi skíla rifnadi sundur í Jesú dauda, 2) til ad sýna, ad nú væri hriggileg hindran syndanna sektar og saurinda, sem bægdi oss daudlegum mønnum frá Drottins helgidómi, fyrir Jesú dauda, øldúngis úr vegi tekin, en øllum þeim, er þiggja vilja og kunna, frí-opin tilgángur, og hindrunarlaus blessunar vegur fyrst til hins andlega helgidóms þeirrar stridandi Guds kyrkju hér í heimi, hvar ed dýrdlegir hlutir Drottins nádar og blessunar verda í Guds borg Guds børnum predikadir og frambodnir, Psálm. 87. og ad sídurstu hafi Jesús med sínum dauda opnad øllum sínum trúudum elskendum fagra fridar-braut í gégnum daudann inn í eilífann dýrdar helgidóm hinnar sigri hrósandi Guds kristni í himninum, hvar ed vera mun gnótt fagnadarins, og gledilegt líferni til Guds hægri handar eilíflega, Psálm. 16.

3) Vitnar historian, ad fyrir guddómlegann líknar og lífgunar krapt Jesú dauda hafi grafirnar upplokist, og margir líkamir heilagra risid upp, til eins gledilegs merkis þar um, ad í Jesú dauda væri daudinn uppsvelgdur í sigur, og ad hann deyandi hefdi hvad best ordid allra sinna barna líf, og gjørt þeim daudann ad besta blessunar ábata. En þad er sérdeilis merkilegt, mín sál, ad þá hid fyrsta, þegar Jesús var upprisinn, opinberadust einnin þeir heiløgu Guds vinir,

sem í Drottins dauda höfdu endurlifnad, því hér gjörðist Guðs Sónur hinn fegursti frum-gródi þeirra framlidnu, 1. Cor. 15. og hefur svo þar med afrekad øllum sínum blessudum børnum sáluhjálplega endurlausn og sigur-ríka uppríſu úr grøfunum á sídasta deigi til eilífrar dýrdar og sælu á landi lifandi manna.

4) Auglíſtiſt hér guddómlegur dásemdar kraptur Jesú dauda á þeim heidna høfuds manni, og øllu því fólki sem horfdi á þessi furdanlegu stórmerki, og hlaut med hræddu hjarta og nagandi samvitsku ad játa Jesúm ad vera réttlátann og heilagann Guds Son, hverjum þeir høfdu þó skømmu ádur, svo sem hinum argasta glæpa manni, útskúfad, og næsta hraparlega ósſkad qvala og krossins dauda. Varast þú, ó madur! af þessu dæmi, ad rasa nockurn tíma fyrir ráð framm í athøfnum þínum og álíktunum, því margur gjørir þad skamma stund, sem hann má lengi ydrast eptir; høndla því jafnan í Guds ótta med skynsamlegri umþeinkíngu, svo þú ecki, sem djarfur dári, steipir þér í ángiſt og ólucku, Ordsq. 15. O! minn hjartkjærasti Lausnari Jesú! þú sem á krossinum deyandi umvendtir þeim heidna høfuds-manni til sannrar ydrunar, og þinnar sáluhjálplegu vidurkénníngar; virdst þú, Drottinn minn, sem nú ert í himninum eilíflega ríkjandi, ad skapa í mér hreint hjarta í sannri ydran og umvendan! virdstu ad efla med mér nýann stødugann anda í sáluhjálplegri trú, og gudrækilegri lifnadarins betran, svo eg bædi í lífi og dauda megi hjá þér frid og miskun finna, Amen.

# 47. Píslar-Þánki.

## Um Kristí kunníngja.

En allir hans kunníngjar stódu lángt frá, þar vóru og margar konur, sem sáu þar uppá álengdar, medal hverra var María Magdalena, og María hins litla Jacobs, og Jóses módir, og Salóme módir þeirra Zebedæí sona, þær honum høfdu eptirfylgt þá hann var í Galílæa, og þjónad honum, og margar adrar, hverjar med honum høfdu uppfarid til Jerúsalem úr Galílæa, og horfdu á þetta.

Jafnvel þótt einn tryggur og falslaus vinur sé sú besta eign, og hinn kostulegasti dýr-gripur sem finnast má hjá syndugum mønnum, Sýr. 6. þá er hann þó reyndar, eins og øll ønnur jardnesk gjædi, fallvaltur og fánýtur hégómi, Préd. 1. Einn trúfastur vinur er ad sønnu ørugg vernd alla þá stund, sem madur lifir, Sýr. 6. en nær hinn kaldi daudi kémur ad høndum, þá má einginn veraldar mannanna vinátta framar hjálpa; þá hljóta øll jardnesk lífsins og luckunnar gjædi, svo sem gufa, ad hjadna og hverfa í burtu, Jak. 4. Allir Lausnarans Jesú vinir og kunníngjar horfdu med harmandi hjarta og grátandi augum uppá hans blessada líkama allsnakinn, alsærdaun og audvana á krossinum hángandi, en gátu þó ecki adgjørt, né honum nockra hjálp audsýnt. Látum ockur, mín sál! af þessu dæmi, ockur til gudrækilegrar eptirtektar, læra og athuga:

1) Hversu fánýtt og fallvalt þad er, ad setja ofmikla von uppá veraldar mannanna vinfeingi og adstod, sem bregdst og bilar þá helst, nær mest áligg-

ur. Í aðþreyngjandi líffins eymdum kann að vísu eins vinar hönd náqvæma aðhjúkrun og hjálp að veita, en úr dauðans böndum megnar ecki einn bróðir annann að leysa, Psálm. 49. Þá er öll mannleg hjálp úti, og hlýtur með hrygð og harmi að láta við svo búið standa. Sjá því vel til, sála mín! að þú eigir gjæðskurikann Guð fyrir vin, því hans vinar hjarta vill þér aldrei gleyma; hans vinar hönd þér aldrei sleppa. Viljir þú, ó maður! í Drottins friði deya, þá kappkosta í hans vingan að lifa, vinn það aldrei fyrir veraldar mannanna fánýtt vinfeingi, að abla þér með vísvitandi glæpa ydju eilífrar og óbærilegrar Guðs óblíðu, haldtu með helgri trú og óhreinferðugu líferni hjartanlegann og hræsnislausann vinskap við þinn máttugasta og mildasta ástvin Jesúm, sem þig hefur elskað, og vill elska allt til enda, Jóh. 13. Elskaðu ecki heiminn, né nockuð það íllt og óguðlegt sem er í heiminum, 1 Jóh. 2. svo þú brjótir ecki af þér ást og náð þíns besta ástvinar Jesú í himninum; hans hönd hjálpar þér best, þegar öll mannleg hjálp er úti; hans hjarta elskar þig heitast, þegar öll heimsins elska má ecki leingur duga; þótt móðurin forgleymi sínu barni, svo hún sjái ecki aumur á afqvæmi síns qviðar, þá kann Jesús ecki, og vill ecki gleyma þér að eilífu, því þú ert teiknaður í hans höndum.

2) Lærum við það, sála mín! af þessu dæmi, að þeir sem Jesú voru hvað náteingdastir í elskunni, voru honum og hvað nálægastir í pínunni, og svo geingur það til enn nú í dag, að Krists börn eru kross börn; ef þú villt svo sem Jesú ástvin una þér við hans elsku í þínu hjarta, þá hlýtur þú svo sem Jesú Lærisveinn að bera hans kross með þolinmæði þér á herðum, Lúk.

14. og eru þad reyndar engvir ókostir, því undir eins og Jesús leggur á þig krossins þúnga, undir eins géfur hann þér styrk og krapta til ad bera hann, Psálm. 68. Svo mikid sem þú verdur undir Jesú kross-byrdi þjádur og þjakadur, svo kroptuglega verdur þú líka af Jesú nádarríku hjartagjæsku gladdur og endurnærdur, 2 Cor. 1.

3) Er vel merkjandi, ad jafnvel þó Jesú ástvinir hafi stadid nockud lángt frá hans krossi, hafa þeir þó allir sameiginlega haft fulla sjón á hans blódugu píslar-mind. O! komid í Drottins nafni, þér kristnar sálir! og lítid sem optast ydar andlegum trúar-bænar- og elsku-augum uppá ydar krossfesta og blessada Lausnara Jesúm; því hörmulegar sem ydar synda og sorga neyd særir og ángrar ydur, því kroptuglegar mun blessud og blódug Jesú píslar mind lækna og lífga ydar géd og sinni. Ef ad þér erud þjádar og þreyttar ordnar undir ydar þúngu synda og eymda byrdi, þá vitid ad Jesú svídandi sár er ydar hægasta hvíldar sæng, hans fossandi blód-dropar, ydar sætasta svala-lind; sjáid hversu hann bar ydar kránkdæmi og ydar pínum hlód hann uppá sig, Es. 53. svo hann bædi vildi og kynni þess miskunsamlegar ad hafa medaumkan med ydar eymdum, Ebr. 5. Sé ydar samvitska særd og kramin af syndanna tilfinníngu, ó! horfid þá beint á blessadann Jesú blód-fadm, þar finnid þér ydar fullkomna synda bót og sáluhjálplega nádar lækníngu; sjáid hvad þúngt ad hegníngin hefur á heilögum Jesú leigid, svo þér, sem af syndinni særdir erud, skyldud hafa fridinn, og fyrir hans benjar heilbrygdir verda, 1 Pet. 2. Sérhver medal Ísra-

els barna, sem leit þann uppfesta eyrorm í eyðimörkinni forðum, varð af eytruðu höggorma biti og brennandi plágu gleðilega læknaður, 4 Mós. b. 21. Hversu banvænt sem þitt synda sár kann að vera, þú ýðrandi sála, þá er þér handvís himnesk náðar lækning, þegar þú mænir augum auðmjúkrar trúar uppá þinn á krossinn festa Endurlausnara og sáluhjálpara Jesúm; þú munt ekki fortapast í þínum synda meinum, heldur finna himneska heilsubót og hreppa að lyktunum eilíft líf, Jóh. 3. Ó! minn elskulegasti Jesú, eg vesæll syndari, mæni nú, svo sem áleingdar og í fjarska verandi, minni hugskots sjón uppá þinn blessaða blóðfaðm, svo sem þú héckst forðum á krossinum, upplýs þú, Drottinn! mín döpru trúar og vonar augu, svo eg megi horfa á þitt miskunar hjarta og finna þar af líkn og lækning, þar sem þú situr nú í himninum, þegar eg sje mín rotnu synda kaun, þá svíður mínu hjarta með sárri áugurs tilfinníngu, æ! lofaðu mér, Lausnari minn, að líta í trúnni þín blóðugu píslar sár, svo eg megi finna þaraf blessaða meina bót og miskunar smurníngu, lát aldrei syndir mínar skilja svo lángt á milli mín og þín, að eg í mínu eymda böli, missi andlegrar sjónar á sárum þínum. Hjálpa mér til að heita og vera þinn vin og kunningi, minn Jesú, svo þó líf mitt og sál vanmegnist, meigi eg samt una mér við þína ást og mildi. Eg fel mig, með sálu og líkama, og alla mína, í vernd og skjól þinnar elsku og miskunar; lát mig í lífi og dauða finna þar inni öruggt náðar hæli, og ófallvalt líknar skjól, allt þar til eg fæ til fulls að una mér við þína elsku í eilífu lífi, og þú, minn Jesú! verður mér þar allt í öllu, Amen!

## 48. Píslar = Pánki.

Um Kristí Sídu = sár.

En Gydíngar med því þad var Adfánga dagurin svo ad líkamarnir væri ecki á krossinum um Sabbaths dagin (því sá sami Sabbaths dagur var mikill), þá bádu þeir Pílatum, ad þeirra bein britist og ósantækist. Þá komu Strídsmennirnir, og brutu sundur bein hins fyrsta, og svo þess annars, sem med honum vóru krossfestir. En þá þeir komu til Jesúm, og sáu ad hann var allareidu dáinn, þá brutu þeir ecki hans bein, heldur opnadi einn af Strídsmønnunum hans sídu med spjóti, og strax þá rann þar út blód og vatn. Og sá er þad hefur séd ber þar vitni um, og hans vitnisburdur er sannur, og hann sami veit þad ad hann seigir satt, svo ad þér og svo trúid. Þetta er skéd, svo ad Ritníngarnar uppfylldust: eigi skulud þér brjóta nockud hans bein. Og enn aptur seigir ønnur Ritning: þeir munu sjá hann, í hvørn þeir stúngu.

Í fyrstu meigum vid, sála mín, med gudrækilegri forundran rekja hér spor dýrdarfullrar Drottins speki og dásamlegrar rádstøfunar, sem ecki vildi lída heiptarfrekju hinna gudlausu Strídsmanna ad brjóta í sundur bein í andvana Lausnarans líkama, svo ad bædi skyldi fyrirmyndan Páska Lambsins, hvørs bein ecki mátti brjóta, 2. Mós. b. 12. og líka Spádómur Zachariæ, Cap. 12. um Lausnarans sídu = sár, augljóslega rætast og fagurlega uppfyllast. Þannin líta hin alskignu Drottins augu yfir þá réttlátu bædi lífs og lidna; hann ber mildiríka miskunar umhyggju jafnvel fyrir þeirra andvana líki, og líflausu bein=

um, svo þótt þau, eptir edli syndumspilltrar náttúru, verdi aptur ad moldu hvadan þau eru afkomin, þá forvarar þó Drottins nádar forsjón þau svo dásamlega ad eckért af þeim brotnar, eda øldúngis tortínist, Psálm. 34. Øll fá þau í fridi ad hvíla, þar til þau, med fagri dýrdar forkláran, skulu til eilífrar vegsemdar uppríſa og endurlifna, 1. Cor. 15. O! hvad gott og gledilegt er þad, fyrir Guds børn bædi deyandi og lifandi, ad falla í líknar hendur Drottins, 2. Sam. 24. Háleitlega lofud sé hans mikla miskun ad eilífu!

Í ødru lagi merkjum vid, sála mín, ad líka svo sem almáttugur Gud af sídu hins sofnada Adams í aldingardinum, dásamlega myndadi, og sídan gaf honum eina frída konu og fagra brúdi, hvørja hann af svefni aptur uppvaknadur, sæmdi med því veglega nafni, ad hún skyldi karlinna kallast, því hún væri af karlmanni komin, 1. Mós. b. 2. vidlíka virdist mér, ad hinn annar Adam, og háblessadur himnanna Drottinn Jesús, í sínu signada andláti á krossinum sofnadur, hafi af sínu opnada sídu-sári, og þadan útrunnu blódi og vatni, tilreidt sér dýrdlegann søfnud sinna heiløgu og blessudu barna, og trúlofad sér þau, svo sem andlega brúdi, í nád og miskun, í réttlæti og dómi, Os. 2. Og þá hann blessadur, af brennandi kjærleik til þessarar brúdur sinnar, hafdi nú dáid fyrir hennar syndir, upprísid, henni til réttlætis, Róm. 4. og var med guddómlegri hátign til himna uppfarin, féck hún þann ypparlega æru titil, ad nefnast Kristni eptir sínum blessada brúdguma Kristo, Post. G. b. 11.

Í þriðja máta má sjá hér og finna fagra merkíng þeirrar heilögu og blessuðu skírnar. Af Jesú síðu útrann blóð og vatn á krossinum; Í Jesú nafni, og af sinni einskjærri náð og miskun, gjörir Guð oss sáluhjálpna fyrir þá heilögu skírnar laug, Tít. 3. í hverri vér verdum ádreifðir því náttúrlega og jarðneska vatni, sem vor líkamans augu sjá, en þá undir eins fær vor andlega trúar sjón að líta, vor andlega trúar hönd að meðtaka guddómleganu blessunar krapt þess dýra Jesú blóðs, sem drýpur yfir oss, í og ásamt með skírnar vatninu, til að þvo oss af vorum syndum, og gjöra oss til andlegra konúnga og kénnimanna fyrir náðar augliti vors himneska Guðs og Föðurs, Op. b. 1.

Í fjórða máta viljum við, sála mín, með sannri guðrækni forlysta ockur enn framar með andlegri yfirvegun þess opnaða Jesú síðu sárs á krossinum. Maklega meigum við Sancti Thómam sælann prísa, sem sinni veikri trú til veglegrar styrkíngar, fékk leisi til að þreifa á Frelsarans Jesú sára örum, Jóh. 20. Æ! ecki munt þú heldur banna minni þjáðri sálu, minn blessaði Jesú! sínum döpru trúar augum á þau að horfa, mér til sáluhjálplegrar gleði og hjartans huggunar. Allann möttul síns heilaga líkama hafði Lausnarinn áður laugað í blóði, 1 Mós. b. 49. sem af öllum hans opnuðu sárum og sundurslakandi æðum útflóðu og streymdu til fullkominnar friðþægíngar öllu syndugu mannkyni; En svo eg mætti þess augljóslegar sjá og sanna míns Jesú elskuríka ástar þel til mín, þá vildi hann blessaður ecki heldur láta vera ósærðar sínar heilögu hjarta æðar, til gledilegs og óbrygðanlegs merkis þar um, að hans miskunar hjarta væri sundur brostið af meðaumkan yfir mér, Jer. 31.

Þar vóru fordum opnar dyr á einni sídu Nóæ arkar, inn um hverjar mildur Gud baud ad menn og sképnur skyldu gánga, til ad þiggja líf, lausn og frelsi af því yfirdynjandi ógnarlega vatns-flódi, 1. Mós. b. 7. Fyrir Drottins Jesú dýrmætt sídu sár er þér, sál mín, og øllum eymdum þjádum vesælíngum upplokn- ar fagrar lífsins og nádar dyr, innan hvørrá ockur verdur frá øllu reidi og neydar flódi nádarsamlega bjargad, og ad eilífu vel borgid; Jesús skýlir ockur med sínum miskunar fjødrum, og ockar athvarf er undir hans verndar vængjum, Ps. 91. Gledilegt hef- ur þad verid fyrir Nóa fordum, innilukttann í dymm- um skugga, og dynjandi vatns bylgjum umkríngdann, ad horfa gégnum Arkarinnar glugga upp til himins og vænta eptir sínu gledilegu frelsi, og fagri sólarinn- ar birtu, 1. Mós. b. 6. Þúsundsinnum gledilegra er þad fyrir mína syndanna myrkrum umkríngda, og af sorganna bylgjum hrakta sálu og samvitsku ad horfa gégnum opid Jesú sídu sár á krossinum inn í nádarljómandi elsku hjarta míns góda og gjædskuríka Guds og Fødurs í himninum; þar fæ eg med føgnudi ad líta, ad Drottinn er mitt ljós og minn heilsugjaf- ari midt í mínum hørmúngum, Psálm. 27. og mun loksins leida mig úr øllum eymda skugga og ángurs bilgjum inn í blessada sælu-høfn og bjart gledíljós eilífrar himnanna gledi.

Þad var mildiríkt Drottins dádsemdar-verk, ad þegar Móises sló med sínum staf á steininn í Hóreb, þá útflaut þadann nóglegt vatn, þjádum og þreyttum Ísraels børnum til heilnæmrar svølunar, 2. Mós. b. 17. Miklu stærra mildi-verk lifanda Guds skédi hér

í Jesú pínu, þar ed sá himneski Fadirinn hefur lostid síns eingétins Sonar hjarta med sínum reidi-sprota, og látid hans h. sídu med sverdi gégnum stínga, til þess, ad hinir sætustu lífs og blessunar-straumar skyldu þadan útfljóta øllum nád-þyrstum sálum til himneskrar svølunar og líkrøftugrar endurlausnar. Vid þennann frí-opna nádar-brunninn skal mín þyrsta og þjáda sál fegin þreya, þar mun Jesús géfa henni ad drecka lífsins vatn, sem í øllum hennar ángistar þorsta verdur henni brunnur sá, er flýtur til eilífs lífs, Jóh. 4. Í þessar signudu bjargskorur þess blessada Jesú sídu sárs, Lofqv. 2. skal mín skélfda samvitska sem optast flýa, þar mun Jesús vera hennar hjálpar-skjøldur, og nádarfull verndan frá øllu íllu. O! minn líknarfullasti Lausnari Jesú! þér er kunnugast hvørsu hersilega mitt hjarta er saurgad af syndarinnar endemi, hreinsa þú þad og helga, Drottinn minn, med þínu guddómlega hjarta-blódi! þú þeckir best hvørsu þjád og mædd mín sál er ordin undir eymdanna byrdi; eg grátbæni þig, ó Jesú! endurnær hana og lífga af þínum sætasta nádar-brunni! hjarta míns innstu ædar skulu þitt nádar nafn elska, vidfrægja og vegsama; hjarta þíns heiløgu blóds og vatns-straumar, virdist mína aumu sál ad hreinsa og hressa, græda, gledja og blessa! hjartans eilífar þackir og ódaudleg æra syngist þér og segist bædi á himni og jørdu, um tíma og endalausa eilífd, Amen.

## 49. Píslar-Þánki.

### Um Kristi greftran.

Þar eptir bad Jóseph af Arimathia (hver ed var Lærisveinn Jesú, þo heimuglegur fyrir ótta-

sakir við Gydínga) Pílatum um, að hann mætti taka niður líkamann Jesú, og Pílatus leyfði hon- um það; þá kom hann og tók niður líkamann Jesú. Þar kom og Nicodemus, sá eð fyrr kom um nótt til Jesúm, færandi samblandaða mirru við aloe nær hundrað punda. Þá tóku þeir líkamann Jesú og sveipuðu hann í líni með dirmætu salve, svo sem Gydínga siður er til að greftra. En þar í þeim stað, sem hann var krossfestur, var Grasgarður, og í grasgarðinum ný grøf, í hverja enginn hafði enn verið lagður. Þángað løgðu þeir Jesúm fyrir sakir aðfánga dagsins Gydínga, því að sú grøf var nærri.

Aðdáanlegt gleði og blessunar efni er það fyrir ock- ur, mín sál, að hugleiða Herrans Jesú heiðurlega greftran, því í þessum fagra aldingarði spretta marg- ar heilnæmar himna-jurtir sáluhjálplegra lærdóma, sem við skulum með guðrækni geyma.

1) Sjáum við hér við Jesú greftran þá guð- hræddu menn Jóseph og Nicodemum, sem áður voru heimuglegir Jesú Lærisveinar og þorðu ecki að láta sig opinberlega þar með merkja; en nú fá þeir nýjann dug og ódeiga djørfúng til að auglýsa fyrir øllum sitt ástar-þel til hins andvana Jesúm. Þannig vill hinn náðugi Guð ecki útslöckva þann lítt-logandi trú- ar hørqveik í hjarta sinna blessaðra barna, Es. 42. heldur nærir hann og lífgar himneskur náðar krapt- ur h. Anda, svo þar af qviknar fagurt trúar ljós, og yndislegur dygdauna ljómi bæði fyrir Guði og mønn- um, Matth. 5. Huggi sig við þetta veglega dæmi allir syndugir, en þó sannydrandi, allir veiktrúaðir,

en þó rétt-trúadir, allir hræddir, en þó gudlega hrigg-vir Drottins vesælíngar. Samur er Gud í sinni miskun ennþá, og hann hefur verid; grátbænum því hans nádar gjædsku, ad hann virdist ad styrkja vora veiku trú; nærum þetta dapra ljós med ydugleqri eptirtekt og yfirvegan Jesú líf-kroptugu orda, þá mun hann blessadur best fyrir þeim bidja, svo þeirra trú þrotni ecki, Lúk. 22. O minn gjædskuríkasti Jesú! veit mér veikum vesælíng krapt, eptir ríkdómi þinnar nádar, ad styrkjast fyrir þinn anda í sáluhjálplegri trú, og sannri hjartans ást til þín, sem opinberlega megi hjá mér sjást og auglýsast, þínu blessada nafni til dýrdar, en ødrum til góds eptirdæmis.

2) Má hér sjá og læra af sómasamlegri Lausnar-ans jardar-før, ad þad er enganneginn mildum Gudi á móti, ad hans framlidnum ástvinum sé veitt ærleg greftran, Sýr. 28. Guds andi helgar og prýdir allra réttkristinna manna líkami, svo sem sín dýrmæt musteri, med sinni nádarfullri íbúd á medan þeir lifa; því er þad vel verdugt, ad þeim sé med sóma og æru af þeim eptirlifandi veitt sú sídarsta þjónusta þegar þeir deya, þó med gódri stillíng og í Guds ótta, því óhóf-legar erfisdryckjur og annar hégómlegur heidíngja sidur ætti ecki ad nefnast, miklu sídur brúkast, medal vor kristinna manna, sem einkanlegast í svoddan er-indum, ætlum sjálfir ad gánga þúngbúnir med dauds-ans gudrækilega hugleidíng. Já, í hvert sinn, sem þú, kristinn madur, sjer nockurt andvana lík til síns sídarsta legstadar borid, þá skalt þú í Guds ótta hryggur vera, og hugsa til þess, ad svo sem sá sami þinn bródir hefur dáid, svo hlýtur þú einninn ad deya, Sýr. 38. Þegar þú sjer líkid látid ofan í jørdina, þá

íminda þér daudann í eyra þitt hvíslandi, ad ské megi þar sé varla eitt fótmál millum þín og hans, 2 Sam. 20. og þú egir fá spor eptir framm á grafar bakann. Bid því Gud med audmjúku hjarta, ad kénna þér, ad hugsa um þinn dauda og búast vid honum réttilega, Ps. 39. svo þú megir í Jesú nafni taka á móti honum gledilega. Virdst þú, minn gódi Jesú! fyrir þína heilogu jardan, ad blessa og farsæla mína sídustu útfør af þessum eymda dal; lát þá mitt andvana hold med æru í grøfina leggjast, en veit, ad sálin mín verdi innleidd í eilífann dýrdar frid og føgnud.

3) Sésst hér øllum oss daudlegum Drottins veglíngum ylmsæt huggun mót daudans ógn og beyskleika, þar ed Sonur Guds hefur látid sig greftra til heidurs og heillasømustu blessunar allra sinna ástvina sídurstu jardar-før. Jesú helgasta hold, sem lagt var í grøfina, hefur øllum hans helgudum børnum helgad jørdina og blessad hana, bædi medan þau lifa á henni, og líka þegar þau skulu látin leggjast í hennar skaut; hann hefur gjørt þeim grøfina ad gledilegu svefn-herbergi, moldina ad mjúkri sæng, hvar þeirra blessadur líkami, svo sem dýrmætt Drottins korn-sædi, skal í fridi geymast, þar til þad í uppprisu réttláttra endurlifnar til eilífrar gledi og inusafnast í bindini lifandi manna hjá Drottni Gudi sínum, 2. Sam. 25. Séf þú mér, minn gædskuríki Lausnari, gudrækilega ad lifa, svo eg megi gledilega deya! géf mér svo gledilega ad deya, ad eg í gégnum daudann megi inngánga til eilífs lífs, fridar og fagnadar; veit mér sem Guds barni í grøfina ad leggjast, svo eg sem Guds barn megi á sídasta degi fyrir þínum dómstóli birtast, Amen!

## 50. Píslar-Þánki.

Um vardhalds-mennina.

Og annann dag, þann sem eptir Adfánga-daginn er, søfnudust saman þeir yppurstu Prestar á-samt til Pílatum og søgdu: Herra! vær minnumst á þad, ad þessi svikari sagdi, þá er hann lifdi: eptir þrjá daga mun eg upprísa; af því skipa þú ad for-vara grøfina, allt til hins þridja dags, svo eigi komi hans Lærisveinar um nótt, og steli honum í burt, og segi fólkinu, ad hann sé upprisinn af dauda, og verdi hin seinni villan argari hinni fyrri. Píla-tus sagdi til þeirra: þar hafid þér vard-mennina, farid og forvarid sem þér hafid vit á. En þeir geingu í burt, og forvørudu grøfina med vard-mønnunum, og innsigludu steininn.

Ognarlegt er um þad ad hugsa, mín sál, hversu heitt ad bál heiptarinnar brennur í mannsins hjarta, þegar þad hefur ecki Guds kjærleika í sér blífandi, þad má med øllum rétti þar um segja, sem Postul-inn Jakob vottar um vonda túngu, ad þad er upp-tendrad af Helvíti, Jak. 3. Þetta má ljóslega sjá af dæmi hinna gudlausu Gydínga, hverra heiptar-gédi og hjartans íllsku þad þókti ecki nægja, ad þeir høfdu hinn saklausa Jesúm svo hryggilega qvalid og hørmulega útleikid í lífinu, heldur lasta þeir líka hans blessada nafn og minníng í grøfinni. Varastu, ó madur! svoddan fíflsku og forblindada heiptrækni, ef þú villt vera Guds barn og vinur; lastadu aldrei né líttu moldir edur minníng framlidinna manna, fordastu þeirra vondu víti, ef þú veitst nockur verid hafa, en legg engan løstunar eda sakfellis dóm þar á; því hverr

ert þú sem annarlegann þjón dæmir, sá dauði stendur og fellur sínum herra, Róm. 14. Gjæt því sem best í Guds ótta ad þínum eigin høgum, og hugsa til þess, ad Drottinn er sá, sem dæmir þig, 1. Cor. 4.

Gydíngar þeinktu ad nidurþryckja og dempa dýrd Drottins upprisu, med því, ad beidast vardhalds-mannanna, sem grøfina skyldu vakta; en þad sama hefur Drottins alvísa rádstøfun látid henni verda til ljósasta vitnis og vídfrægustu vegsemdar; því hefdu ecki vard-mennirnir verid tilsettir hjá grøfinni, þá hefdu þeir haft stærri orsøk til ad efast um Lausnar-ans upprisu; en nú hafa þeir sjálfir berlega og aug-ljóslega vitnad um allt þad sem hjá Guds Sonar grøf gjørst hafdi, Matth. 28. svo ecki gátu sjálfir kénnimenn Gydínga nidurþryckt þessum gudlega sann-leika. Þanninn ónítir almáttugur Gud øll svikrædi og vélabregd ógudlegra manna, nær honum blessud-um svo þóknast, en rád Drottins stendur støðugt ad eilífu, hans háleita nafni til ódaudlegrar vegsemdar, en øllum hans hjartkjærum børnum til æskilegra vel-ferla og vegleguſtu blessunar nota, Psálm. 33.

Allra sídarst leita eg aumur vesælíngur mínu hjarta og þaunkum hvíldar og huggunar vid þína h. grøf, minn háblessadi Lausnari Jesú! þín dýra greftran er mér daudlegri sképnu sæt svala-lind móti daudans ógn og ofbodi. Þú blessada Guds lamb barst mín-ar syndir í þinni bitru pínu mér til eilífrar miskunar; þú forlíkadir mig vid Gud med þínum dýra dauda og borgadir mína synda-sekt mér til eilífrar qvittunar, þú afmádir alla mína glæpi med þinni heiløgu greftr-an, og kastadir þeim í hafsins djúp þinnar grunnlausu miskunar, svo þeirra minning mun aldrei mér til

maklegs straffs, ad eilífu uppkoma, Mich. 7, Þannig hefur þú, Drottinn minn, minni yfirtrodslu hamlad, mína synd innsiglad, minn misgjörníng forlíkad, og mér, ásamt öllum ydrandi og trúudum sálum til æskilegustu blessunar, það eilífa réttlæti afrekad, Dan. 9. Láttu nú, Drottinn minn, þinn dýra dauda deyda mínar vondu gyrndir! lát þína heilögu greftran hylja mína ljótu glæpi! lát þína dýrdarfulla upprisu efla med mér allshláttada gudlega krapta, sem til lífsins og gudlegs athæfis þéna, 2. Pet. 1. Géf ad steinþró míns hjarta, sem þú hefur sjálfur med þínum nádar anda tilbúid, sé þér vel tilreiddur og þægilegur bústadur, hvar inni eg megi vefja þig, minn hjartans brúdgumi, í hvítum líndúkum heilagrar trúar, og smyrja þig med ylmandi smyrslum audmjúkrar og elskufullrar ydrunar. Hvíl þú svo, minn blessadi Jesú, í mínu mædda hjarta og brjósti, og veit mér hæga hvíld ad finna í þínum mjúka mystunar fadmi! lát þíns h. Anda himneskann nádar kraft innsigla þessa andlegu steinþró med öruggu og elskufullu trúnadar-trausti, svo ad eg sleppi þér aldrei, þángad til þú blessar mig med þinni dýrdarfullu návist og æskilegustu fagnadar sjón í eilífri himnanna gledi! Eja værum vér þar! Eja værum vér þar! en þér, þú líknarfulla lambid Guds, vor Lausnari Jesú Kristi! sé lof og dýrd, og speki, og þackir og heidur, og kraptur og styrkleiki frá eilífd til eilífdar, Amen!



# Bæn, sem lesast má eptir predikun á midvikudøgum í Føstu.

O þú alleina gódi Gud og gjædskurikasti miskunsemdanna Fadir! vér brotlegir syndarar, en þó þínar dýrkeyptar barna sképnur, krjúpum í dag á fótskør þína, og segjum þér med samstemmandi hjarta og munni audmjúkt lof og innilegustu ástar þackir fyrir þá óvidjafnanlegu nád og ómetanlegann kjærleika, ad þú þyrmdir ecki þínum eingétnum Syni, heldur gafst hann út til þess, ad hann skyldi lída þær sárustu qvalir oss sekum synda þrælum til sáluhjálpar og miskunar. Æ! hvernig mátti þitt miskunar hjarta taka sárara til vor synda þrælanna, enn svo, ad þú létst þad bitra sverd þinnar reidi gánga yfir þinn eingétna hjartans Son, í hverjum þú hefur alla þína velþócknan, svo þú mættir breida þinn mjúkann miskunar fadm á móti oss, sem af náttúrunni erum og vorum óvinir þínir? þú létst hann borga þad sem hann ecki rænti, svo þú gjæfir oss qvitta þá óbærilegu synda sekt, sem vér áttum ad lúka; þú létst hann saklausann lída þá hryggilegustu hegníng, svo vér sekir mættum hjá þér fá gledilega nád og fyrirgéfníng; þú létst hann lída qvalir og krossins dauda, svo vér skyldum ecki fortapast, heldur hafa þad eilífa lífid! ó Herra Gud! hvad var madurinn þess, ad þú minntist hans, og mannsins barn, ad þú vitjadir þess? lofi þig þar fyrir andinn vor, þú eilífi líknar brunnur, og allt hvad med oss er, þad lofsýngi þínu nádar nafni nú og ad eilífu.

Æ hjartagódi Gud og Fadir! þú sem gjørdir svo mikid miskunar verk á oss, þegar vér vórum þínir ó-

vinir; vèr grátbænum þig fyrir þíns Sonar sáru qvalir, apturloka aldrei fyrir oss þínu elsku hjarta; lát þína føðurlega mildi og miskun, náð og farsæld vara og viðhaldast yfir oss, sem erum fyrir þíns Sonar dauða forlíkaðir við þig. Lát þína heitu Foðurs elsku hræra þitt hjarta til að vægja oss og miskuna; lát hana hræra vor hjørtu til að óttast þig og elska af hjarta, til að þjóna þèr og þóknast af øllum kroptum alla vora æfidaga, svo enginn hlutur fái oss frá þinni elsku skilið.

O vor hábleßaði bróðir og hjartkjæri brúðgumi Herra Jesú Kristi, þú sem oss ert nú í þínu h. orði fyrir augum afmálaður alblóðugur og alsærður á krossinum hángandi, svo sem ein fórn og forlíkun fyrir vorar og allrar veraldarinnar syndir, með auðmjúku ávarpi hjartanlegrar elsku og lofgjørðar, bænar og andvørpunar, krjúpum vèr í dag að þínum krossi, þú krossfesti og bleßaði dýrðarinnar konúngur! oss brestur orðfæri og túngutak til að vegsama þann brennandi kjærleika, sem þú hefur auðsýnt oss til að víðfrægja þá náð og sáluhjálp, sem þú hefur afrekað oss, til að útmála þær bitru qvalir og qvellíngar, sem þú hefur liðið vor vegna. Vèr sjáum að sønnu, með tárum og trega, hversu þín bleßuðu sár hafa vorra synda vegna verið bólgin og svíðandi af qvølinni, en vèr vitum og trúum þó, Drottinn minn! að þitt bleßaða bróðurs og brúðguma hjarta hefur undir eins heitt brunnið og náqvæmlega sundurbrostið af elsku og miskun yfir oss, af lyst og laungun til vorrar eilífrar sáluhjálpar. O Jesú! vèr beigjum oss með blygðan fyrir þínum krossi, vèr horfum með sundurknosuðu hjarta á móti þínum blóð-faðmi, vèr leggjum vorar

trúar og bænar hendur inn í þín h. sár og benjar. O Herra! lát þá sáru hrigð og hørmúng, sem þú þoldir, vera vora æskileguſtu huggun og harma bót bædi í lífi og dauda; lát þær svídandi undir, sem þú barst, vera vort øruggt nádar athvarf og mjúka hvíldar sæng í allri vorri mædu og eymdanna erfidi; lát þá fossandi blód-dropa, sem þú úthelltir, hrína á vorum sálum og samvitskum til synda hreinsunar og svølunar, til réttlætis, helgunar og eilífrar endurlausnar. O vor krossfesti og blessadi Jesú! vér grátbænum þig; géf oss fúsann og falslausann vilja; auk oss gudlega og lifandi krapta, svo vér látum ævarandi minníng þinna ómrædilegu krossins qvala, krossfesta, deyda og dempa íllar og óstírilátar gyrndir vors spillta holds og blóds, svo vér aldrei med vantrú edur ydrunarleysi høtum þig, sem oss hefur svo hjartanlega elskad, og brjótum af oss þá nád og sáluhjálp, sem oss er med svo dýru verdi afrekud.

O þú heilagi og hábletsadi Drottins andi! géf oss øllum ad geyma og vardveita þau lífsins ord, sem vér nú í dag af Lausnarans krossi heyrt høfum, í gódum og sidsømum hjørtum, og færa þar af ávøxt í þolinmædi. Lát þess krossfesta Jesú minníng, fyrir þinn guddómlegann miskunar krapt, innskrifast og þrykkjast í allra vor brjóst og hjørtu, þínu háleita nafni til lofs og dýrdar, en oss til sáluhjálplegrar trúarstyrkíngar, til gudrækilegrar lifnadarins leidréttíngar, til tímanlegrar og eilífrar blessunar. Bænheyr oss, þú blessadi Gud, einn í þrenníngu, og þrennur í einíngu, hædst lofadur og hjartanlegast vegsamadur nú og ad eilífu, Amen!

# Fjøgur Sálm-vers.

qvedin af

Síra Mágnúsi Sál. Einarssyni á Tjørn.

Lagid: Nú bid eg Gud! þú nádir mig.

O minn Jesú! í undum þín, øll er sáluhjálp fólgin mín, hjartans þá ángist hrellir mig, huggunin er ad veit eg þig, hafinn á krossins harda tré, hér fyrir þá eg ydrandi, fadma í trúnni Frelsarann, fordæma engin synd mig kann.

2. O minn Jesú! þitt edla blód, er mín hreinsunar laugin gód, saurugu hjarta syndum af, sock eg nidur í þetta haf, fallinn grátandi fram fyrir þig, frá þér muntu ei hrekja mig, þínu fyrst blódi þvegin er, þad hrópar miskun yfir mér.

3. Í Jesú dauda eg víst sje, þá øndin mín stynur sorgande, stillt er Guds reidi straung og hørd, en stiftud blessud sáttargjørd, fullkomin vissa um vægd og nád, veitist þér sála mín fárád, því í hans dauda er innsiglud, eilíf forlíkun þín vid Gud.

4. Í Jesú grøf er øll mín synd, (ó þá huggunar sæta lynd), og sem í grunnlaust sjáfar haf, sockin nidur; en hann mér gaf, eilíft réttlæti og sjálfann sig, sína brúdur því nefnir mig, lofadur sértu gódi Gud, gjørvøll er skuldin betølud, Amen!



# Þriú Sálm-vers.

qvedin af

Síra Haldóri Sál. Hallssyni.

Lagid: Heyr mig Jesú lækning lída.

Kyssi eg Jesú qvala undir, klárum trúar munni þó, ángist hans og eymdar-stundir, eilífann mér fögnud bjó, bætti hann fyrir misgjørd mína, mig kann djøfull ecki ad pína, fjandans hleckir féllu af mér, fyrir þad Jesú þacka eg þér.

2. Eg vil bída, eg vil þreya, unda flód þitt hugg-ar mig, eg vil lída, eg vil deya, ó Jesú! svo eg kyssi þig, eg vil þér til fóta falla, flatur um mína daga alla, láta hjarta og huga minn, heidra þig fyrir kraptinn þinn.

3. Daudi þinn mér dæmir lífid, daudans neyd er horfin øll, þegar eg dey, mun þrauta kífid, þverra, neyd og eymd gjørvøll. O! þú daudans daudi fyrsti, sem dóst og lifir, Jesú Kristi, lát mig deya meiga mér, minn Jesú, svo lifi eg þér.



